# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga







XXXX. ÁR

WINNIPEG, MANITOBA



# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XL. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1958

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, landstjóri Canada
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, Hanover, New Hamphire, U. S. A.
Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Syndney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blönduósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
Dr. Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Noregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, fyrv. forseti Ríkisháskólans í North Dakota
Próf. Ásmundur Guðmundsson, biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, sendiherra, Bonn, Þýzkaland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg, Manitoba
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.
Gunnar Thoroddsen, borgarstjóri, Reykjavík
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis.
Guðmann Levy, fjármálaritari félagsins, Winnipeg

**C. Styrktarmeðlimir 1958**

Mr. Th. Myrman

Mr. Jón Johnson

Mrs. Thordís Jónsson

Mr. & Mrs. Guðmann Levy

Mrs. Kristín Johnson

Mrs. Kristín Thorsteinsson
Gimli, í minningu um:
Hallgrím G. Sigurðsson,
dáinn des. 1957,
Sigurjón Jóhannsson,
dáinn marz 1958.

Mr. Páll Guðmundsson,
Leslie.

Miss Sæunn Bjarnason,
Gimli, í minningu um:
Sigríði og Ásmund P.
Jóhannsson.

Mr. J. Ragnar Johnson,
Wapah

Dr. Richard Beck
í minningu um:
Mrs. Berthu Beck.

Mr. J. W. Johannson,
Pine Falls.

Mr. K. W. Johannson

Mr. Grettir L. Johannson

**D. Ævifélagar**

K. Valdimar Björnsson,
Minneapolis, Minn.
U. S. A.

Dr. Helgi P. Briem,
Consul General of Iceland,
Bonn, Germany

Grettir Eggertson,
Winnipeg, Man.

Eric Ísfeld,
Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson,
Icelandic Danish Consul
Winnipeg, Man.

J. W. Johannson,
leikhússtjóri,
Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson,
Winnipeg, Man.

Guðmann Levy,
Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy,
Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy,
hreppstjóri, Ósum,
Húnavatnssýslu, Íslandi

Gunnar R. Pálsson,
New York, U. S. A.

Rev. P. M. Pétursson,
Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson,
Seven Sisters Falls, Man.

Dr, P. H. T. Thorlakson,
Winnipeg, Man.

Björn Björnsson,
Consul of Iceland,
Minneapolis, Minn.,
U. S. A.

Dr. Árni Helgason,
Wilmette, Ill., U. S. A.

**E. Ársfélagar**

1. CANADA

**Atikokan, Ont.**

Einar I. Swanbergson

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason

**Markerville, Alta.**

Jakob K. Stephanson

**Foam Lake, Sask.**

Mrs. Steinunn Inge

**Montreal, Que.**

Mrs. H. L. Robson

**Prince Rupert, B.C.**
Mrs. Fríða Philipson
Kristján Einarsson

**Piney, Man.**
Jón Ásmundson
Mrs. B. E. Björnsson
Skafti V. Eyford
Victor Freeman
Kristinn Norman
P. S. Pétursson
Pétur Stefánsson
Mrs. Emma Thorvaldson

**Riverton, Man.**
Hallgrímur Jóh. Stadfeld

**Saichton, B.C.**
Mrs. Thordís Fisher

**Vancouver, B.C.**
Mrs. S. Johnson

**Wapah, Man.**
J. Ragnar Johnson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. Gyða Hurst
J. A. Eastman

**Wynyard, Sask.**
Gunnar Jóhannson
Jakob J. Norman

2. BANDARÍKIN

**Arlington, Va.**
Mrs. J. Sigmundson

**Boston, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundsson
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Kapt. Óskar Gíslason
David Love
Ólafur Sigbjörnsson

**Brennan College, Gainesville, Gorgia**
Miss Kristín H. Pétursd.

**Gashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Cismont, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundsson
University of N. Dak. Library.

**New Brunswick, N.J.**
Próf. Helgi Johnson
Rutgers University Library.

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Oceanside, L.I., N.Y**
Andrés Guðmundsson

**Salinas, Calif.**
Próf. Loftur Bjarnason

**Seattle, Wash.**
J. J. Middal

**Des Moines, Wash.**
Mrs. Mekkin S. Perkins

**Ævifélagar**

Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Waltre Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld.

**Meðlimaskrá Fróns 1958**

Harold Axdal
Hannes Anderson
Mrs. S. Anderson
Jón Ásmundsson
Jochum Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Soffía Benjamínsson
Jóhann Th. Beck
Svanhvít Beck
Shirley G. Black
Rafnkell Bergson
Andrés Björnsson
B. E. Björnsson
Gunnar Brynjólfsson
Davíð Björnsson
Rósa Björnsson
O. G. Björnsson
Guðrún Brandson
Ásgerður Brandson
Haraldur Bessason
Ásgerður Bessason
Ingibjörg Butler
Ólafur Björnsson, Seattle.
Guðrún Baldvinsson
Gunnar Baldvinsson
Marja Björnsson
Dr. Sveinn Björnsson
Jóhannes Christie
Friðmunda Christie
Jóhanna Cooney
Jón Christopherson
H. F. Danielson
Mrs. H. F. Danielson
Lína Dunning
Mrs. R. Davidson
Gestur Davidson
C. O. Einarsson
Árni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
Stefanía Eydal
Gunnar Erlendsson
Dr. Valdimar J. Eylands
Kristinn Eyjólfsson
Grettir Eggertson
Jens Elíasson
Hávarður Elíasson
Guðrún Eyjólfsson
Ólavía Finnbogason
G. Finnbogason
Fred Friðfinnsson
Ása Friðriksson
Victor Freeman
Þorvaldur Guðmundsson
Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Jónbjörn Gíslason
J. S. Gillies
Mrs. J. S. Gillies
Olgeir Gunnlaugsson
Magnús Gunnlaugsson
Matta Gunnlaugsson
Kristinn Gunnlaugsson
Kár Guðmundsson
Júlía Guðmundsson
Carl Hansson
Ben Heiðman
Karólína Heiðmann
Rósa Hjartarson
Elín Hall
Árni Bjarnarson
Steindór Steindórsson
Páll Hallson

Magnús Elíasson
Th. Hansson
Fanney Helgason
Thor Otto Hallson
Jón Hafliðason
Anna Halldórsson
T. L. Hallgrímsson
Th. Ísleifsson
Mrs. Th. Ísleifsson
Björg Ísfeld
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Rósa Jóhannsson
Kristín Johnson
S. J. Jóhannesson
Skúli Jóhannsson
Erika Jóhannsson
Ingibjörg Jóhannsson
Bertha Jones
Jónas Jónasson
Mrs. Jóhanna Jónasson
Ingibjörg Johnson
J. G. Jóhannsson
Þorlákur Johnson
Jón Jónatansson
Paul S .Johnson
J. Johnson
Ólína Johnson
Ásmundur Jónsson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
Dr. Björn Jónsson
Jón Jóhannsson
Christine Jóhannsson
Veiga Johnson
Hlaðgerður Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
Mrs. Lúðvík Kristjánsson
W. Kristjánsson
J. J. Líndal
Una Th. Líndal
W. J. Líndal
H. V. Lárusson
Ari G. Magnússon
Jóhann Magnússon
Sumarliði Matthews
Magnús Magnússon
Kristján Mikkelsson
Inga Mikkelsson
Þorsteinn Mýrman
K. Norman
Jakobína Nordal
Benedikt Ólafsson
Snorri Olson
Guðrún Ólafsson
Óli Ólafsson
Dr. Tryggvi J. Oleson
Elva Oleson
Sveinn Oddsson
Valgarður Oddsson
Jónína Olson
Margrét Paulson
William Paulson
Guðbjörg Paulson
A. G. Pálsson
Sigríður Phepps
Þórey Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur J. Pétursson
Thorvaldur Pétursson
P. S. Pétursson
Hannes J. Pétursson
Margrét Sigurðsson
Rósa Sigfússon
Pétur Stephanson
Björn Stephanson
Bergljót Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regina Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
María Sigurðsson
Guðm. A. Stefánsson
Ragnar Stefánsson
Hannes M. Sveinsson
Guðrún Sveinsson
Björgúlfur Sveinsson
Mrs. J. B. Skaptason
Einar Sigurðsson
Ingi Sveinsson
Líney Sveinsson
Kristín Sveinsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Emma Thorvaldsson
Soffanías Thorkelsson
Valgerður Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Margrét Thorbergsson
Valdheiður Thorláksson
Geir Thorgeirsson
Thor Thorsteinsson
Thor Viking
Ólöf Viking
Carl Vopni
Helgi Westman.

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI ÁRGANGUR, 1958

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1959

# Efnisyfirlit

Bls.

Gutt. J. Guttormsson: Háðleikur atvikanna .......... 5

Dr. Richard Beck: Gutt. J. Guttormsson áttræður .......... 7

Snæbjörn Jónsson: Nokkur kvæði .......... 17

Dr. J. P. Pálsson: Sendibréf (saga) .......... 21

P. S. Pálsson: Dís lífsins .......... 41

Dr. Stefán Einarsson: Ísland og íslenzkar bókmenntir .......... 43

Dr. S. E. Björnsson: Blómidon höfðinn (þýtt) .......... 56

Snæbjörn Jónsson: Íslenzk ljóð í enskum þýðingum .......... 57

Jakobína Johnson: Ég horfi lengi .......... 61

L. F.: Barið að dyrum .......... 62

Gísli Jónsson: Íslenskur skólaskáldskapur .......... 65

Kristján Jónsson: Gestakoman .......... 67

Dr. Richard Beck: Helztu viðburðir .......... 80

Mannalát .......... 86

Þrítugasta og níunda ársþing Þjóðræknisfélagsins .......... 93

Tvær nýar ljóðabækur .......... 112



Guttormur J. Guttormsson

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON:

# Háðleikur atvikanna

Í innflytjendahúsi var hópur flóttamanna,
sem hörmuðu sína ættjörð, sitt frændalið og granna.
Þeir skildu hverir aðra, en ekki landsins þegna,
sem öðru máli fremur en þeirra höfðu að gegna.

Og dapurt var þar inni, þar heyrðist enginn hlátur,
þar heyrðist bara stunur og niðurbældur grátur.
Ei orka mundi þögnin að hylja hjartasárin,
né hvarmar, jafnvel luktir, að innibyrgja tárin.

Þar engu var að fagna, en ótalmargs að sakna.
Frá ömurleik að sofna var ljúft, en raun að vakna
þess vís, að endurplöntun ei veitti sárabætur.
Hver veit hve mikil þjáning er trénu að festa rætur?

Hvort mundi ekki flóttinn að fullu verða að slysi,
í friðarhöfn þótt væri þeim lýst með skæru blysi?
Hvað framtíð bar í skauti af fortíð varð ei ráðið,
en fyrir öllu kviðið og róið fram í gráðið.

Þá heyrðust strengir syngja og tala sínum tungum,
með töfrasprota slegnir af flóttamanni ungum,
þeir heyrðust allir mæla á máli, er allir skildu,
og meira af svo góðu og fleira heyra vildu.

Af trjágarðinum heima þeir fundu ilminn inni,
hver yndisstund og gleði þeim vaknaði upp í minni,
þeir heyrðu lóur kvaka og svani syngja á tjörnum
og silfurfossa duna og þungum snúa kvörnum.

Þeir réðu sér ei fyrir þeim fögnuð' er þeir hlutu,
hins fágætasta bezta síns ættarlands þeir nutu
og gleðin skein í heiði að gleymdu öllu stríði.
Hvort getur nokkur ráðið að tíminn ekki líði?

Sá strengjaleikur bara þá einu nótt var unun,
en eftir það var næðis og hvíldar fyrirmunun,
þeir kváðu svefns sér varnað af marri því og murri,
— og meinað var þess líka af þeirra eigin kurri.

Þeir mundu þó ei hafa við keipa sína kannast,
þótt klagað hefði verið og látið á þá sannast.
Þeir kváðu fast að orði og kröfðust að hann hætti,
hinn kaldrifjaði þrjótur, þeim hjartalausa slætti.

En hljómleikarinn sagðist svo líta á, að listin
til líknar væri í nauðum og tjáning hennar kristin.
Og á sig kvaðst hann leggja ei minna, ef ekki meira
en menn, sem höfðu ekkert að gera nema heyra.

Hann sagðist aðeins hafa þá hæstu list að bjóða,
þau heimsmeistara-tónverk sem væru allra þjóða
og hlutgeng hvar sem væri og eftirsótt af öllum,
sem ekki væru þursar úr steini inni í fjöllum.

Hann hafði þetta talað, er löng var þögn í lagi,
og lengst hún hafði meira en skyldi, það var bagi,
og áfram hélt hann leiknum og lengri gerðist vakan.
Á lagaverði skorað var þá, að koma og taka hann.

---

Prófessor RICHARD BECK:

# Guttormur J. Guttormsson áttræður

Það er glöggur vottur þess, hve lög er orðin saga Íslendinga vestan hafs, að Guttormur J. Guttormsson bóndi og skáld á Víðivöllum við Íslendingafljót í Nýja Íslandi, varð áttræður þ. 21. nóvember 1958, en hann er barn hinna fyrstu landnámsára á þeim söguríku slóðum Íslendinga í Vesturheimi.

Þessa merkisafmælis Guttorms var, eins og vera bar, minnst með ýmsum hætti beggja megin hafsins. Á sjálfan afmælisdaginn gerðu margir sveitungar hans og vinir úr nágrenninu og víðar að honum heimsókn á Víðivöllum til þess að þakka honum fyrir það, sem hann hefir verið og afrekað, og samfagna honum með að hafa fyllt hinn fjórða tug aldarinnar. Honum barst einnig fjöldi af heillaóskaskeytum og bréfum frá forystumönnum og andlegum leiðtogum og öðrum vinum og velunnurum á Íslandi og í Kanada og Bandaríkjunum. Afmælisgreinar um hann birtust í íslenzkum blöðum beggja megin hafsins og íslenzka ríkisútvarpið helgaði honum sérstaka dagskrá á afmælisdegi hans; Finnbogi Guðmundsson cand. mag., fyrrum prófessor við fylkisháskólann í Manitoba, flutti erindi um skáldið og lesin voru upp kvæði eftir hann.

Ennfremur ritaði prófessor Haraldur Bessason gagnorða og góða afmælisgrein um Guttorm í tímaritið **The Icelandic Canadian**, er birti samtímis kvæði hans „Jarðgöngin“ á frummálinu og í prýðilegri enskri þýðingu dr. Watson Kirkconnells, ásamt fleiri sýnishornum úr kvæðum skáldsins.

Síðast en ekki sízt ber að geta þess, að þ. 6. desember 1958, efndi Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi til kvöldvöku í Sambandskirkjunni í Winnipeg til heiðurs Guttormi skáldi og frú Jensínu konu hans. Voru skáldið og frú hans þar, að verðleikum, örlátlega hyllt í ræðum og kvæðum, og með upplestri kvæða hans og söng ýmissa þeirra, sem lög hafa verið samin við. Sjálfur flutti Guttormur skáld í hófi þessu eftirminnilegt ávarp, þar sem einstæð kímni hans og djúp alvara voru haglega saman fléttaðar. Um þessa fjölmennu og ánægjulegu afmælissamkomu geta menn annars lesið nánar í vestur-íslenzku vikublöðunum.

En sú víðtæka athygli, sem áttræðisafmæli Guttorms vakti, ber því órækastan vottinn, hve mikilla vinsælda og hverrar virðingar hann nýtur meðal landa sinna á Íslandi og vestan hafs, og hve vel þeir

kunna að meta merkilegan og um margt sérstæðan skáldskap hans í bundnu máli og óbundnu.

I.

Guttormur J. Guttormsson er fæddur þ. 21 nóvember 1878 að Víðivöllum við Íslendingafljót í Nýja Íslandi, ekki 5. eða 15. desember eins og áður hefir talið verið. Heimildin fyrir hinum rétta fæðingardegi hans er kirkjubók séra Jóns Bjarnasonar frá prestsþjónustuárum hans í Nýja Íslandi, sem er í vörzlum frænda hans, dr. Rúnólfs Marteinssonar í Winnipeg, og skýrir frá því, að Guttormur hafi fæddur verið fyrrgreindan mánaðardag árið 1878 og skírður í heimahúsum (af séra Jóni) þ. 1. desember það ár. (Sbr. formálsorðin að bæklingi mínum, **Guttormur J. Guttormsson skáld**, er gefinn var út í tilefni af sjötugsafmæli skáldsins, Winnipeg, 1949).

Í þessu sambandi má ennfremur vitna til eftirfarandi ummæla Guttorms sjálfs í hinni ágætu grein hans um foreldra hans í bókinni **Foreldrar mínir**, sem Finnbogi Guðmundsson gaf út (Reykjavík, 1956):

„Á hverju ári hélt móðir mín upp á afmæli okkar bræðra. Afmælum okkar var slegið saman, af því að þau voru bæði í nóvember. Gaf hún okkur afmælisgjafir og bauð einhverju af kunningjafólki okkar upp á kaffi og súkkulaði'." — Hér á Guttormur við Vigfús skáld bróður sinn að Lundar, Manitoba, en hann er fæddur þ. 16. nóvember 1874.

Guttormur er kominn af traustum og kunnum austfirzkum ættum, en foreldrar hans voru þau Jón Guttormsson Vigfússonar alþingismanns eldra frá Arnheiðarstöðum í Fljótsdal og kona hans Pálína Ketilsdóttir frá Bakkagerði í Borgarfirði eystra, er komu vestur um haf til Ontario 1875, en fluttust stuttu síðar sama ár til Gimli. Fer Guttormur um Gimlidvöl þeirra og flutning þaðan þessum orðum í fyrrnefndri foreldraminningu sinni: „Þau fluttust til Gimli 1875; þar dvöldu þau hinn fyrsta fimbulvetur í Nýja Íslandi. Vorið eftir fluttust þau norður að Íslendingafljóti og settust að á heimilisréttarlandi föður míns, Víðivöllum, og áttu þar heima til æviloka." En í umræddri ritgerð Guttorms er eigi aðeins að finna glögga og sonarlega lýsingu á foreldrum hans, heldur er þar einnig brugðið upp mjög athyglisverðum myndum úr brautryðjenda baráttu þeirra og landnemalífinu almennt; um æsku- og uppvaxtarár skáldsins vísast þá einnig til þessarar fróðlegu ritgerðar hans.

Augljóst er af henni, að foreldrar hans hafa bæði verið prýðisvel gefin og bókhneigð að sama skapi. Um móður sína, er var fríðleikskona, fer Guttormur, meðal annars, þessum orðum: „(Hún) hafði fengið gott uppeldi, söngelsk, hafði fagra söngrödd, las allt, sem hún náði í, á ensku og íslenzku. Urðu margir til að ljá henni bækur og blöð." Auk þess var hún skáldmælt vel, eins og sjá má af kvæðum eftir hana, sem komu í **Framfara** og **Leifi**. Má því með sanni segja, að Guttormi sé skáldgáfan í blóð borin.

Föður sínum lýsir Guttormur á þessa leið: „Faðir minn átti fáar frístundir. Hann vann á sumrum við sögunarmylluna, frá sjö að morgni

til sex á kvöldin, og hafði búverkin í hjáverkum. Á kvöldin eftir sjö fór hann út með handöxi til að fella skóginn. Hann hafði því ekki tíma til bóklestrar né annarra andlegra iðkana nema helzt á vetrarkvöldum. Hann átti enga Íslendingasögubók, en hann sagði okkur efnið úr mörgum þeirra svo vel, að persónurnar urðu ljóslifandi. Efnið í Grettissögu, Laxdælu og Njálu varð okkur gagnkunnugt. Svo mikil áhrif hafði þetta á okkur bræður, að við létumst vera fornhetjur, smíðuðum okkur vopn úr tré og börðumst. Tunnubotnar urðu að skjöldum, okkar hversdags larfar að valnastökkum og brynjum og stráhattkúfar að skyggðum hjálmum." — Ekki er þá að undra, þó að hetjuandinn norræni hafi fest djúpar rætur í brjósti Guttorms, enda hefir hann sjálfur sagt, að það sé einmitt sú hliðin á íslenzkum bókmenntum, karlmennskan og þrótturinn, sem heillað hafi hug hans um annað fram, og þarf ekki langt að leita í kvæðum hans til þess að sjá þess glögg merki.

En föður hans var fleira til lista lagt heldur en snjöll frásagnargáfa, hann var sönghneigður mjög og listhneigður, drátthagur í bezta lagi. Guttormur á því ekki langt að sækja sönghneigðina fremur en skáldhneigðina, en hann er mjög söngelskur og hefir stofnað hornleikaraflokka bæði í heimabyggð sinni og víðar í byggðum Íslendinga vestan hafs, þar sem hann hefir átt dvöl, og þótt fara stjórn þeirra vel úr hendi. Í því sambandi má minna á hina gagnfróðlegu og skemmtilegu grein Guttorms, „Kynni mín af vestur-íslenzkri hljómlist," sem kom í riti þessu fyrir árið 1946.

Skólaganga Guttorms var mjög af skornum skammti, því að ungur að aldri hafði hann misst báða foreldra sína og orðið að sjá sér farborða á eigin spýtur. Vann hann framan af árum að hinum sundurleitustu störfum, og dreif þá margt á daga hans, enda komst hann svo að orði í bréfi til Jóns Jónssonar frá Sleðbrjót, sem tekið er upp í grein hins síðarnefnda um skáldið í **Óðni** 1918: „Ef ég færi, Jón minn góður, að segja þér ævisögu mína, einkum frá fyrri árum, yrði það engu minna og jafn voðalegt rit og ævisaga Sigurðar Ingjaldssonar (frá Balaskarði)." Eigi verður sú saga Guttorms rakin hér, en sögð er hún í nokkrum dráttum í framannefndum bæklingi mínum um hann sjötugan.

Árið 1911 festi hann kaup á landnámsjörð föður síns að Víðivöllum og býr þar enn. Hann hefir verið mikill gæfumaður í hjúskaparmálum sínum; á landnáms- og búskaparárunum í Grunnavatnsbyggð í Manitoba kvæntist hann Jensínu Daníelsdóttur Sigurðssonar frá Hólmlátri á Skógarströnd, sérstakri myndar- og ágætiskonu, sem verið hefir honum hin mesta stoð og stytta um meir en hálfrar aldar skeið. Þau hafa átt miklu barnaláni að fagna, eignuðust sex einkar mannvænleg börn, og eiga orðið heilan hóp barnabarna, er sverja sig ágætlega í ætt um manndóm og aðra hæfileika.

II.

Eins og þegar er gefið í skyn, er Guttormur að mjög miklu leyti maður sjálfmenntaður, og er það raunar gömul saga um íslenzk

skáld beggja megin hafsins. En hann hefir bætt sér upp stutta og slitrótta skólagönguna með víðtækum lestri íslenzkra og erlendra rita, en um það atriði, þó mikilvægt sé, verð ég að láta mér nægja að vísa til ofannefnds bæklings míns um skáldið. Þar er því lýst allítarlega hvaða rit hann hefir einkum lesið um dagana, og er sú lýsing byggð á hinni öruggustu heimild, en það eru bréf skáldsins sjálfs til dr. Watson Kirkconnells, hins kunna Íslandsvinar og snjalla ljóðaþýðanda, er hinn síðarnefndi tók upp í merkilega ritgerð sína um Guttorm í ritum Hins konunglega vísindafélags í Kanada ("A Skald in Canada," **Translations of The Royal Society of Canada,** 1939).

Þessi víðtæku kynni Guttorms af íslenzkum og erlendum bókmenntum sýna það, að skáldskapargáfa hans og lífsskoðun hafa þróast við strauma úr báðum þeim áttum, og hefir það vafalaust hvort tveggja í senn víkkað honum útsýn yfir mannlífið og dýpkað skilning hans á því, en jafnframt er hann of sjálfstæður í hugsun til þess að gerast sporgöngumaður, hvað þá eftirherma, þeirra höfunda, sem hafa heillað hug hans mest. Hitt er eigi nema eðlilegt, að sjá megi nokkur merki kynna hans af erlendum höfundum í skáldskap hans, t. d. í bragarhættinum frá Edgar Allan Poe, sem snilldarkvæði Guttorms "Sandy Bar" er ort undir, enda segir hann í bréfi til dr. Kirkconnells: — „Skapandi skáldgáfa Edgars Allans Poes, ímyndunarafl hans og andans þróttur, hafa einnig heillað hug minn.“

Annars er það eitt hið athyglisverðasta og ánægjulegasta um Guttorm sem skáld, hvað hann hefir farið sinna ferða í skáldskapnum, hve mikils frumleiks í efnis- og orðavali, og viðhorfinu til yrkisefnanna, gætir í kvæðum hans. Og ritstörf hans eru mikil að vöxtum og harla fjölskrúðug, ekki sízt þegar það er réttilega tekið með í reikninginn, hve afstaða hans til ritstarfanna hefir verið örðug, hann hefir orðið að vinna þau í hjáverkum frá annasömu dagstriti bóndans, sem orðið hefir að sjá fyrir stórum fjölskylduhóp.

Eftir hann hafa komið út þessar ljóðabækur: — **Jón Austfirðingur** (1909), **Bóndadóttir** (1920), **Gaman og alvara** (1930), sem, auk nýrri kvæða, hefir inni að halda meginefnið úr eldri kvæðabókum hans, og **Hunangsflugur** (1944). Eru bækur þessar allar prentaðar í Winnipeg. Á vegum Iðunnarútgáfunnar í Reykjavík kom því næst út árið 1947 vönduð heildarútgáfa kvæða Guttorms fram að þeim tíma, er Arnór Sigurjónsson rithöfundur hafði búið til prentunar og fylgdi úr hlaði með ítarlegri og efnismikilli ritgerð um skáldið. Í tilefni af áttræðisafmæli skáldsins gaf Helgafell í Reykjavík út síðastliðið haust nýtt og allmikið safn ljóða Guttorms, sem nefnist **Kanadaþistill**, ekki „Kanadapistill,“ eins og sést hefir eigi óvíða á prenti, þó að ljóð þessi, eins og mörg fyrri kvæði skáldsins, beri að ýmsu leyti ættarmót hins kanadiska umhverfis hans.

Enskar þýðingar af allmörgum kvæðum Guttorms hafa komið í þýðingasöfnum og tímaritum vestan

hafs; ennfremur hafa eigi allfá þeirra verið þýdd á frönsku. (Smbr. fyrrnefndan bækling minn um skáldið).

Af ritum Guttorms í óbundnu máli er merkast safn leikrita hans, **Tíu leikrit**, sem Þorsteinn Gíslason gaf út í Reykjavík 1930. Síðan hafa leikrit eftir hann komið út í íslenzkum tímaritum austan hafs og vestan og vakið verðskuldaða athygli. Um leikrit hans ritaði Lárus Sigurbjörnsson í Reykjavík, sem er manna fróðastur í þeim efnum, mjög eftirtektarverða grein í **Lögréttu** (1935). Einnig hefir dr. Stefán Einarsson prófessor ritað um þau í kaflanum um Guttorm í ritgerð sinni, „Vestur-íslenzkir rithöfundar“, í riti þessu fyrir árið 1950.

Í vestur-íslenzkum blöðum og tímaritum, sérstaklega í þessu ársriti, á Guttormur einnig merkilegar ritgerðir og erindi, sem varpa um margt ljósi á líf og baráttu Íslendinga vestan hafs á frumbýlingsárunum, og bera sterkan svip kímnigáfu hans og frumleiks í hugsun og máli.

III.

Allmikið hefir þegar verið ritað um skáldskap Guttorms J. Guttormssonar eins og hann lýsir sér í kvæðabókum hans fram til þeirrar nýjustu, og sjálfur hefi ég leitast við að gera því efni nokkur skil, sérstaklega í fyrrnefndum bæklingi mínum um skáldið. Verður það ekki endurtekið hér, en umsögn sú, sem á eftir fer, einkum bundin við nýjustu ljóðabók hans, þó að þræðirnir þaðan verði einnig raktir til fyrri kvæða hans, eftir því, sem rök standa til.

Í fyrstu bókum sínum, **Jóni Austfirðingi** og **Bóndadóttur**, sótti Guttormur yrkisefni sín sérstaklega í frumbyggjalíf og harðvítuga landnámsbaráttu Íslendinga í Nýja Íslandi, en túlkaði það á svo breiðum mannlegum grundvelli, að sú mynd, er hann dró þar átakanlegum og áhrifamiklum dráttum, varð samtímis raunsönn lýsing á hliðstæðri baráttu íslenzkra frumbyggja annars staðar vestan hafsins. Er það einkunn og aðall hinna sönnu skálda að taka nærtæk kvæðaefni sín þeim tökum, að þau eignast í meðferð þeirra slíkt algildi, að þau eru hafin yfir stað og stund, túlka, í fáum orðum sagt, sammannleg örlög.

Í ýmsum öðrum kvæðum í seinni bókum sínum, og í mismunandi tóntegundum, alvöru, gáska eða glettni, slær Guttormur á sömu eða skylda strengi, yrkir um landnema og landnemalíf. En þessa gætir tiltölulega lítið, að minnsta kosti beinlínis, í nýjustu ljóðabók hans. Ákveðnast kemur það fram í kvæðunum til Friðriks Sigurðssonar, Bergs Hornfjörðs og Sigurðar Sigurðssonar, og í erfiljóðunum um þá Guðmund Lambertsson gullsmið og Böðvar H. Jakobsson, enda voru allir þeir mætu menn, sem kvæði þessi eru helguð, í hópi landnemakynslóðarinnar íslenzku í Vesturheimi. Þessir samferðamenn skáldsins voru honum vafalaust einnig sérstaklega vel að skapi fyrir það, hve íslenzkir þeir voru í anda og trúir hinu bezta í ætt sinni og menningarerfðum.

Þá er annað, sem svipmerkt hefir kvæði Guttorms frá upphafi vega hans á skáldskaparbrautinni, en það eru glöggar og snjallar, oft mjög frumlegar, náttúrulýsingar; glæsi-

leg dæmi þeirra er að finna í öllum kvæðabókum hans, og ekki sízt þeirri síðustu. Eigi hefir hann ort svipmeiri náttúrulýsingu heldur en hið stórbrotna kvæði „Klettafjöllin“ í þeirri bók sinni, en það kvæði, eins og ýmis önnur ágætiskvæði í hinu nýja ljóðasafni hans, var á sínum tíma birt í þessu riti. Í Klettafjallalofsöng hans (og vissulega eru þau drápunnar verð) fara saman mikil rím- og málsnilld, skáldlegt hugmyndaflug og innsæi. Og ekki ætla ég það fjarri sanni, að trúarjátning Guttorms sem skálds felist í lokaerindi kvæðisins:

Sú list í því fólgin að fegra
hið fagra, við hámarkið ber.
Því fagra að spilla
það er athæfi 'ins illa
og afskræmi raunverulegra
en guðanna öfugmynd er.
En síunga fjalldísin, fjallanna sál
allt fegrar með hulinni nálægð
og prýðir,
hún fegrar sitt rann
eins og mannssálin mann,
og markmiðið reynist ei tál —
sönn list hennar lögmáli hlýðir.

Í umræddu kvæði og mörgum öðrum ljóðunum í þessari nýju bók hans staðfestir Guttormur það, sem löngu var orðið kunnugt af eldri kvæðum hans, að hann er óvenjulega rímsnjallt skáld. Hinir fjarskyldustu bragarhættir, fornir og nýir, íslenzkir og erlendir, fara á kostum í höndum hans. Í þessari bók hans eru allmargar kliðhendur (sonnettur) og athyglisverðar að sama skapi, svo sem „Úti í óbyggðum Manitoba,“ sem er bráðsnjöll náttúrulýsing, og þá eigi síður „Snjókornið,“ þar sem hæfileiki skáldsins til þess að lýsa hinu ytra og djúp íhyggli hans renna í einn farveg á sérstaklega listrænan hátt:

Snjókornið skæra, kristals
víravirkið,
viðkvæmt og samgert, kemur þó
til jarðar
heilt innan sviga sinnar
megingjarðar,
af því er dimma hríðin, hvíta
myrkrið.

Samt verður dýrð af dýrstu
eðalsteinum
döpur hjá því, er skín við tungli
og sól,
stundum sem fjúki stjörnudust
í skjól,
sólgneistar hrökkvi af hrímgum
viðar greinum.

Eilífðarblóm úr ís, þó bráðni og
þorni,
eimur það verði, daggartár og lind,
sálin þess mun hin sama áfram
halda.

Hún er hin sama á heimsins kvöldi
og morgni,
hásæti skipar efst á jökultind.
Því, sem er eilíft, efstu tindar falda.

Eins og kunnugt er, þáði Guttormur virðulegt heimboð til Íslands árið 1938 af hálfu ríkisstjórnar og Alþingis, og var honum með því maklegur sómi sýndur. Varð honum sú fyrsta og fram að þessu eina ferð til ættjarðarstranda efni ýmissa ágætiskvæða, og er eitt þeirra hið gullfallega kvæði hans „Ísland“

(Um höfin við réttum vort handaband) í **Hunangsflugum.** Í nýjustu ljóðabók hans eru nokkur kvæði, sem eiga rót sína að rekja til Íslandsfararinnar, og í þeim flokki eitthvert allra fegursta kvæðið í bókinni og um leið ein af ágætustu náttúrulýsingum skáldsins, „Nótt á Norðurlandi“; ort mun það kvæði hér vestan hafsins, en íkveikjan er úr heimförinni, og íslenzk er sú litaríka næturlýsing og tilkomumikla, sem þar er af ríkri orðsins list felld í umgerð mynda málsins og slungin hljómtöfrum þess.

Ádeila, sem á sér djúpar rætur í sterkri réttlætistilfinningu Guttorms, hefir ennfremur frá byrjun skáldferils hans verið eitt af megineinkennum kvæða hans. Hefir hann ort mörg rammaukin ádeilukvæði, þar sem hann lætur svipu kaldhæðni sinnar dynja á óheilindunum í lífi manna og lundu, en vegur um annað fram óvægilega að ranglætinu í mannlegu félagi og hvers konar kúgunarvaldi.

Í nýjustu kvæðabók sinni slær hann einnig á þann strenginn, svo sem í hinu napuryrta kvæði „Samsætið.“ Mesta og eftirtektarverðasta ádeilukvæðið í bókinni er þó kvæðaflokkurinn „Aftökur“, „sem fjallar um svartasta blettinn á siðmenningunni“, að vitnað sé til inngangsorða höfundar að kvæðinu, þar sem hann lætur þess einnig getið, að það sé byggt á tveim merkum tímaritsgreinum, er hann tilgreinir. Í heild sinni hittir kvæði þetta vel í mark, og grunnt er þar, eins og í öðrum slíkum kvæðum skáldsins, á djúpstæðri samúð hans með þeim, sem beittir eru misrétti og fara halloka í lífsbaráttunni. Mannást hans og friðarást lýsa sér einnig eftirminnilega í kliðhendunni „Alþýða allra landa“.

Af skyldum toga spunnið er kvæðið „Dóttir Ajasar“, en er þó í enn ríkara mæli lofsöngur um fórnfúsa móðurástina, sem á sér engin takmörk. Þá kennir eigi lítillar kaldhæðni í formálskvæði bókarinnar um Kanadaþistilinn og rússneska þistilinn, og ekki mun athugulum lesanda verða skotaskuld úr því að fara nærri um það, hvað vakir fyrir skáldinu með þeirri táknrænu þistlalýsingu sinni. Í kvæðaflokknum „Héðan og handan“ er kaldhæðninnar eigi heldur um langan veg að leita, en annars er þar slegið á hina ólíkustu strengi, og kennir þar því margra grasa.

Náskyld ádeilukvæðunum að efni til eru þau kvæði Guttorms, sem segja má, að séu heimspekilegs efnis, í víðtækri merkingu þess orðs, en hann hefir um dagana ort mörg merkileg kvæði þeirrar tegundar. Í umræddri ljóðabók hans er kvæðið „Vantrúarmenn“ merkast kvæðanna af því tagi, en þetta er síðasta erindið:

Þeim lízt, þó ei sannað sé það mál,
að sálin sé kveikt og slökt sem bál,
hver sál eigi sólgneista falda;
þó sálin sé slökt, muni ljós hennar
áfram halda;
og sennileg finnst þeim sú sögn
og góð
að sálarkveikjan sé eilíf glóð
og kvikni af sálum sál um aldir alda.

Er þá stutt spor að stíga til þeirra kvæðanna, sem drjúgum setja svip sinn á þessa nýjustu kvæðabók

Guttorms, en það eru hin tiltölulega mörgu táknrænu ("symbolisku") kvæði hennar. Þess konar kvæði er að vísu að finna í öllum kvæðabókum skáldsins, en þeim hefir stöðugt farið fjölgandi á seinni árum. Kunnast fyrri kvæða hans þeirrar tegundar er vafalaust „Býflugnaræktin", enda er það prýðilega ort og nær ágætlega tilgangi sínum. Um það fer dr. Guðmundur Finnbogason svofelldum orðum í inngangsritgerð sinni að safnritinu **Vestan um haf** (1930): „Get ég ekki stillt mig um að benda á hið frumlega kvæði hans „Býflugnaræktin". Það er í senn mynd af einum þætti í búskap Kanadamanna, sem geyma býflugnabú sín á vetrum niðri í kjallara, og djúpsæ lýsing á undirheimum sálarlífsins, löngunum vorum og hugsjónum, er oft verður að bæla niður, vegna óblíðra lífskjara, í von um betri tíma, en verða svo að lokum „hart nær hungurmorða" og stinga sem vond samvizka." Þetta er vel sagt og laukrétt athugað. Skáldið hefir í þessu snilldarkvæði á táknrænan hátt sagt sína eigin andlegu þroskasögu, en jafnframt tekist að gera hana algilda táknmynd hliðstæðrar harmsögu annarra. Af eldri táknrænum kvæðum hans má ennfremur nefna kvæðið „Birnir", sem er einnig frábærlega vel gert og mikið nýmæli í íslenzkri ljóðagerð.

Í nýjustu ljóðabók hans eru þessi táknrænu kvæði: „Á lánshesti", „Torfbærinn", „Jarðgöngin" og „Broddi", að talin séu hreinræktuðustu kvæðin af því tagi í bókinni, sem öll eru vel ort og hin athyglisverðustu.

Jafnframt því og kvæðið „Torfbærinn" er táknræns eðlis, verður það raunsönn og áhrifamikil lýsing á því gróðurríka andlega lífi, sem þróaðist á torfbæjunum í íslenzkum sveitum öldum saman, eins og þessi erindi bera fagurt vitni:

Listin var hinn ljúfi gestur,
langra kvelda hæfði vökum,
skinnhandrita skemmtilestur,
skáldin létu fjúka í stökum.

Gesturinn kvað með glöðum snótum
gamalkunnu rímnalögin,
eftir sínum eigin nótum,
undir léku hjartaslögin.

Snúningsþytur snældna og spólna,
snilldar-strokhljóð kambatinda
kliðuðu á vökum vetrarsólna
værukæru næði að hrinda.

Enn meira snilldar handbragð er þó á kvæðinu „Jarðgöngin", enda telur dr. Watson Kirkconnell það, ef til vill, mesta ljóðaafrek ársins ("Perhaps the finest prosodic achievement of the year") í yfirliti sínu yfir kanadiskar bókmenntir á öðrum tungumálum en ensku fyrir árið 1957 (**University of Toronto Quarterly**, haustheftið, 1958).

Rauntrú lýsing skáldsins á ferð járnbrautarlestarinnar um jarðgöngin og út í dagsljósið handan þeirra verður glögg og minnisstæð táknmynd af æviför mannsins og von hans um:

upphaf nýrrar og betri ferðar
undir himinloftum lýstum
ljósi hinumegin grafar.

Guttormur hefir, að vonum, ort fjölda tækifæriskvæða, og bera þau

eðlilega merki slíks kveðskapar, en eru jafnframt ósjaldan frumleg um hugsun, málfar og samlíkingar, og margt er þar fallega sagt og viturlega.

Í nýjustu kvæðabók hans eru eigi allfá slík kvæði og hefir sumra þeirra þegar verið getið, meðal annars erfiljóðanna um þá Guðmund gullsmið Lambertsson og Böðvar H. Jakobsson, sem eru prýðisvel ort og ágætar mannlýsingar. Minningarljóðið um Böðvar er allt í hringhendum og fara tvær þeirra hér á eftir, og bera þær gott vitni bragfimi höfundarins:

Margra hljóða, hrygga lund
hann af sjóði gladdi,
dýru ljóði á dapri stund
dáinn bróður kvaddi.

Vísnagand hann vinur minn
víða þandi um geima,
ræktaði andans akur sinn
eins og landið heima.

Svipmest tækifæriskvæðanna í bókinni er þó „Stiklað á steinum“, ort í tilefni af aldarafmæli Stephans G. Stephanssonar; er það hvort tveggja í senn hjartaheitur og hreimmikill óður til Íslands og aldarminning hins mikla skálds, sem lýst er prýðilega í þessu erindi:

Vesturálfu enginn vann
anda sannleiks trúrri en hann,
hvort sem orð hans arnsúg dró
eða þrumu niður sló;
hvort sem eins og hamarsslag
heyrðist eða svanalag
var það mannúð meginstoð,
mannréttinda kristniboð.

Vikið hefir verið að ádeilukvæðum Guttorms og á það bent, hve fimlega hann beitir þar vopni kaldhæðninnar og ósjaldan á þann hátt, að undan svíður. En hann á einnig í ríkum mæli græzkulausa glettni, sem hann beitir ekki sízt í lausavísum sínum, og oft með mjög markvissum hætti, en hinar fjölmörgu og tíðum bráðsnjöllu slíkar vísur hans eru sérstaklega merkilegur þáttur í skáldskap hans. Af þeim er einnig margt í nýjustu bók hans, er sverja sig í ætt til hinna eldri um rímleikni og málfar, og um það, hve kjarnmiklar þær eru og beinskeyttar. Verða hér aðeins tekin tvö dæmi þess. Nefnist hin fyrri ferskeytlan „Um ritdómara“, en hin er fyrirsagnarlaus, enda skýrir hún sig nægilega sjálf:

Mér finnst skrítið mjög að sjá
mann svo lítinn hjakka
stórtréð hvíta — hann sem á
heima á Spýtubakka.

—0—

Ég átti ekki stélfrakka' í eigu til,
en aðeins þelstakk og hettu,
að etja við helblakkan hríðarbyl
á heimsins Melrakkasléttu.

Sé svo rennt augum yfir þessa nýjustu ljóðabók Guttorms, þá ber hún í heild sinni þess óræk merki, að hann eldist og endist óvenjulega vel sem skáld, því ekki sjást þar nein andleg ellimörk, en á hinn bóginn er þar að finna sum af beztu kvæðum hans, eins og þegar hefir verið tekið fram. Má vinum hans og velunnurum vera það mikið fagnaðarefni, að þessu er þannig farið. Þá aðalbreytingu ætla ég að sjá

megi á þessu kvæðasafni hans, að þar gæti hins hugræna og táknræna í ríkara mæli heldur en í eldri kvæðum hans, og ber það sízt að lasta.

Að það hefir réttilega verið lögð áherzla á bæði af mér og öðrum, sem ritað hafa um eldri bækur Guttorms, hve föstum rótum hann, Kanadamaður að fæðingu, uppvexti og ævidvöl, stendur í íslenzkum menningarjarðvegi, og hve frábærlega vel hann sameinar í kvæðum sínum ást bæði á ættlandi og fæðingarlandi sínu. Þetta kemur einnig glögglega fram í nýjustu kvæðabók hans, því að hann sækir jöfnum höndum yrkisefni til þeirra beggja og syngur þeim, beint og óbeint, báðum lof í fögrum kvæðum og drengilegum. Heimsóknin til Íslands og átthaganna þar bar eld að glóðum ræktarsemi hans til ættjarðarinnar, svo að þær slokkna aldrei í brjósti hans en verma honum huga til daganna enda og kemur það eftirminnilega fram í þessum lokaerindum kvæðaflokksins „Héðan og handan“:

Andlit sem einu sinni
á árunum birtist mér
er sífellt mér fyrir sjónum
síðan, hvar sem ég er.

Ég sá það var sílýsandi
sólarmegin í geim.
Það upplýsir alltaf síðan
allan minn sjónarheim.

Sem myrkrið sé liðið úr minni,
morgnar á kvöldin strax.
Sóleyjar miðnætursólin
er sólin míns ævidags.

Ekki leynir sér einlægnin í þessum aðdáunarríku ljóðlínum skáldsins; þær eru sprottnar beint undan hjartarótum hans, og minna á víðfleyg orð Stephans G. Stephanssonar:

En svo ert þú, Ísland, í eðli mitt fest,
að einungis gröfin oss skilur.

Og þetta er þeim mun eftirtektarverðara um Guttorm, fæddan og alinn upp á erlendri grund, mann, sem hefir aðeins dvalið sumarlangt á Íslandi einu sinni um ævina. Viðhorf hans til ættjarðarinnar er fagur vitnisburður um það, hve djúpt hin íslenzka menningararfleifð er runnin honum í merg og bein; bæði ætternislega og andlega er hann „hold af holdi“ og „blóð of blóði“ Fjallkonunnar, kynborinn sonur hennar í fyllstu merkingu orðsins. Áhrifin frá þeim erfðum eru einnig, eins og þegar hefir verið gefið í skyn, með mörgum hætti skráð ljósu letri í kvæðum hans og öðrum ritverkum. Meðferð hans á íslenzku máli, sem hann beitir ósjaldan á sinn frumlega hátt, er eitt sér mjög merkilegt atriði, sem verðugt er gaumgæfilegrar athugunar.

Í þessari afmælisgrein um Guttorm áttræðan hefir óhjákvæmilega verið stiklað á stóru, en þrátt fyrir það, fær engum dulist, hversu fágætur kjarnakvistur hann er í landareign íslenzkra bókmennta beggja megin hafsins. Hann hefir annars vegar drjúgum dregið næringu sína úr íslenzkum bókmennta jarðvegi, samhliða því og skáldgáfa hans hefir þroskast við önnur menningarleg áhrif, og á hinn bóginn auðgað íslenzkar bókmenntir.

SNÆBJÖRN JÓNSSON:

# Nokkur kvæði

## EÐLISMUNUR

Frá barnæsku brekku jeg minnist
með blágresi, fjólu og reyr;
jeg fegurri vart hygg að finnist
og flestu hún heillaði meir.

Og frumvaxta kyntist jeg fljóði
sem fegurð af gjörvöllum bar;
sú meyjan var lofuð í ljóði
og lofsins hún maklegust var.

En barnæsku-brekkan mín græna
er blásin og örfoka nú;
og eins er það, ungmeyjan væna
er elligrá, hrukkótt og bjúg.

„Þú vorgyðja svífur,“ við sungum,
„á sólgeisla-vængjunum heim.“
Við svöluðum sálunum ungum
í sumarskálds-vísunum þeim.

Í ellinni ennþá við syngjum
það ómþýða bernskunnar ljóð,
og silfurhærð sálirnar yngjum
við suðræna eldsins þess glóð.

☆ ☆

Svo bregzt allur jarðneskur blómi,
þótt birti af honum í sál;
svo lifir sá himneski ljómi,
sem lýsir upp skáldanna mál.

Það ljóðperlan er, sem að lifir,
hún lífsanda guðs í sjer ber;
en dómur sá efninu yfir
að eyðingin helgar það sjer.

## NIHIL DE MORTUIS NISI BENE
### (Gott eitt um gengna)

Á heilræðum sjaldan er hörgull,
og heilræða flestum er vant.
En skyldi' ekki skynsamlegt stundum
að skoða þau dálítið grant?

Um framliðna lastmæli' að forðast
í fyrndinni boðið oss var.
Það var hjartað, en höfuðið ekki,
sem heyrðirðu' að talaði þar.

Um verknað ef þingmanns skal þegja
og þess er hlaut ráðherradóm,
eins og í upphafi jörðin
auð verður síðan og tóm.

☆ ☆

Ef ræðu þú hefir í hyggju
að halda um framliðinn mann,
þá segðu' um hann sannleikann allan,
en segðu' ekki meira en hann.

Því hvort sem að lasti' eða lofi
þú lýgur (sem unt er með þögn),
hann enn er hinn sami og áður,
en ómerkur þú og slík sögn.

---

## BEZTA GJÖFIN

Sú gjöf sem að hjarta þitt gaf,
væri' hún gull, eða orð, eða handtak,
hún þín að eilífu' er eign,
annað alt missa þú skalt.

Nei, vinur, ekki' einfaldleg eign:
hún ávaxtast, margstækkar, gefin. —
Það eru gjafir þíns hjarta, þess gull,
hjá guði sem skapa þjer auð.

## HJÚKRUNARKONAN

Já, langsöm er nóttin og lýjandi myrk,
og lífsþrána glæðir hún eigi.
En hjúkrunarkonan er hugprúð og styrk,
og hún fylgir komanda degi.

Með sólskin hún kemur til sjúklingsins inn,
er sárþráði ljósið með ylinn,
með handtökin mjúku og hlýleikann sinn,
sem hvergi varð frá henni skilinn.

Hve ljettara og bjartara lífið þá er,
hve læknandi hjartagulls-varminn.
Sem engill hún kemur, sem engill hún fer,
en eftir er minninga-bjarminn.

---

## ÞAGNARBLÆR

Í blómskrúð vorsins býr sig tún og haginn
og blikar sjórinn rjómalogni í,
af söngvum loftið ómar allan daginn,
en eg er hljóður, sönglaus fyrir því.

Um fegurð þá, er fyr jeg mærði í ljóðum
og fegurð vorsins jafnvel ekki nær,
jeg kveð ei lengur, en í huga hljóðum
jeg hlúi að minning sem er ljúf og kær.

Jeg dvel svo oft við tíma löngu liðinn.
—Og liðinn gleymist okkar dagur senn. —
Í andblæ haustsins heyri' jeg æskukliðinn
af hljómum vorsins. Svo þeir lifa enn.

## EÐLISLÖG

Sá vandi og sú ábyrgð öll,
sem augnablikið með sjer ber,
að hæð eru þau og þyngd sem fjöll,
en þetta mörgum dulið er;
þeir sjá ei hvernig hlekkur hver
við hundrað aðra tengdur er.

Þjer finst að alt sje hverfult hjer,
en horfðu dýpra og muntu sjá
að naumast kjarninn innsti er
þó eðlislögum skilinn frá;
alt líf mun sínum lögum háð,
þess lokamarki aldrei náð.

Það sáðkorn er var sáð í gær
og svarðarmoldin í sjer batt,
á morgundagsins grundu grær,
þó grózkan fari ekki hratt;
svo lifir framtíð fortíð á,
þær falla í eitt við næring þá.

Og eins er það um eillíft **nú,**
að af því mótast sálin þín;
og svipnum ræður sjálfur þú,
hvort svört skal eða hvít sem lín;
sá vefur sem þú vefur hjer
er varanlegur innst í þjer.

---

## Á NÝÁRSDAG

Að sjá þig heilsa, unga ár,
ekki fáa gleður,
en margur þeirra þá mun nár
þegar þú aftur kveður.

„Gaktu hægt um gleðinnar dyr,“
gættu' að hrasir eigi;
að honum liðnum — ekki fyr —
áttu að hrósa degi.

DR. J. P. PÁLSSON:

# Sendibréf

**Saga frá Ströndinni — Sjá Áni gamli í 39. árg.**

I

Það var áliðið aðfangadag jóla. Úttekt til hátíðarinnar var að mestu lokið og Frímann kaupmaður kominn heim til að taka á móti póstinum, sem von var á hverri stundu. Frá fyrstu tíð hafði póstafgreiðslan farið fram á Eyrarheimilinu, og háttaði enn svo til, þó mörgum þætti slíkt mesta ómynd eftir að búðin var reist. Milli húss og búðar voru aðeins nokkur skref, og fanst Frímanni óþarfa umstang að breyta til. Að sönnu var ætlun hans, að stækka búðina og þilja þar af klefa, nægilega rúmgóðan fyrir bókhald verzlunarinnar, bækur og skjöl viðkomandi friðdómaraembætti hans, og póstafgreiðsluna. Í hug Frímanns var öllu þessu prýðilega fyrir komið; en að koma fyrirtækinu í framkvæmd, var alt annað mál. Framtakssemi hans takmarkaðist við búskapinn og greiðasölu á vetrum, meðan á fiskiflutningum stóð. Verzlun hafði hann byrjað fyrir orð annara. Sjálfur var hann frábitinn kaupmennskunni. Af reynslunni hafði hann fengið vissu fyrir því, að búðin gaf meira af sér en búið. Þrátt fyrir það var verzlunin til sölu og ekki vonlaust um lausn frá kaupmennsku og póstmeistara-embættinu. Og réttast, að kaupandinn gerði umbæturnar eftir eigin hyggju. Um eitt skeið hafði Frímann haft von um að Magga dóttir sín létti undir með verzlunarstörfin og póstafgreiðsluna, eða jafnvel kæmist upp á að stjórna öðru starfinu eða báðum. Í fyrstu var mikil hjálp að henni. Það var gaman að vita meira um bréfaskipti nágrannanna, en jafnöldrur hennar. En gamanið fór af, þegar til lengdar lét, og hún mátti ekki ræða við stöllur sínar um neitt, sem pósthúsinu við kom. Og líkt fór með búðarstörfin. Í fyrstu fanst Möggu mun fínna, að vinna í búðinni en fást við búverkin, en fór að leiðast, þegar enginn kom, og hún varð að húka þarna alein, oft þegar veðrið var upp á það bezta og aðrir voru að ólmast í heyskapnum úti í sólskininu. Ekki bar heldur á, að piltarnir litu hana hýrara auga fyrir stöðu hennar. En út yfir tók álit Siggu á Súlum. Sigga var fínasta stúlkan á Ströndinni og hét Sara Sool í Winnipeg, og var oft nefnd Strandarsólin í nýlendunni. Sigga lýsti fyrir Möggu búðunum í Winnipeg, og glæsileik starfsfólksins. Þá fanst Möggu sem hún væri fangi í ruslakompu út á hala veraldar, og óskaði einskis fremur, en að leysast úr þeirri prísund. Eins lengi og faðir hennar átti verzlunina og

sinti pósthússtörfum, var út séð um, að hún kæmist til Winnipeg, til að manna sig. Hún hugsaði til Símoníu á Ánastöðum, sem aldrei hafði farið að heiman, og enginn piltur leit við, og hrylti við, að hún, dóttir Frímanns friðdómara, kaupmanns og póstmeistara ætti kannske eftir að verða piparmey. —

Þennan aðfangadag kunni Magga því vel að vera verzlunarstýra. Ekkert var að gera ,nema hlusta á hóp piltanna, sem biðu eftir póstsleðanum. Hans var von á hverri stundu, hlöðnum herskara ungmeyja, sem sóttu heim foreldra og vini í jólafríinu. Allir beztu ökukostir Strandarinnar voru til taks, að þeysa þeim heim til sín. Gæðingarnir stóðu bundnir í röð framan við búðina, því veðrið var milt, og tók ekki að hýsa þá. Aðeins hann Sigvaldi í Sefi hafði haft fyrir því. Honum munaði ekki um að svala sérvizkunni á því, að borga Frímanni nokkur sent fyrir að hýsa klárana tvo—þrjá tíma. Ekki spanderaði hann peningum í annan óþarfa. Svo kannske þoldu þessi hlaupadýr hans ekki kulið. Þetta voru sérstakar kynbótaskepnur, ólíkar öðrum hrossum, og aðeins til léttikeyrslu. Aldrei höfðu þeir sézt ganga fyrir öðru ökutæki en Eatonsleðanum, svartgljáandi og rósum skrýddur, sem nú stóð þarna í allri sinni dýrð, fullur af loðfeldum, og undir þeim fóta-ofn. Það höfðu menn séð með eigin augum. Það var nú sér á parti, að Sigvaldi skyldi kaupa annan eins óþarfa, og þeysa um Ströndina, svo bjöllukliðurinn bergmálaði um skóginn, eins og hann væri enskur ríkisbokki; en að koma þannig útbúinn og sparklæddur til að sækja póstinn ofan á Eyrina, var enn furðulegra. Þá ferð fór hann vanalega gangandi, í hversdagsfötunum. Öllum þeim stúlkum, sem von var á, hafði verið áætluð keyrsla heim til sín. Og aldrei hafði sézt kvenmaður keyra með honum. Vænti hann karlkyns farþega, mátti sá vera meiri bölvuð veimiltítan, þyrfti hann felds og fótaofns með, í frostlausu veðri . . . Sigvaldi sat á naglakjagga aftast í búðinni og las í tímariti, sem hann hafði dregið upp úr loðkápuvasa sínum. Hann einn átti svar upp á allar þær spurningar, sem þetta tiltæki hans vakti. Ekki var hægt að ræða málið í viðurvist hans, og því síður spyrja hann beint út, hvers hann vænti með póstsleðanum. Það var einkamál hans; og maður fór ekki að rekja garnirnar úr sveitaroddvitanum, manni, sem líklegur þótti til, að verða einhvern tíma kosinn á þing. Allir vissu líka, að frá barndómi hafði Sigvaldi verið svo dulur og þagmælskur um sína hagi og annara, að þegar hann var í barnaskólanum varð hann hvorki ertur né píndur til sagna um það, sem hann vildi dylja. Fyrir það og aðra ómannblendni varð hann útundan meðal skólasystkina sinna. Þau uppnefndu hann Sigvalda þögla, drumbinn, fýlupokann, og hann varð þeim aldrei svo náinn, að vera kallaður Valdi. Jafnvel uppeldissystir hans, Dísa á Skarði, nefndi hann Sigvalda, nema þegar þau voru tvö ein . . . Nú var fullt nafn hans virðingarmerki . . . Svo var guði fyrir að þakka, og Siggu á Súlum, að maður gat gert skynsamlegar ágizkanir

um, hvers vegna Sigvaldi var hér uppdubbaður og stásskeyrandi, að mæta póstinum. Ástæðan var hin margumrædda Missis Nemó, sem allir könnuðust við, en enginn vissi deili á.

Sigga á Súlum hafði lengi unnið í Winnipeg og hefði, að líkindum sezt þar að, ef heilsan hefði leyft það. En læknar töldu borgarloftið henni óholt og réðu henni, að fara heim og leggja sem minst á sig. Lífið var dauft á Ströndinni, en þó skárra skömminni til en spítalavist — eða annað verra. Heima hélt hún heilsunni og ekki var hún að eðlisfari svo vinnugefin, að iðjuleysi píndi hana. Foreldrar hennar fóru með hana eins og brotið egg. Hún mátti ekki drepa hendi í kalt vatn, og hafði ekkert á móti allri varkárni hvað vinnu snerti. En þegar til dansleikja og annara skemtana kom, var hlýðni hennar og auðsveipni við foreldrana lokið. Þá fór Sigga sinna ferða ofan í blátt bann þeirra. Og furðaði engan, sem þóttist þekkja til . . . Sigga var bersýnilega gallfrísk, og svo fín og falleg, að allir strákar voru vitlausir í henni. Hún hafði ekki annað að gera en halda sér til og hafði fullnumað sig í þeirri list í Winnipeg. Það var hægur vandi fyrir stúlku, sem var óveðurtekin og kunni alt að kvenlegum fagurgerning, og bar vasaspegilinn með sér hvert sem hún fór. Ekki var að sjá að hún bæri sig meir eftir einum pilti en öðrum sökum mannvænis eða efna. Sá hlaut hnossið að taka hana á dansleiki og þeysa með hana, hvert á Strönd sem var, sem beztu ökutækin átti. Því undraði engan, að hún gerði sitt til, að komast upp í Etonsleðann hans Sigvalda, þó hann léti sér varla spaugsyrði um munn fara og kynni ekki að stíga spor í dansi. Vitaskuld voru það gæðingarnir, sleðinn, feldir og fótaofn, sem hrifu Siggu, en ekki eigandinn. Það vissu allir upp á hár, — nema Magga Frímanns. Sigvaldi var oft í hug hennar. Stundum dreymdi hana hann svo einkennilega, að hún hefði heldur dáið, en segja öðrum þá drauma. Eins gat verið ástatt með Siggu . . . Hvernig Sigvaldi gat neitað sér um að setja skínandi, ilmandi Strandarsólina hjá sér undir loðfeldina, skildi Magga ekki, en var hæzt ánægð með þau mistök vinstúlku sinnar.

Sigga var hvorki bókhneigð né vinnugefin. Útiverk var henni bannað að fást við, og þó móðir hennar hvetti hana til að taka í prjóna og sauma nú eitthvað, heillin, hafði það ekkert upp á sig. Hún var frábitin allri kvenlegri handavinnu. Hugur hennar snerist um það, hvernig hún gæti „drepið tímann.“ Minst of honum kom hún í lóg á útkeyrslum og skemtimótum, og allra sízt að sumrinu, þegar vinnan gekk fyrir öllu öðru. Marga stundina hafði hún ofan af fyrir sér með því að fagurgera sig, greiða hár sitt og setja það upp á mismunandi hátt. Hún átti marga kjóla, alla úr móð, en hvað gerði það á Ströndinni? Hér voru þeir allir jafnfínir, og með því að ganga í þeim til skiptis, vakti hún meiri eftirtekt á sér. Þetta staðfesti spegillinn, stoð hennar og stytta, í sífelldum hildarleik við óvininn — tímann. En hversu ánægð sem hún var með útlit sitt og töfra, náði fegurð hennar svo

bezt takmarkinu, að aðrir fengju að njóta hennar. Hún varð að sýna sig, þó það kostaði langan gang. Þessar sýnisfarir hennar lágu oftast inn á Eyrina. Aldrei að vita nema maður rækist á einhvern í búðinni, sem hefði augu og smekk fyrir kvenlegri fegurð. Þar var líka helzt frétta von. Og brygðist það, var Magga Frímanns til staðar og óspör á aðdáun sína. Raunar bar hún ekki skyn á slíka hluti, en dómur hennar var betri en ekkert. Sigga hafði gert sitt til að sýna Möggu hvernig bæta má um verk skaparans á ungum stúlkum. En alt kom fyrir ekkert. Magga hafði mikið og fagurt hár, en ætíð stríðfléttað. Þó Sigga leysti það úr fléttunum og setti það upp af mikilli snild, var það eins og þyrill daginn eftir, óviðráðanlegt unz Magga kom því aftur í flétturnar. En svo leit ekki Sigvaldi við Siggu, hversu fín og falleg sem hún var. Aðrir máttu ætla, að Sigga liti hann hýru auga, aðeins vegna hestanna og Etonsleðans, en Magga vissi betur. Þær sáust varla svo, að hann bærist ekki í tal, og ekki braut hún upp á málefninu við Siggu eða aðra, þó hún legði eyrun við þegar aðrir ræddu um framtakssemi Sigvalda og hagsýni, tók hún dræmt í það sem Sigga hafði að segja um hann. Hún fann alt að honum og hafði hann í háði, þagnaði aldrei um hag hans og framkvæmd. —

„Hann Sigvaldi fær víst ósköpin öll af pósti, jafn umsvifamikill og hann er orðinn,“ segir Sigga.

„Ha? já.“ Þær voru á gangi eftir fjörunni. Magga var í hálfgerðri leiðslu, því Sigga hafði verið að útmála fyrir henni dýrðina í Winnipeg og varð örg við, að vera vakin af dagdraumi sínum. — „Það er sagt, að hann fái oft registeruð bréf,“ heldur Sigga áfram „Ætli þau innihaldi peninga?“ Það batnaði ekki í Möggu við forvitni Siggu um póstmálin. Þá var henni vel vært, að hafa einu sinni töglin og hagldirnar, og geta kvalið Siggu á forvitni, eða frætt hana um leyndardóm, sem hún sjálf botnaði ekkert í. — „Ekki skoða ég innihald þeirra,“ segir hún önug. — „Veit ég það,“ segir Sigga. „En maður þarf ekki ætíð að rífa bréf upp til að geta til um innihaldið. Og ekki þyrftir þú annað en gufugusu úr katlinum til að opna eitt eða svo umslag.“ — Magga varð alveg forviða, en áttaði sig brátt. Einu sinni gat hún stungið upp í Siggu: „Já, en hvernig á að fara með anzans lakkið og innsiglið?“ — „Nú, svo bréfin eru innsigluð. Segðu ekki lengur! Hvað um það. Þú ættir að geta fundið það með fingrunum, hvort seðlar eru í umslaginu.“ — „Þess þarf ég ekki,“ segir Magga hreykin. „Enginn, sem fær peningabréf, svarar með peningabréfi frá sér.“ — „Þú meinar, að Sigvaldi lakki og innsigli og registeri, þegar hann svarar svoleiðis bréfum frá Winnipeg?“ — „Frá St. Boniface, áttu við.“ Og Möggu var unun að sjá orð sín koma flatt upp á Siggu, sem alt þóttist vita. En meirmáttarkend hennar átti sér ekki langan aldur. Áður en hana varði hafði Sigga veitt upp úr henni alt, sem hún ein hafði vitað fram að þessu, um hin einkennilegu bréfaskipti við einhverja Missis Nemó í St. Boniface, og það sem

meira var, ráðið gátuna á svipstund. Magga hafði aldrei hugsað sér, að bréf væri registerað nema það innihéldi peninga. Sigga hló að þeim barnaskap . . . Meiri ástæða var til að registera einkabréf og ásta. Þessi Missis Nemó var að líkindum ein af þessum ríku ekkjum, sem auglýsa í blöðunum eftir eiginmannsefni. Og það var rétt eftir Sigvalda, að hugsa um reiturnar meir en persónuna. Kellingin mátti vera gömul og grett, bara að hún væri loðin um lófana. Bóndinn í Sefi hafði aldrei gengist fyrir kvenlegri fegurð. Alt annað mál, væri um fé að ræða . . . Mikið blessað barn gat Magga verið! Hélt hún virkilega, að Sigvaldi væri altaf að senda Missis Nemó peninga, og hún að senda þá jafnharðan til baka? . . . Hélt hún, að General Delivery væri heimilisfang kellingarinnar? . . . Og Sigga leit hana meðaumkunaraugum, strauk hárlokk frá enninu, og lyfti pilsinu upp að hné, þó sandurinn væri hreinn og sléttur undir rótum þeirra. Þessa kæki hennar hafði Magga reynt að æfa fyrir framan spegilinn. En hvert hár var fast í fléttunum, og fótleggir hennar klæddir ullarsokkum voru alt annað en sýningargripir . . . Eftir þetta samtal þeirra Siggu og Möggu, þektu Strandarbúar Missis Nemó í St. Boniface betur en nokkra konu í nýlendunni; og þó fáum kæmi saman um aldur hennar, útlit og auðæfi, vissi hver einn sínu viti — að Sigvalda undanteknum . . .

Nú var ekki um neitt að villast. Hér var hann kominn í allri sinni ökudýrð, til móts við kærustuna, ef það orð hæfði útlendri kellingu, sem ekkert hafði við sig nema auðinn. En spennandi var, að eiga von á henni stíga út úr póstsleðanum og sjá . . . því altaf er sjón sögu ríkari; og þá ekki síður, hvernig Sigvaldi bæri sig til á svo örlagaríkri stund, maður sem ekkert kunni á kvenfólk. En ekki brá hann vana. Sat þarna á naglakjagganum, niðursokkinn í enskt lesmál og hreyfði sig ekki fyrr en hestabjöllurnar boðuðu komu póstsins og allir voru komnir út nema Magga, sem lét sér nægja að sjá út um búðargluggann hvað fram fór úti fyrir. Þá loksins stóð Sigvaldi á fætur og kom fram að glugganum. Svo nærri honum hafði Magga aldrei staðið né setið, og fann til óstyrks í hnjánum. Þau sáu farþegana koma út úr sleðanum og heyrðu ávæning af þeim fagnaðarlátum, sem þar gerðust. Magga þekti alla farþegana, og varð svo mikið um að sjá enga Missis Nemó, að hún hrópaði alveg ósjálfrátt: „Hún kom ekki!" Og þegar Sigvaldi leit á hana spurnaraugum og spurði undrandi: „Hver kom ekki?" kom Magga ekki upp orði, og þóttist vita, að hún liti út eins og blóðrauður blýhlunkur. Og þarna stóð hún í sömu sporum og horfði á eftir Sigvalda ganga í hægðum sínum yfir að pósthúsinu. Loks, eftir að allir sleðarnir voru farnir, nema Etonsleðinn hans Sigvalda, rankaði hún við sér, lokaði búðinni af gömlum vana, fremur en forsjá, og gekk heim, en lét ekki sjá sig, og sat ein heima um kvöldið, þegar allir aðrir sóttu jólasamkomuna.

Að póstafgreiðslu lokinni spurði Sigvaldi Frímann, hvort hann ætti nokkurn póst. — „Jú, heldur það.

Bréf, og í stærra lagi og registerað," og rétti Sigvalda úttroðið umslag. Hann kvittaði fyrir það með undirskrift sinni, bauð póstmeistaranum gleðileg jól og fór út í hesthús. Á leiðinni mætti hann Birni á Vallavöllum. „Mætti ég sitja í sleðanum með þér heim til mín?" — „Já, velkomið, Björn minn." — „Ég þarf að tala nokkur orð við hann Frímann; en það tekur mig ekki lengi." — „Hafðu alla þína hentisemi. Ekkert liggur á. Ég skal bíða þín í hesthúsinu." — Í klefa á hlið við dyrnar var rúm fyrir aktygi og kornfóður. Þar var lukt, og á henni kveikti Sigvaldi, settist í baklausan stólræfil og las bréfið . . .

## II

Þegar Sigvaldi slæddist inn á Ströndina með Skarðshjónunum, var hann á sjöunda árinu. Faðir hans, bláfátækur sjómaður, hafði druknað í fiskiróðri, og lá ekki annað fyrir ekkjunni en fara á sveitina. En fyrir hagsýni eða hjartagæzku hreppsnefndarinnar var hún og drengurinn styrkt til vesturfarar. Á hafinu veiktist hún svo hastarlega, að hálærður skipslæknir fékk ekkert að gert, og því síður Hansi hómópati, einn af vesturförunum. Hafði hann þó orð á sér fyrir að vera heppinn læknir. En, eins og hann sagði, var nógu bölvað að fást við illkynja sjúkdóma á landi, hvað þá út á regin hafi, þar sem sjóveikin bættist ofan á alt annað. Og þegar sjúklingurinn dó, sættu allir sig við það, allir nema Sigvaldi litli. Hann skildi hvorki rök guðs né lækna og grét óaflátanlega, í hljóði og á laun, fyndi hann felustað. Aðeins þegar hann sá móður sinni varpað í sjóinn, grét hann upphátt, en stalst brátt út úr mannþrönginni. Var of mikið barn til að láta huggast við hátíðleik og guðrækni, sem kristilegar útfarir hafa í för með sér. Athöfninni stýrði séra Símon, kornungur og nývígður tilvonandi sálusorgari íslenzkra emigranta í Ameríku. Dáðust allir að, hversu vel honum fórst svo sjaldgæft prestsverk úr hendi, annar eins viðvaningur og hann var, og undir kringumstæðunum. Og var síðar meir haft eftir Hansa hómópata, að jarðarfarir út á regin hafi mundu lítt handhægari en lækningar; hefði hann þó ekki orðið þarna fyrir minni andans lyfting, en þá hann sat undir ræðu biskups, í dómkirkjunni í Reykjavík. Enda var hærra undir loft í himinblámanum, en dómkirkjunni. Sólin helti geislum sínum yfir lygnan sjóinn svo manni lá við ofbirtu eftir lestarvistina, og á skáldlegu guðsorðamáli útlistaði séra Símon hvíldina eilífu og sælu himnaríkis á þann hátt, að veðrið og umhverfið misti allan veruleik og varð andlegs eðlis. Konur grétu, ekki af söknuði yfir hinni látnu, heldur fyrir návist heilags anda, sem smaug gegnum merg og bein, eins og andarnefjulýsi. Ekki að furða, þó Sigvaldi gleymdist, þar til kvöld var komið og hugsanir fólksins snerust aftur að jarðneskum efnum. Einhver braut upp á því, að drengnum þyrfti að ráðstafa, að minsta kosti þar til að til Winnipeg kæmi. Þá var hans fyrst saknað og hafin leit að honum. Drengurinn hafði aldrei gefið sig að neinum, og enginn veitt honum eftirtekt. Nú

fyltust allir áhyggjum út af hvarfi hans og von um að hann fyndist. En svo brátt kom hann í leitirnar, að mörgum gramdist við strákinn, fyrir að hafa falið sig og valdið þeim óþarfa áhyggjum.

Það var Dísa litla, dóttir Önnu og Vilhjálms frá Skarði, sem fann Sigvalda sofandi undir segldúk á dekkinu. Raunar hafði hún gengið rakleitt til hans. Eftir að öll von var úti um, að móður hans batnaði, hafði Dísa séð drenginn oft fela sig undir seglinu til að gráta. Hana hafði langað til að hugga hann, en ekki komið sér að því. Nú gekk hún rakleitt til hans, tók hönd hans og vakti hann, hiklaus og ófeimin: „Komdu nú, Valdi minn. Allir eru að leita að þér.“ — Hann reis á fætur og fylgdist orðalaust með henni niður í lestina, og hélt svo fast um hönd Dísu, að það bætti henni upp fyrir alt, sem hún hafði liðið við að vera sjónarvottur að sorg hans. Og takinu slepti hann ekki fyr en afráðið var, að munaðarleysinginn yrði á vegum Skarðshjónanna, það sem eftir var ferðarinnar. Fleiri en þau buðust til að taka drenginn að sér, en börnin réðu málalokum, án þess að mæla orð. Í svip þeirra og augnatilliti mátti lesa þá tillögu, sem allir féllust á. Eftir það sást varla annað þeirra, nema hitt væri í námunda, og á dekkinu leiddust þau ætíð. Dísa hafði oft óskað þess að eiga „litla bróður.“ Nú hafði hún fundið hann, og þó hann væri stærri en hún, átti hún hann sjálf, og enginn annar! Og hann hætti grátköstunum og var ekki hnugginn, væri Dísa á næstu grösum. Atlotum og vinarhótum annara tók hann ekki. Menn skýrðu það svo, að drengurinn væri svona gerður. Gott að skötuhjúin skildi hvorki skarnið né bleytan, og stráknginn þurfti ekki annara eftirlits með en Dísu.

Margir innflytjendanna áttu ættingja og vini vestra, sem mættu þeim í Winnipeg, og tóku þá heim með sér. En enginn spurði eftir ekkju með lítinn dreng. Sigvaldi skildi lítið í því, sem fram fór. Hann sá börn og fullorðna faðmast og kyssast, og óttaðist að verða sjálfur fyrir því, og hélt svo fast um hönd Dísu, að hana sárkendi til. Eins og nokkur hætta væri á, að þau skildust hvort við annað! Margir voru þeir, sem enginn kom til móts við, og gistu emigrantahúsið þar til innflytjenda-agentinn ráðstafaði landnámi þeirra; og voru Skarðshjónin í þeirra tölu. Þegar að því kom, að þeim, með fleirum, var ætlað framtíðarheimili í Strandarnýlendunni, mæltist séra Símon til þess, að Vilhjálmur tæki drenginn með sér og gæfi honum heimili þar til framtíð hans yrði frekar ráðstafað. Vilhjálmur var ekki bjartsýnn að eðlisfari og hraus hugur við að bæta á sig ómegð. Þó þekking hans á stjórn og staðháttum í Ameríku væri takmörkuð vissi hann, að hið opinbera gaf ekki með ómögum; og eftir að borga fyrir heimilisrétt og kaupa kýrskjátu, yrði buddan létt, ef ekki tóm. En fyrir orðum Önnu og augnaráði barnanna varð hann að láta undan síga og mæta því sem verða vildi. Því var hann vanastur, og bar undanhaldið með ró heimspekings. Skoðun hans á lífinu og tilverunni var einföld og óhrekjandi: „Það fer

alt einhvernveginn“ ... Á emigranta húsinu var Sigvaldi litli umkomulaust tökubarn, sem fluttist með Skarðshjónunum út á Ströndina, en eftir að þangað kom, varð hann brátt fóstursonur þeirra. Í vestur-íslenzku frumbýli þektist hvorki tökubarn né hreppsómagi.

Svo var víða hart í búi á Ströndinni, að Vilhjálmi fanst líkara íslenzkri fátækt en Vesturheims velmegun, eins og vesturfara-agentarnir höfðu útmálað lífið í Ameríku. Hafði þeim þó yfirsézt um þann kost frumbýlisins, sem bætti upp fyrir baslið og skortinn. — Það var góðviljinn. Hver skaraði eld að annars köku, eins og einn æti og yrði mettur við að seðja sult annara, og bætti húsakynni sín með því að hjálpa öðrum til að koma þaki yfir höfuð þeirra. Það var því líkast, að allir vissu hvað Skarðsbúrinu leið. Væri það tómt, mátti Anna eiga von á, að grannkonur hennar kæmu í heimsókn til að skrafa við hana, en höfðu tekið með sér eitthvað matarkyns, annaðhvort af því þær höfðu meira en þær þurftu með, eða leituðu álits hennar á því, sem þær höfðu matreitt eða bakað . . . Það var annað, að búa til slátur á Íslandi, úr blessuðu rúgmélinu, en óvinarins haframélshratinu hérna í Ameríku . . . Þá tók tíma, að komast upp á að búa til ætt gerbrauð . . . Menn sem áttu báta og net fiskuðu meira en þeir komust yfir, og spurðu Vilhjálm, hvort Anna gæti ekki notað nokkrar bröndur í soðið. Og áður en þau komu kálgarðsholu í lag, óx svo vel í öðrum görðum, að úr þeim var garðmetið borið að Skarði, svo það yrði ekki ónýtt! Eins var það, ef Vilhjálmur var að verki, sem reyndist óvönum einyrkjanum ofurefli, var ætíð einhver til að létta undir með honum. „Þegar neyðin er stærst, er hjálpin næst.“ Hann hafði aldrei haft ástæðu til að leggja mikið upp úr því spakmæli. Til þess var hann ekki nógu trúaður. Nú reyndist það satt — „en mönnum að þakka, l. s. g.,“ hugsaði Vilhjálmur með sér og brosti. Á Íslandi kveið hann morgundeginum, þegar ekki var matur til næsta máls á Skarði, þó aðrir hefðu nóg. Á Ströndinni leið enginn eins lengi og skorturinn varð ekki almennur. Og það kom ekki fyrir svo um munaði. Hér voru ný met á mönnum og málefnum. Mannvirðingar fóru meira eftir því hversu einn miðlaði öðrum, en hvað mikið hann komst yfir. Og því var helzt að vænta örlyndis og hjálpsemi af þeim, sem bezt komust af. Og Vilhjálmur þráði það mest, að komast í tölu þeirra, sem litu eftir því, að nýir innflytjendur liðu ekki skort. En þeir komu árlega inn í nýlenduna . . . Góðviljinn lá í loftinu og það var bjart yfir Ströndinni. Þó bar skugga yfir Skarð, og átti upplag Vilhjálms sök á því.

Alt til þessa hafði Dísa litla því nær tilbeðið föður sinn, elt hann á röndum og þvælst fyrir honum, nær sem hún náði til hans, þar sem hann var að verki. Hún var nú altaf með Sigvalda, tökubarninu, ómaganum. Útséð um að hann færi frá Skarði. Þó séra Símon hefði boðizt til að finna drengnum annan samastað, aftók Anna það. Hún hafði tekið móðurlegan eignarrétt á einstæðingnum. Og hvað sem henni leið, treysti hún sér ekki til að svifta

börnin þeirri gleði, sem þau nutu við að leika sér og lifa saman. Þau reistu hús úr sandi í fjörunni; og þegar hæg gola stóð af landi köstuðu þau kvistum og kubbum í vatnið, sem urðu að skipum áður en þeir hurfu úr sýn. Sjaldan kom þeim saman um hvar skipin bæri að landi, en urðu aldrei ósátt út af því . . . Og skógurinn var óþekt undraland, sem aldrei varð að fullu kannaður. Lífið var ævintýri, en óglögt og þokukent, þar til Áni gamli kom til sögunnar. Fyrst sagði hann þeim sögur af álfum og kóngum, og kotungum, sem síðar urðu kóngar, og galdrakerlingar, sem settu prinsa og prinsessur í álög. Eftir að þau höfðu lært að lesa, lánaði hann þeim bækur, þar á meðal Þúsund og eina nótt . . . Og Áni gamli þekti blómin og fuglana og flugur og fiðrildi. Áni gamli vissi alt og gat ætíð skorið úr hvar skipin þeirra lentu . . . Dísa lifði í öðrum heimi en faðir hennar. Alt tökustráknum að kenna, og varð ekki að gert. Anna fór með hann eins og son sinn. Þrátt fyrir það virtist hún ekki standa nær stráknum en maður hennar, sem sagði, að alt vitið færi í stelpuna. En svo stiltur og hlýðinn var Sigvaldi, að annað varð ekki fundið að honum. Hann gaf aldrei ástæðu til að vera hrakinn frá Skarði. Enda sá Vilhjálmur, að hvað sem Önnu leið, hefði Dísa aldrei liðið það. Og nú fyrst skildist honum, að hann hafði verið undirgefinn vilja hennar frá því hún kom í þennan heim.

Fyrsta veturinn á Skarði lærðu börnin að lesa íslenzku. Dísa sat í keltu móður sinnar, sem hélt á Nýa testamentinu og benti á stafina með bandprjón. Að baki þeirra stóð Sigvaldi og naut kenslunnar yfir öxl Önnu. Dísa var enginn tossi, en brátt kom í ljós að Sigvalda veittist námið léttara. Og þegar lexíunni var lokið, fór hann yfir hana með Dísu, og var ekki ánægður fyr en hún þekti hvern staf og kvað rétt að hverju atkvæði. En það komst fyrst skrið á lærdóminn, eftir að Áni gamli fór að venja komur sínar að Skarði. Hann léði þeim stafrófskver með myndum, setti þeim fyrir lestrarkafla og hlýddi þeim yfir í næstu heimsókn sinni. Síðan lánaði hann þeim ljóð og sögur. Bæði voru jafn sólgin í alt, sem þeim barst á prenti, þó Dísu þætti lesturinn oft of mikil fyrirhöfn. Hún bað Sigvalda að lesa upphátt og spara sér þannig ómak. Því neitaði hann, sagði að hún léti ekki svona, væri hún orðin almennilega læs. Og Dísa hristi af sér letina og las hverja bók, sem kom á heimilið.

Álit Ána gamla á námsgáfum Sigvalda brást ekki í barnaskólanum. „Hann er það gáfaðasta barn, sem komið hefir inn fyrir mínar skóladyr,“ var haft eftir kennaranum. Kenslutíminn var mest sex mánuðir á ári; en svo var mentamálaráðið ekki kröfuhart. Og áður en varði „útskrifaðist“ Sigvaldi, og varð því fegnastur. Hann átti fátt sameiginlegt með skólasystkinum sínum og varð útundan hjá þeim. Stríð þeirra og ertni bar hann með stillingu. Þau nefndu hann ólundarpoka og fýludrumb og fleiri ónöfnum. Allir vissu, að hann var ofviti eins og Áni gamli . . . Var hann ekki skygn eins og kallinn? . . . Því gekk hann

ekki á brókinni? . . . Þegar verst lét gekk Dísa í lið með honum. Hún hafði sérstakt lag á því, að beina háðinu að öðrum og hlægja sjálf að þeim, sem voru að skopast að fóstbróður hennar. Þegar svo bar við, þótti honum hnútukastið tilvinnandi . . . Það hafði brátt komið í ljós, að Dísa gat ekki fylgzt með Sigvalda í náminu. Hafði hann þó gert sitt til, að hvetja hana til að leggja meira á sig og hjálpa henni við heimaverk, sem þeim var sett fyrir. En lærdómurinn var henni ekkert áhugaefni, og enginn kominn til að segja um, hvort Dísa fór í skólann til að læra eða leika sér. En hversu umhugað sem honum var um nám Dísu, var Sigvaldi hæst ánægður með þá fyrirskipun foreldra hennar, að skólavist hennar væri lokið, jafnt og hans. Bæði voru að stálpast og urðu meir og meir „til gagns“ á heimilinu. Sérstaklega var Vilhjálmur fundvís á verkefni og snúninga fyrir Sigvalda, sem vann möglunarlaust, oft frá morgni til kvölds, en notaði þó hverja frístund til að afla sér fróðleiks úr blöðum og bókum, sem hann hafði að láni frá Ána gamla og kennaranum. Og naut Dísa góðs af. Hversu ólík sem þau voru, virtust örlög og atvik haga svo til, að eitt gengi yfir bæði — nokkuð sem Vilhjálmur gat ekki sætt sig við, þó það, eins og annað, færi vitaskuld einhvern veginn. Strákurinn hafði alltaf nefið í bókinni, en við það varð ekki ráðið eins lengi og hann vann verk sín með trúmensku . . . Vonandi að Dísa gerðist ekki annar bókaormurinn til og smitaðist ekki af sérvizku stráksins. Hversu fámáll og orðvar sem hann var, fór ekki hjá því, að skoðanir hans kæmust í hámæli. Og sumar þeirra voru svo róttækar, að eldra fólkinu blöskraði. Fróðir menn höfðu aldrei hugsað sér forfeður sína aðra en víkingana, og Adam, ef lengra var rakið. En eftir Sigvalda var haft, að forfeður mannkynsins væru apar, og Íslendingar þar engin undantekning. Ærslafullum ungmennum var raunar vel vært; en ekki varð hann vinsælli eftir en áður, enda ekki ætíð farið rétt með í frásögninni. Á þessu bar þó mest veturinn, sem hann, með öðrum unglingum, var búinn undir fermingu. Sú kristindóms-uppfræðsla var hlutverk Ána gamla. Og Sigvaldi lagði svo óguðlegar spurningar fyrir kallinn, að annað eins hafði ekki heyrzt. Oft leiddi hann hjá sér að svara þeim, en benti Sigvalda á, að hér væri um yfirnáttúrlega hluti að ræða, og ómengaða lútersku, sem ofar væri öllu mannviti og yrði ekki rökleitt á skynsamlegan hátt. Jafn óskammfeilinn var Skarðsstrákurinn við séra Símon í þau tvö skifti, sem hann spurði börnin. Presturinn lét sem hann heyrði ekki goðgá Sigvalda, nema í eitt skifti, þegar alveg gekk fram af honum: „Sussu, sussu, Sigvaldi minn!“ sagði presturinn og var blóðrauður í framan eins langt niður og sást fyrir prestakraganum . . . Og sá orðrómur barst út um Ströndina, að strákurinn tryði hvorki sköpunarsögunni né sakramentunum, og efaðist jafnvel um, að frelsarinn væri eingetinn. Sannaðist þetta bezt fermingardaginn. Óðar en hann kingdi altaris-sakramentinu varð hann náfölur og flýtti

sér út. Það var heitt í veðri, skólahúsið þéttskipað og þungt andrúmsloftið. Maður vissi líka, að unglingar komust oft í ákafa geðshræring við ferminguna. Alt þetta hefði mátt bera Sigvalda í bætifláka, ef vitlausa Finna hefði hagað sér eins og annað fólk, og setið inni undir messunni. En nú, sem oftar, þegar gott var veður, var hún úti, og sá Sigvalda reka fingurna aftur í kokið og æla sakramentinu. Eða þannig var vitnisburður Finnu túlkaður af þeim, sem bezt skildu hana. Og ekki vantaði hana sjónina. Vantrú og efasemi Sigvalda, sem kom í ljós við spurningarnar, hafði gleymzt, en slíkt guðleysi, sem vitlausa Finna hafði staðið hann að, var ófyrirgefanlegt. Og eldri sem yngri sneiddu hjá honum. Aðeins Áni gamli og kennarinn héldu trygð við hann — og Dísa. Vilhjálmur vonaði, að sá ósómi, sem strákurinn hafði áunnið sér, mundi opna augu hennar. Og víst var fátt með þeim eftir ferminguna. En í svip þeirra og augnaráði, þegar þau litu hvort annað, var eitthvað alt annað en óvild. Þó var engu líkara en þau forðuðust að vera tvö ein. Og Vilhjálmur sá ekki betur en strákurinn væri feiminn við Dísu. Það eitt var víst, að hann gerðist jafn fámáll við hana og aðra. Og ekki var hann til staðins að kveðja hana, þegar hún fór til Winnipeg.

Þannig liðu tvö ár, að Sigvalda varð varla vart á Ströndinni. Goðgá hans var gleymd, og hann hélt sig ýmist heima eða á Ánastöðum. Kom ekki á aðra bæi en Ánastaði og heimili kennarans til að skila bókum og fá aðrar að láni. Við bar, að hann slóst í för með Ána gamla, á flækingi hans um óbygðina. Enginn vissi hvað þeim fór á milli. Kallinn sagði að þeir væru að kanna landið; það gerðu ekki aðrir; og einhver yrði að kynnast kostum þess og ókostum, áður en það bygðist . . . Lengi var Áni gamli hagsýnn, eða hitt þó heldur! Nú var hann fullur með nýbyggð, þar sem varla var manni eða skepnu fært. Hann lét á sér skiljast, að ekki væri hann einn um þessar framtíðarvonir, og var getið til, að Sigvaldi á Skarði væri nógu sérvitur til að taka mark á annari eins heimsku. Hvar voru nú gáfurnar, sem kennarinn hafði básúnað? . . . Þeirri spurning svaraði Sigvaldi sjálfur fyrir tilstilli kennarans.

Á skemtisamkomum voru jafnan tvö megin atriði prógrammsins, — ræða og dans. Ræðumenn voru þeir Hansi Hómópati og Frímann friðdómari. Væru þeir forfallaðir, hlaut Sveinn í Sandvík heiðurinn. Þóttu ræður hans um of á víð og dreif og altof langar. Annars þótti ungdóminum allar ræður of langar, en leið Svein bara fyrir hvernig hann lét með pontuna meðan á ræðunni stóð. Fyrir kom, að séra Símon hélt ræðuna. En hann var svo fyndinn og skemtilegur, að það sem hann sagði gat varla talizt ræða. Hann fór ekki með kvæði né lagði út af fornsögunum; og meðan hann talaði gleymdist hinum eldri allar búsáhyggjur og þeim yngri dansinn.

Eitt sinn bar svo við, að Frímann var veikur og Hansi að stumra yfir honum, en Sveinn í Sandvík að sitja yfir uppáhaldskúnni sinni. Og presturinn upp í Winnipeg. Samkoma og

enginn ræðumaður. Aldrei þessu vant er Sigvaldi þar kominn, og kennarinn, sem aldrei kom á ræðupall, spanar „nefndina“ upp í það, að leita til Sigvalda. Þykir öldnum það hið mesta örþrifaráð, en ungum skemtileg nýung, að sjá stirðbusann á ræðupalli hella úr sér sérvizkunni — ef hann kæmi þá orði út úr sér. Og er hlegið og klappað lengi eftir að ræðumaðurinn er tilbúinn að hefja mál sitt. En þarna bíður hann einarður, ófeiminn og virðir fyrir sér áheyrendurna. Og þegar hann hefur mál sitt er ekkert ræðusnið á því. Hann er bara að tala við fólkið. Minnist ekki á fornsögur, skáld né fegurð Íslands, og segir ekki eina skopsögu. Hann er að tala um Ströndina, eins og hún er og á eftir að verða. Hann ummyndar og endurskapar bygðina; ryður skóginn; sker fram flóana; byggir vegi; reisir ný hús, umkringd kál- og blómgörðum; brýtur jörð og yrkir víðfeðm akurlendi. Þannig leiðir hann áheyrendur sína inn í framtíðina, sem er heimur hinna ungu og uppvaxandi, en hressandi fyrir aldna og lúna að líta þar inn . . . Eftir þetta varð öllum ljóst, að Sigvaldi var nýr og betri maður. Og Áni gamli sagði, að pilturinn hefði kastað álagaham, sem heimskan hefði fært hann í strax barnið. „Almenningsheimskan er göldróttari en nokkur norn,“ sagði Áni gamli. Og hann var skygn.

III

Fram á fermingaraldur voru börn og unglingar heima og léttu undir hús- og búverk með foreldrum sínum. Eftir það þótti sjálfsagt að þau færu utan, að dæmi forfeðranna, til að vinna sér frægð og frama — nokkra dollara til búsins og þokkalegan fatnað og skó til spari. Stúlkurnar réðu sig til húsverka eða annara kvenlegra starfa í Winnipeg, og komu sjaldan heim, nema í jólafríinu. Útivinna piltanna var skammvinnari, oftast bundin við uppskeru á sléttunum — „harðvist,“ eins og það var kallað; þó Sveinn í Sandvík ímyndaði sér, að vinna á ökrum væri létt verk og löðurmannlegt, í samanburði við sjóróðra á Íslandi. „Ég tala nú ekki um hákallalegur,“ sagði Sveinn, og hóf upp pontuna.

Þrátt fyrir fátækt og frumbýlingsbaslið voru ungmennin hraust og bráðþroska. Feðrunum var vel vært, þó synir þeirra reyndu sig við Enskinn, og sáu ekki betur en þeir kæmu stærri og mannborlegri úr hverri utanför. Þeim var minna gefið um borgarvist dætra sinna. Eftir ár eða svo í Winnipeg, urðu þær því nær óþekkjanlegar . . . Þvílíkt bölvað tildur og bríarí! Og mest af því, sem þær unnu sér inn, gekk í silkikjóla, og útlent fíniri, sem aldrei sást, nema á þvottasnúrunni. Flestar tóku sér ensk nöfn, sem oft reyndust íslenzku tungutaki ofraun, nema meðal ungdómsins, sem oft og einatt virtist helzt vilja fela Íslendingseðli sitt undir enskum ham. Og hafði margur roskinn og ráðinn Strandarbúinn óhug á vistarveru dóttur sinnar í Winnipeg; en enginn meir en Vilhjálmur á Skarði. Frá því Dísa var óvitabarn hafði hún haft sitt fram við foreldra sína. Nú var hún, að kalla mátti, fulltíða, þroskuð um aldur fram, falleg og

spriklandi af fjöri. Vilhjálmur vissi, að henni héldi engin bönd og talaði um fyrir henni, aðeins af skyldurækni og til að friða samvizkuna síðar meir, þegar hún væri horfin út í helvítis Enskinn. Þeim afdrifum spáði hann dóttur sinni, og reyndist sannspár. Til þess sá hann snemma merkin. Ekki mátti skrifa Herdís Vilhjálmsdóttir, utan á bréf til hennar, heldur Daisy Williams. „Alt íslenzkt verðum við að tyggja upp á ensku, í an. og dé, útlendinginn.“ — Eftir mannfræði Vilhjálms skiftust hvítir menn um heim allan í tvo flokka — Íslendinga og útlendinga.

Þegar Dísa kom til Winnipeg tók Sigga á Súlum á móti henni og bauð henni að búa með sér fyrst um sinn. Hún hafði unnið í heilt ár á þvottahúsi, var orðin þar öllum hnútum kunnug og vænti þess, að Dísa fengi brátt vinnu við þvottinn. Í fyrstu var alt svo nýstárlegt, að Dísu fanst lífið ævintýri; en þegar nýa brumið fór af, leiddist henni gufumökkurinn og sápufýlan, alla daga, og íbúðarkytran á kvöldin. Tvö lítil herbergi og loftið þar litlu skárra en í þvottahúsinu. Og á nóttunni dreymdi hana oft um skógarilm út á Strönd, og svalan andvara af vatninu. Svo urðu þetta vökudraumar. Og þegar hún hækkaði í tigninni, frá þvottakerinu upp að strauborðinu, tók ekki betra við. Æskuminningarnar fléttuðust saman við ævintýrin í bókum Ána gamla; og áður en varði var skyrtubrjóstið gulflekkótt undan of heitu straujárninu, og alskonar aukabrot í krögunum, sem ekki náðu nokkurri átt. — Sagðist Siggu svo frá, að stelpan hefði verið rekin fyrir leti og óverklægni. Sannleikurinn var sá, að þeim kom illa saman. Sigga var úti öll kvöld og þá leiddist Dísu einveran. Hún las blaða-auglýsingar og sagði upp vinnunni, eftir að ráða sig fyrir vinnukonu hjá ríkri fjölskyldu suður í Fort Rouge. Um vistaskiftin skrifaði hún foreldrum sínum, og þótti báðum frekar góð. Gott að vita hana læra húsverk á fínu heimili, og Vilhjálmi hugsaðist, að hún yrði bundin við þau á kvöldin og „lenti síður í sollinn.“ Ekki vissi hann hvernig þeim solli var varið, og óttaðist hann því meir. Til að byrja með, var kaup Dísu lægra en á þvottahúsinu; en foreldrar hennar settu það ekki fyrir sig, þó hún gæti minna miðlað þeim. Enda varð þess ekki lengi að bíða, að Dísa sendi meiri peninga og annað heim, en nokkur önnur stúlka. Þrátt fyrir það var hún svo vel til fara, þegar hún kom heim í jólafríinu, að annað eins skart hafði ekki áður sézt á Ströndinni. Og sjálf Strandarsólin, Sigga á Súlum, þoldi ekki samanburð við Dísu að fegurð og kvenlegum fínheitum. Piltarnir sóttu að henni eins og flugur að ljósi. Og Sigvalda varð svo mikið um hamaskifti hennar, að hann kom ekki um orði, þegar þau voru tvö ein, og virtist forðast návist hennar. Bar þó öllum saman um, að Dísa væri undralík sjálfri sér, alúðlegur æringi og laus við allan tepruskap. En lengur dirfðist enginn vandalaus að nefna hana Dísu. Hún var ýmist Daisy eða Miss Williams. Og Hansi hómópati kallaði hana fröken . . .

Því meir sem látið var af sigurför

Dísu um enska heiminn, þess meiri áhyggjur bar Vilhjálmur útaf hag og framtíð dóttur sinnar. Svona gat engin stúlka lifað og látið á vinnukonukaupi; og var fjárhagur Dísu fleirum ráðgáta . . . „Ekki vildi ég vera í sporum Skarðs-fraukunnar,“ sagði Sigga á Súlum íbyggin. Meira hafðist ekki upp úr henni. Það skyldi enginn hafa slúður eftir henni. Að vísu var þeim, sem þektu inn á enskt félagslíf kunnugt um stássdrósir, sem aldrei unnu ærlegt handarvik og áttu ekki einu sinni fast heimili, en höfðu þó altaf nóga peninga. En alt að þessu hafði ekki borið á því meðal landa, l. s. g. . . . Þrátt fyrir þagmælsku Siggu, bárust oft fréttir af Dísu, óglöggar í fyrstu, en skýrðust í umræðum. Hún hafði sézt í leikhúsinu og á fínum böllum með ungum manni, sem bar ekki merki þess, að hann ynni með höndunum. Og ekki þreytti hann þau á ganginum til þessara lystisemda. Það dugði ekki minna en leigja kúsk og lokaðan vagn. Án ábyggilegra upplýsinga mátti ganga úr skugga um, að hinn ungi herramaður var sonur húsbænda Dísu, og þótti meir en svo viðsjárvert. Að vísu bar hún dýrari hring en sézt hafði á Ströndinni, en aldrei á enskum trúlofunarfingri. Enda vitlaus maður, sem hygði stórauðugt snyrtimenni í Fort Rouge taka saman við Skarðsstelpuna, þó snotur væri.

Fyrstu þrjú árin hafði Dísa komið heim um jólin. Svo varð móðir hennar bráðkvödd. Eftir það sást hún ekki á Ströndinni. Banamein Önnu, að sögn Hansa hómópata, var hjartveiki — „hjartaslag,“ sagði læknirinn, „óskylt móðursýki, þó fáfróður almenningur áliti þá kvilla eitt og hið sama.“ En vísindaleg þekking hans hafði lítið að segja móti viti og reynslu fjöldans. Svona hlaut að fara. Anna sáluga var of vönduð og tilfinninganæm til þess að afbera framferði dóttur sinnar og það óorð, sem hún hafði áunnið sér. Og hún var sæl, blessuð manneskjan, að vera komin til guðs síns, þegar ekki fréttist lengur annað af Dísu en það, að hún væri alveg komin í hundana, og hefði jafnvel fætt af sér ófeðrað barn . . . Eftir það spurðist ekkert til Skarðsstelpunnar. Einhver leitaði frétta til föður hennar. En hann brást reiður við: „Spyrðu mig ekki um neitt, sem komið er í helvítis Enskinn, hann á eftir að gleypa í sig alt sem íslenzkt er í Ameríku.“ Og til að lenda ekki sjálfur ofan í þá hít, seldi hann Ánastaðabræðrum búslóðina og skepnurnar og fór alfarinn til Íslands. Jörðina vildi enginn kaupa. Hún var óslitin grjóthryggur, sem Vilhjálmur hafði valið sökum legu, en ekki landkosta. Henti það margan landann, að byggja þann blettinn, sem hæst bar á hinni endalausu flatneskju, hversu sendinn eða grýttur jarðvegurinn var. „Útsýnið“ var Íslendingnum fyrir öllu.

## IV

Eftir að Dísa var farin, var Sigvaldi sjaldan heima, og aldrei lengi í senn. Bar því við, að hann ynni heimilinu meira gagn í útvinnu, en heima á Skarði, þar sem hver ruddur blettur gaf ekki af sér grastó, hvað þá annað. Annars staðar gat hann unnið fyrir kaupi og sent fósturforeldrum sínum peninga við

og við. Vilhjálmi var það fyrirkomulag sízt móti skapi. En Önnu leiddist eftir að „litlu hjúin" voru bæði farin. Það vissi Sigvaldi og kom því heim, þegar hann kom því við. Væri hann ekki í útvinnu, fékk hann ætíð eitthvað að gera á Anastöðum og tók ekki steininn í staðinn. Þar átti hann heima öllu heldur en á Skarði. Nóg að lesa, og Áni gamli til viðræðu nær sem tími gafst til. Í hvert skifti og Sigvaldi kom úr útvinnunni færði hann kalli ýms rit um nýstárleg efni, sem örfuðu hugsanir beggja og tungutak. Bæri svo við, að séra Símon gisti á Ánastöðum, þegar Sigvaldi var þar, var sem birti yfir heimilinu. Spaugsyrðin og fyndnin voru eins og leiftur. Og mælska og fróðleikur prestsins brá ljósi yfir fortíð, nútíð og framtíð, og bar mann með sér um tíma og rúm. — Innan þeirra takmarka hélt séra Símon sig, nema í stólnum og við spurningar, og undu því margir bezt. Við slík tækifæri bar Viktoría fram aðeins íslenzka rétti: hangiket, harðfisk og pottbrauð, skyr og rjóma, og súkkulaði með pönnukökum og vínartertu á eftir. Símonía, þvegin og greidd og sparibúin, stóð fyrir beina með móður sinni. Og hefði Siggu á Súlum undrað, hvað stelpugreyið var ásjáleg, og hafa aldrei komið til Winnipeg! Hafði hún þó heyrt, að Símonía héldi sér til, þegar Sigvaldi var á Ánastöðum, þó hún gengi eins og fjósakelling í strigatuskum alla aðra daga . . . .

Lengi eimdi eftir af óvild þeirri, sem skapast hafði hjá skólasystkinum Sigvalda í hans garð. Þegar þar við bættist óhugur hinna rétttrúuðu, eftir að uppvíst varð trúleysi hans við spurningarnar, og það guðleysi, sem hann sýndi með því að æla viljandi sakramentinu, var hann óvíða aufúsugestur á Ströndinni. Sumum fanst andrúmsloftið hreinna, þegar hann var fjarverandi, og hefði verið vel vært, að vita hann hverfa út í enska heiminn fyrir fult og alt. En þó hann væri mest af tímanum í útvinnu, hvarf hann oft heim á Ströndina og dvaldi þar svo dögum eða vikum skifti. Og með tímanum féll sakramentishneykslið og vantrúar-óorðið í gleymsku. Átti séra Símon þátt í því, þar eð enginn gat merkt, að presturinn erfði óguðlegheitin við Sigvalda. Hann tróð engan um tær, og var látinn afskiftalaus. En það sem hann hafði talað yfir sveitungum sínum á samkomunni, kvöldið góða, hafði fremur öllu öðru mýkt lund þeirra í hans garð. Hann hafði flutt þeim jarðneskan gleðiboðskap, sem þeir mintust, þegar samanburður á högum þeirra og landa sinna vestur á sléttunum, olli þeim minnimáttarkend og ótrú á Ströndinni. Framtíðarhugmynd Sigvalda af bygðinni þeirra var e. t. v. skýaborgir. En bjart var þar um að líta! Og þegar það varð orðbært, að Sigvaldi greiddi fyrir vörur í Eyrarbúðinni með bankaávísunum, undirrituðum af honum sjálfum, sá hver heilvita maður, að hann var ekki allur upp í skýunum. Draummenn og skýaglópar áttu ekki peninga í sparisjóði. Sinnaskifti þeirra gengu svo langt, að ungir og gamlir fóru að bera kvíðboga fyrir því, að Sigvaldi yfirgæfi Ströndina fyrir fult og alt. Eftir að Dísa var farin hafði

hann varla getað talist til heimilis á Skarði, þó hann legði part af vinnulaunum sínum til búsins. Svo dó Anna, og Vilhjálmur fór til Íslands. Skarð ómögulegt til ábúðar, og önnur byggileg heimilisréttarlönd fyrir löngu upptekin. Sumir vonuðu, að hann keypti Eyrarbúðina, aðrir að hann kæmi sér upp fiski-útgerð. — Sigvaldi var of framtakssamur og hagsýnn til að hokra eins og emigranti út á Strönd. Og þegar uppvíst varð, að hann hefði fest sér heimilisréttarland í „Sefinu," rak alla í rogastans. Eins og fyr, botnaði enginn í fyrirætlunum Sigvalda.

„Sefið" var sá partur flóans, sem lá að baki Vallavalla og nærliggjandi landa. Þar óx risa-stargresi, sem aldrei varð nýtt sökum vatns, sem á því stóð árið um kring. Aftast á Vallavallalandinu var stórviða skógarlundur, sem skaut nokkurra ekru tanga út í Sefið. Þar ruddi Sigvaldi blett og byggði sér kofa. Sýnilega varð þar ekki öðrum umbótum komið við. Og þótti mörgum lítið leggjast fyrir kappann. En varla hafði hann fest sér landið, hygði hann ekki að ílendast á Ströndinni. Hvað annað gat manni hugsast eftir að hann bætti við sig heilli fermílu í Sefinu, sem hann keypti af Hudson Bay félaginu? Raunar borgaði hann sáralítið fyrir forardýkið; en Sigvaldi var ekki þekktur að því, að kaupa köttinn í sekknum fyrir þá einu ástæðu, að verðið var lágt, og menn greindi á um, hvað Sefsbóndinn ætlaði fyrir sér. Rosknir og ráðnir slógu engu föstu en hristu bara höfuðið. Hinir yngri mintust ræðunnar góðu og ráðfærðu sig við hann um hvort þeir ættu að festa rétt í flóalöndum. En hann hvorki hvatti þá né latti til þess landnáms. — „Framtíðin er jafn hulin mér og öðrum. Ég hef altaf búizt við, að ala aldur minn á Ströndinni í von um framfarir hér, eins og annars staðar á þessu mikla meginlandi. En svo reynist vonin oft veik, þegar til átakanna kemur. Og í þessu tilfelli útheimtist áræði, einbeittur ásetningur og óskift samtök okkar allra — eigi hún að rætast." . . . Hann taldi sig einn af þeim! . . . Og hver sem landlaus var og hafði aldur til „sökti heimilisrétti sínum í fenið," eins og Sveinn í Sandvík komst að orði; og var réttnefndur flóafífl. En nafnið hélst ekki lengi við. Ekkert fífl var Sigvaldi, og var þó forsprakkinn; og í kofanum hans söfnuðust menn saman og ræddu mál sín. Barst brátt út um Ströndina, að hugmynd Sigvalda og fylgifiska hans væri að koma í framkvæmd umbótum þeim, er hann hafði eitt sinn lýst í samkomuræðu, og sem alt að þessu hafði skoðast marklaus dagdraumur, sagður fólki til meinlausrar skemtunar. Varla fanst sá aldinn einfeldningur, að hann vænti árangurs af ráðabruggi angurgapa, sem bygðu framtíð sína á kjarri og kviksyndi. En gerræði þeirra var nokkuð nýstárlegt. Og eftir því sem menn mundu bezt, hafði samkomusýn, eða sýning Sigvalda innibundið alla Ströndina. Málefnið var því engin séreign flóamanna. Enda fóru þeir ekki dult með, að það varðaði alla. — „Ströndin verður að tala einum munni þegar til kemur," sagði Sigvaldi, „þá og fyr ekki verð-

ur tekið til greina það, sem við förum fram á við þá, sem völdin hafa.“ Og mönnum fór að skiljast, að enn einu sinni ætti að herja á fylkisstjórnina til fjárveitinga, og urðu daufir í bragði. Reynslan hafði kent þeim, að þaðan var lítils að vænta. Fyrir hverjar kosningar lofuðu þingmannsefnin öllu fögru: uppbornum vegi eftir endilangri nýlendunni, framræsing flóans, bryggju á Eyrinni, eiginlega hverju því, sem kjósendur fóru fram á. Hafði svo gengið til frá fyrstu tíð. Og eina merkið til örlætis hins opinbera var gamall kynbótatarfur. Að vísu sletti stjórnin úr sér, við og við, nokkrum dollurum til vegabóta. En það hrökk aldrei til að fylla verstu holurnar, sem voru jafn ófærar eftir árið.

Eins og margt annað, áttu Strandarbúar Viktoríu á Ánastöðum að þakka það, að fyrirætlanir Sigvalda féllu ekki í kalda kol. Synir hennar voru með þeim fyrstu, sem rituðu nöfn sín undir sameiningar-loforð Sigvalda. Síðan fór kelling sjálf á stúfana, þó gömul væri, og hætti ekki fyr en hver, sem atkvæðisrétt átti, hafði ritað nafn sitt undir skjalið. Að því búnu fór mönnum fyrst að skiljast, hvað til stóð og leizt ekki á blikuna . . . Pólitískt flokksfylgi var búið að vera. Til næsta þings áttu allir Strandarbúar að greiða sama frambjóðanda atkvæði sín, Heimskringlumenn jafnt og Lögbergingar. Og þótti sterkum flokksmönnum hart að gengið. Þetta gekk næst því, að ganga af trúnni! Hreint og beint stefnuleysi. En undir þetta höfðu þeir skrifað, eða svo sögðu þau Viktoría og Sigvaldi, og höfðu Frímann friðdómara með allar lögbækurnar á sínu bandi. Og áður en næstu kosningar bar að hendi mælti Ströndin einum munni, og varð Sigvaldi þar einn fyrir svörum.

Svo margir Íslendingar áttu atkvæði í kjördæminu, að þeir gátu ráðið kosningaúrslitum væru þeir samtaka. Og Sigvalda reiknaðist svo, að jafnvel Ströndin riði þar baggamuninn, ef allir legðust á eitt. En þó svo bezt, að hæsta ráð flokkanna fengi ekki vitneskju um sinnaskiftin fyr en kosningum væri lokið. Það brýndi hann fyrir sveitungum sínum svo rækilega, að meðan á kosningunni stóð sóttu menn pólitíska fundi eins og vandi var til. Lögbergingar skipuðu sig um kandidat Liberala; Heimskringlumenn um Konsann, og drukku jafnt beggja flokka brennivín. Fyrirfram höfðu þeir gert það með sér, hvorum þeir greiddu atkvæði. Úrslitin urðu svo óvænt, að enn er í pólitískum annálum haft. En það fylgir sögunni að hinn mikli sigur, hins nýa þingmanns hefði ekki komið honum á óvart. Sigvaldi hafði lofað honum þingsætinu — með vissum skilmálum. Ströndin talaði, og það varð. Næsta vor var fyrsti skurðurinn grafinn úr flóanum fram í vatnið, og lá hann í gegnum Sefið. Hann Sigvaldi átti það skilið. Hver vill skara eld að sinni köku. En í rauninni réði útreikningur mælingamanna stjórnarinnar og hagsýni því, hvar og hvernig verkið var unnið.

V

BRÉFIÐ

Góði vinur minn! Innilega þakka ég þér bréf þitt og „heimboðið," sem það flutti. Ég veit, þú fyrirgefur drátt á svari. Þurfti allan tímann til að hugsa mig um, og þó lengur væri. Ertu ekki hissa? Dísa á Skarði farin að hugsa sig um! En neyðin kennir heimskum að hugsa, þó seint gangi.

Jú, víst er ég í útlegð, en uni þó hag mínum. Og finst bezt, að jafna útlegð mína upp með því, að Valdi litli gerist innlendur. — Hefi ég sagt þér áður, að ég nefni hann ætíð Walter, eins og hann var skírður, nema í bréfum mínum til þín? Meðan hann var hvítvoðungur, kallaði ég hann Valda, en vandi mig af því áður en hann vitkaðist. Útlaginn æfir sig og þjálfar í sjálfsafneitun til að halda fullum sönsum. Raunar held ég, að allir Íslendingar í Ameríku séu útlagar, að meira eða minna leyti.

Það er á parti rétt hjá þér: Ströndin er mitt eina heimaland. Og þangað hverfur hugurinn oft og einatt, ef ég er þreytt og niðurdregin. Það eru mín einu frí og ferðalög, mín eina hvíld og huggun. Þar eru litlu skötuhjúin frá Skarði. Þau hlaupa og leika sér í fjörunni, byggja hús úr sandi og tína skeljar (eins og annað fólk), horfa á ölduganginn og hlusta á brimniðinn tímunum saman, þegar vindur stendur af vatninu, og steinþegja af því þau skilja ekki neitt í neinu (fremur en annað mannfólk); en þegar vatnið er slétt og þögult, senda þau skipin sín til annara landa, sem aldrei voru til. Þau eiga sinn kastalann á hverri skýaborg og sjá hann falla í rústir, án þess að harma hrunið. Þegar jörðin og vatnið stendur storkið í hvítri helju vetrarins hlaupa skötuhjúin eins og fætur toga, svo þau komist undir þak, áður en nef og eyru storkna, eins og alt annað utan dyra — hlaupa skólastiginn, sem hann Áni gamli fann þeim gegnum skóginn. Á heimleið af jólasamkomunni fær alt annan blæ á sig . . . „Strípaður máninn staulast milli trjánna" . . . „Það er nú meiri dónaskapurinn." — „Ósköp er gaman að sjá hann Valda hlægja! . . . Stjörnuber himinn. Og Dísa kemur ekki auga á Betlehemstjörnuna. Og ekki hjálpar skógurinn. „Hann hefir þúsund fingur og bendir þeim öllum á stjörnurnar" . . . „Ekkert að marka. Hver fingur helfrosinn — bendir blindandi út í botnlausan geiminn" . . . „Kerald? — og botninn suð'rí Borgarfirði" . . . En Valdi er bara alvarlegur . . . Og þau hraða göngunni heim.

Svo kemur marz-sólin og blástrúturinn, fyrsti vorfuglinn. Áni gamli gaf honum nafnið, eins og öðrum lifandi verum, sem hann kann ekki nöfn á. „Hann hringir inn vorið. Hringir til messu sumarsins" . . . Svo þegar vorhretin koma og snjóinn skefur, finst Dísu lítið til um slíka sumarmessu . . . „Leiðist þér aldrei í messu hjá séra Símoni?" . . . „Ekki ef Sveinn í Sandvík er þar með pontuna; og Hansi hómópati og Frímann friðdómari í kappsöng" . . . Og fyrst Valdi hlær, er Dísu alveg sama hvernig veðrið er. — Hretunum lýkur, og sólin tekur alt á vald sitt. Í skóginum hverfur snjórinn.

ísinn á vatninu grotnar og brotnar. ... Eitt kvöld: „Í nótt kemur nafna þín, sunnan úr heimi, og ýtir ísnum úr sýn.“ — „Nafna mín?“ — „Vordísin.“ — Og vorið er komið í Dísu sjálfa. — „Á morgun sjá skógarbúar langt upp í land, að ísinn er farinn. Þar springa laufin út á hverri ösp, í nótt.“ — „Hvernig veiztu það?“ — „Áni gamli segir, að það bregðist ekki.“ — „En því ekki hér á bakkanum?“ — „Maður sér þegar vatnið er autt, og þarf ekki að láta aspirnar segja sér það.“ Og Valdi brosir. Hann er að gera að gamni sínu! ... Svona er blessað vorið á Ströndinni minni. Þar er óþreya og ánægja eitt og hið sama. Gaman að bíða þess, að ungarnir fljúgi úr hreiðrunum okkar, og fyrstu jarðarberin, betri en nokkurt jólasælgæti, vaxi . . .

En Ströndin okkar hvarf. Ég held það hafi skeð fermingardaginn okkar. Við gengum skólastiginn okkar heim frá messunni — í síðasta sinn. Og þú varst fölur og svo viðutan, að ég greip í hendina á þér og togaði þig til sætis á gamla trjábolnum. En höndin var þvöl og köld. Hér höfðum við oft slórað, og aldrei orðið orðfall. Nú hafðist varla orð út úr þér, hvernig sem ég lét. Og þú leizt ekki upp. Mér leiddist fýlan og stóð upp. Þá rendir þú fallegustu augunum, sem ég hef séð á æfinni yfir mig frá hvirfli til ilja, og sótroðnar í framan. Mér fór víst eins, því ég fann hita færast um mig alla, en mest í andlitið. Ég kom ekki upp orði, og við löbbuðum þegjandi heim — feimin! ... Valdi og Dísa voru búin að vera og Ströndin með. Sigvaldi á Skarði var mér ekki handgengnari en öðrum. Hann fór að venja komur sínar að Ánastöðum, og var þar þegar ég fór — án þess að geta kvatt hann. Fann þó ekkert til þeirra mistaka atvikanna. Framundan blasti æfintýralandið við í allri dýrð dagdrauma minna. Ég var kotungsdóttir, að leysast úr álögum. Í borginni gerði ég alt til að komast úr kotungshamnum, og tókst það með tímanum. En þá fyrst varð Ströndin sólborgar æfintýraland; og ég þráði það mest, að koma heim um jólin. Hlakkaði til þess í heilt ár, og varð því fegnust að komast þaðan eftir tveggja vikna dvöl. Eftir það knúði skyldan mig heim um jólin, meðan mamma var á lífi . . . „Veröldin er leikvöllur heimsku og harms.“ Í heimi dagdraumanna skapast von óvitans — „von, sem þó er aðeins tál.“ En ég hafði hvorki aldur né eðlisfar til þess, að setjast í sekk og ösku . . . Glaumur borgarlífsins svall á allar hliðar. Spá pabba rættist. Ég féll í sollinn.

Alt er þetta óþarfa mas. Milli línanna hefi ég lesið skilning þinn á óláni mínu í bréfunum þínum. En þegar maður er aleinn á jólanóttina, langar mann til að masa við eina vininn sinn, þó hann sé langt, langt í burt. Þá nótt vaki ég ætíð lengi fram eftir. Þarf að halda hlýum kofanum. Valdi litli vaknar fyrir allar aldir til að meðtaka jólagjafirnar, sem Sakti Kláus lætur í sokkana hans. Svo er barnið nú þegar innlent og gott efni í borgara þessa land . . . Og nú þarf ég að stinga spýtu í stóna . . .

Svona er ég enn gálaus. Taldi þig eina vininn. Hvernig gat ég gleymt

honum séra Símoni, sem reisti mig upp, þegar ég „féll," án þess að minnast einu orði á synd og hegningu, hvað þá helvíti! Og hann var sá, sem faldi mig fyrir forvitni og slúðri landans, alt fram að þessu, og gaf mér nýtt nafn. — „Þarftu ekki að skíra mig, séra Símon?" — „Ekki í bráðina. Þú getur notað tímann til að iðrast." Og þetta sagði hann brosandi, og vissi þó að ég var óguðleg. Til dæmis vitjaði hann mín meðan ég lá á sæng. Barnið var að sjúga, og meðan svo stóð á var ég laus allrar sektarkendar og full ósegjanlegrar gleði, sem presturinn las víst út úr svip mínum. — „Ég sé, að þér líður vel, Mrs. Nemó." Og ánægjan skein í augum hans. — „Já, séra Símon. Nú er ég endurleyst. Og þetta er lausnari minn." Og ég lagði höndina á höfuð barnsins. — „Sussu, sussu!" sagði presturinn; en góðmennið brosti . . .

Um framfarirnar á Ströndinni hefi ég lesið í enskum og íslenzkum fréttablöðum. Það og lýsing þín á bæjarhúsunum og búinu í Sefi, villir mér sýn. Ég mundi ekki rata lengur eina bæarleið um bygðina ykkar, sem enn ber nafnið Ströndin . . . Skólahúsið okkar horfið, og aðrir áttavitar á burt. Hvergi gamlan götustíg að finna. Jafnvel Dísa á Skarði fyndi þar ekki fótum sínum forráð, hvað þá hún Mrs. Nemó. Enda á hún ekkert erindi að Sefi. Og ekkert skil ég í honum Sigvalda, að ætla henni að takast þar húsforráð á hendur.

Strandaroddvitinn, tilvonandi fylkisþingmaður, þekkir ekki Mrs. Nemó. Hefir aldrei séð hversu illa henni farast húsverkin. Svo hefir honum gleymzt að hún er óhappamanneskja, sem féll í synd innan tvítugs og varð móður sinni þannig að aldurtila. Þó sveitungar hans hafi einnig gleymt glæpum Dísu á Skarði, mundi alt ólán og óknyttir hennar rifjast upp, gerðist Mrs. Nemó bústýra í Sefi, og bóndinn þar njóta ills eins af. Nei, vinur minn, annað betra áttu skilið af mér, sem ég á líf mitt að launa. Þess utan er ég ístöðulaus til að skifta um ham enn á ný. Aðeins hugurinn má heimsækja nýa húsið bóndans í Sefi, og bjóða honum

**Gleðileg jól!**

—0—

Sigvaldi leysti hestana. Í dyrunum mætti hann Birni. „Þú komst mátulega til að setja fyrir með mér, því ég er í flýti, en þarf að tala við þig — biðja þig bónar. — Hefi ekki einu sinni tíma til að skjóta þér heim." — Og meðan þeir voru að koma hestunum fyrir sleðann, lét Sigvaldi dæluna ganga, svo Björn kom ekki að orði. — „Ég þarf að keyra til Winnipeg. Verð í burtu í viku og treysti þér til að sjá um búið, meðan ég er í burt. Í Sefi eru þér allir hnútar kunnugir, og því óþarft að segja þér fyrir verkum. Býst við að koma heim á gamlársdag, og vona að þú hafir húsið hlýtt og notalegt. Líklegt, að með mér komi kona og drengangi, sem ég vil síður að krókni . . ." — Sigvaldi í Sefi í flýti og flumósa! Og áður en Björn kom upp spurning eða spaugsyrði, óskaði Sigvaldi granna sínum gleðilegra jóla, og sló í hestana.

P. S. PÁLSSON:

# Dís lífsins

Hún kom eins og vorblær, um kinnar mér strauk:
„Ó, kom nú minn vinur.“ — Ég svefninum lauk
og féll þar í faðm hennar glaður.
„Við göngum í lundinn sem gengum við fyr,
þú gefur mér kossana, rétt eins og fyr,
við lifðum í alsælu áður hér fyr,
— þú ert bara þroskaðri maður.“

„Nú varir ei lengur hin ótamda ást,
við eigum samt, vinur minn, það sem ei brást:
að haldast í hendur og brosa.
En líf þitt er annað en áður það var
er æskan og lífsgleði á höndum þig bar,
þú reyndir svo oft, líkt og óviti þar,
öll ástarbönd við mig að losa.“

„En tak nú í hönd mér og tala við mig
með tungu er skaparinn setti í þig
að útskýra ást þína, vinur.
Í augum vor beggja er ástin sem fyr,
við elskum nú bæði jafnheitt eins og fyr,
við dönsum í minningum dátt, eins og fyr,
— og drottinn er beggja okkar vinur.“

Ég horfði á konuna. Hjarta mitt sló
nú hraðar en áður, því mynd hennar bjó
í huga mér: Hún var sú kona
sem birtist mér fyrst er í vöggu ég var,
og vonunum fjölmörgu útbýtti þar
og réttina lífsins á borðið mitt bar,
sú bláklædda dís minna vona.

Ég mælti: „Hví ertu svo ellileg nú
mín ástmey, mín lífsdís, mín gyðja, mín frú,
þitt hár er nú gráleitt af hærum,
og hrukkur á enni og hálsi og kinn,
— en heitur og sætur er munnur þinn,
í kossunum þínum ég kærleik þinn finn,
og kímni í augunum tærum.“

„Ég birtist þér fyrst er í vöggu þú varst
og vonirnar gaf þér, er seinna þú barst
allt líf þitt í gegn, með gleði.
Ég er fyrirheit lífs þíns. Ég fylgist með þér,
ég fölna og dey, ég verð grafin með þér;
ég er ást þín til lífsins, og frá þér ei fer,
því forlögum þínum ég réði.

Svo göngum nú út, sláum hendi í hönd,
og hnýtum á ný okkar slitnuðu bönd,
— og brosum jafn blítt eins og áður.
Í augunum bjarmar enn blossandi ást,
hún batt oss við lífið sú guðlega ást,
og byrjun og endir hér aldregi brást,
hver einn er þeim forlögum háður.“

Hvert orð er hún mælti gaf eld mér í sál
og æðar og vöðva, og tungunni mál.
Við féllum í faðmlög — og brostum.
Nú virtist mér framtíðin heiðrík og há,
og hjarta mitt fylltist af unaðar-þrá:
Því lífsgleði í ellinni órækt ég sá,
— og aftur við kysstumst — og brostum.

17. september 1958.

DR. STEFÁN EINARSSON:

# Ísland og íslenzkar bókmenntir

Að heyra útmálun grísk-rómverzkra forleifafræðinga eða fornleifafræðinga úr Austurlöndum á því sem þeir hafa fundið austur þar á söndunum: borgir sem vella of listaverkum og mora út í leirtöflubókasöfnum, hella fulla svo út af flóar af biblíu-ritningum hlýtur að gera hvern óspilltan Íslending grænan af öfund.

Hve mörg handrit mundu hafa fundizt á Íslandi ef íslenzkar bækur hefðu ekki um þúsund ár legið fyrir skemmdum af reyk og rigningarbrælum. Það er því nær fyrir von borið að finna þó ekki væri nema skæklar og rytjur af gömlum skinnhandritum; helzt væri að leita í gömlum bókarbindum eða kjölum bóka. Aftur á móti er enn ekki öll von úti um það að hitta gamla texta á nýjum pappírshandritum sem enn hafa ekki verið notuð við útgáfur. Þetta hefur Jón Helgason sýnt með dæmum af handritum **Egils sögu** og er hér enn allmikið verk óunnið fyrir unga fræðimenn, sem nenna að vinna.

Vera má að Ísland hafi virzt freistandi og lokkandi víkingunum norsku er námu þar land á síðasta fjórðungi níundu aldar, en hvorki var þar viður né grjót til bygginga, þó nóg væri af grjóti. Þess vegna varð að byggja bæina, sem ávallt stóðu einangraðir sem einbúar, úr torfi og grjóti og röftum; en sú bygging var ill og endingarlaus allt fram á þennan dag. Þá sýna og íslenzkar fornleifar að Íslendingar urðu aldrei eins ríkir og frændur þeirra á Norðurlöndum; enginn íslenzkur fundur kemst í hálfkvisti við hið konunglega norska Ásubergsskip, en svipuð skip hafa fundizt í Svíþjóð (Uppsölum) og Englandi (Sutton Hoo).

Loks munu Íslendingar sjaldan hafa náð 80 þúsundum að mannfjölda, en hallæri, plágur og eldgos hafa auðveldlega getað tekið tölu þessa í tvennt ef fækkun varð ekki enn meiri (30 þúsund eftir Svarta dauða? 34 þúsund á átjándu öld). Í raun og veru er það meiri furða að Íslendingar fóru ekki veg allrar veraldar eins og Grænlendingar frændur þeirra. Og hvorugir höfðu vit á að klæðast búningi Grænlendinga en voru alltaf að reyna að apa síðustu tízku frá Frakklandi í klæðaburði.

Það er ótrúlegt frásagnar að þessi litla nýlenda skyldi taka forustu meðal Norðurlandaþjóða og það eigi aðeins um varðveizlu fornra germanskra og norrænna menningarverðmæta svo sem goðasagna, siða- og kennikvæða og hetjukvæða, heldur einnig framleiða skemmtunarmenn og hirðskáld á Brezku eyjunum og Norðurlöndum, einkum í

Noregi, en rita þar á ofan Íslendingasögur sem eiga sér hvergi sinn líka á byggðu bóli en eru algerlega íslenzkar. En þetta gerðu Íslendingar tvímælalaust og væri ekki kvæði þeirra og sögur mundi forsaga Norðurlanda, Grænlands og Vínlands vera fornleifafræði ein. Því ekki hafa enn fundizt neinar fornleifar er sanni fund norrænna manna á austurströnd Ameríku, ekki fremur en nokkrar fornleifar á Íslandi sanna fund Íra á landinu, en sá fundur er nefndur á írskum og íslenzkum bókum alveg eins og fundur Vínlands er nefndur á íslenzkum bókum — og eflaust rétt frá skýrt.

Þótt ekkert af íslenzkum bókmenntum væri í letur fært fyrr en á tólftu öld hafa þær varðveitt skýra og sennilega furðu trúverðuga mynd af landnáminu. Ísland fundu norrænir víkingar einhvern tíma, nálægt miðju níundu aldar en fyrsti landnámsmaðurinn, Ingólfur Arnarson úr Fjörðum í Noregi nam land í Reykjavík árið 874, nema maður telji fyrr byggð Náttfara, er bjó í Náttfaravík vestan Skjálfanda flóa; hann sleit af báti Garðars Svavarssonar hins sænska, er hann kom fyrstur manna til Íslands. Náttfari var þræll Garðars. Á næstu 60 árum mátti landið kallast fullbyggt af norrænum mönnum mest Norðmönnum er sumir komu beint frá Noregi en aðrir eftir mislanga dvöl á eyjunum fyrir vestan: í víkinganýlendum Norðmanna þar: Hjaltlandi, Orkneyjum, Suðureyjum, vesturströnd Englands og Skotlands en austurströnd Írlands. Sagan segir að aðalorsök flutninganna væri pólitísk. Á síðasta fjórðung níundu aldar hófst upp konungur í Noregi, Haraldr Hárfagri, er setti metnað sinn í það að brjóta til hlýðni við sig smákonunga, höfðingja og frjálsa bændur (konunga, jarla, hersa og hölda) eins og áður höfðu gert konungar í Svíþjóð, Danmörku og Englandi. Haraldi konungi tókst að sameina Noreg en margt höfðingja og fjöldi frjálsra bænda vildi heldur flýja land en lúta oki hans. Sumir fóru beint til Íslands, aðrir fyrst í nýlendur Norðmanna fyrir vestan haf — en þær voru eldri en Íslandsbyggð — og settust þar að sem víkingar, en snöru reiði sinni heim í Noreg og þar með víkingaferðum og strandhöggum í land konungs. Í hefndarskyni fór konungur með sinn her vestur um haf á hendur óróaseggjunum, en það varð til þess að margir þeirra fluttu sig um set til Íslands norðvestur um haf.

Eðli þessara útflutninga hafði í einu atriði mikil áhrif á íslenzku landnámsmennina og síðan íslenzku þjóðarheildina. Til landnámsins völdust sýnilega menn sem voru þrjóskir að upplagi úr því að þeir þrjóskuðust gegn konunginum. Margir þessir þrjósku menn voru auk þess höfðingjar og af göfugum ættum og hefur Íslendingum á síðan þótt gott að rekja ættir sínar til þeirra. Gallinn var að þessir göfugu menn tóku með sér þræla af írskum ættum og léku sér svo að því að blanda blóði við þessa þræla sína, en stundum gátu þeir líka verið af konungaættum írskum eins og Melkorka. En þessi blóðblöndun er sýnileg enn í dag í dökkhærðum eða rauðhærðum Íslendingum, að

ekki sé talað um blóðflokkana sem skipa Íslendingum milli manna frá Bretlandseyjum og Norðmanna.

Nokkrir fræðimenn hyggja líka að íslenzku skáldin hafi lært mikið af írsku skáldunum sem voru geysilærð og í miklum metum hjá höfðingjum og konungum írskum. Á sama hátt urðu íslenzku skáldin hirðskáld á Norðurlöndum, einkum Noregi, næstu þrjár aldirnar og þó hálfri betur. Samt er það víst að Norðmenn fluttu skáldskaparíþróttina með sér til Íslands, bæði Eddukvæðahátta og dróttkvæða-háttu, svo að Íslendingar sköpuðu ekkert nýtt í þeirri grein, nema runhendu Egils Skallagrímssonar, sem hann hefur heyrt og lært á Englandi. Eddukvæðin (goðakvæði, siðakvæði, kennikvæði, hetjukvæði) eru að formi til af samgermönskum uppruna, fornyrðislag er bæði á **Hildibrandsljóði**, sem er fornháþýzkt, og **Bjólfs kviðu**, sem er fornensk. Fornyrðislagi fylgja höfuðstafir og stuðlar, en þeir fylgja líka dróttkvæðum hætti eftir svipuðum reglum: tvö vísuorð eru ávallt tengd höfuðstöfum og stuðlum þannig að höfuðstafur er í síðara vísuorði á fyrstu áherzlusamstöfu en stuðlar í hinu fyrra. Höfuðstafir og stuðlar fylgja líka dróttkvæðunum, en auk þess eru samstöfur taldar í vísuorði og vísuorð eru bundin hendingum (innrími) eftir vissum reglum: skothendingar (hálfrím) eru í ójöfnum vísuorðum en aðalhendingar (heilrím) í jöfnum. Vísuorð er það sem aðrar þjóðir kalla verslínu. Um uppruna þessa margbrotna og skrautlega háttar eru skoðanir fræðimanna all-deildar. Sumir ætla að Norðmenn (Bragi hinn gamli) hafi fundið háttinn af sínu eigin hyggjuviti. En freisting til að leggja niður gamalt og taka upp eitthvað nýtt er álíka sjaldgæft fyrirbrigði í skáldskaparíþróttinni og sex eða níuburar myndu fæddir af kvinnum eða eingetið fólk eins og Kristur. Þessi freisting hefur gripið Íslendinga tvisvar á þessari þúsund ára sögu skáldskaparíþróttarinnar: á siðaskiftatímunum þegar þeir sáluhjálpar vegna vildu reyna að leggja niður stuðla höfuðstafi og hendingar af því að slíkt skrúð var ekki samboðið hreinni Lútersku, og nú á tímum, þegar atómskáldin til að fylgjast með tímanum og T. S. Eliot yrkja annaðhvort í lausu máli til að losna við hringhenduna, eða yrkja myrkt og stundum stirt eins og Stephan G. gerði í Kringlunni forðum, til að jafnast á við T. S. Eliot og Ezra Pound. Með þessa sögulegu lærdóma í huga er engin furða þótt fræðimenn hafi löngum rennt hýru auga til írsks skáldskapar til að reyna að skýra fyrir sér upptök dróttkvæðanna. Írar höfðu það til siðs að telja samstöfur í kvæðum sínum alveg eins og gert er í dróttkvæða hættinum, en ekki í fornyrðislagi. Írar léku sér að hendingum og rími bæði inni í vísuorðum og í enda þeirra. Þaðan hafði Egill rímið í runhenduna og höfundur **Hafgerðingadrápu** hrynhenda háttinn sem var mikill sálmaháttur með Írum, alveg eins og Liljulag varð síðar á Íslandi. En hvernig sem leitað hefur verið hefur ekki tekist að finna írskan hátt sem samsvaraði dróttkvæðahætti. Hafi áhrif orðið er helzt svo að sjá að Bragi hafi heyrt

um skraut írsku háttanna, en Írar ortu skrautlega hvort sem þeir ortu á móðurmáli sínu eða Latínu, og farið að reyna að nota eitthvað af reglum þeirra. En jafnvel slíkt andlegt fóstur mundi álíka erfitt í burði og fimmburar nú, þar sem beina fyrirmynd vantar. En nóg um þetta. Aðeins má ekki gleyma því að dróttkvæði hátturinn varð háttur hirðskáldanna og svo mikils metinn fyrir skraut sitt, að nöfn þeirra sem ortu hann voru eins tryggilega geymd um aldur og æfi eins og nöfn konunganna sem þeir sungu lofið. Eddukvæði voru nafnlaus, en dróttkvæði ávallt nafngreind. Þegar rímurnar leystu dróttkvæðin af hólmi, þá voru að vísu nokkrar þeirra nafnlausar en langflestar nafngreindar.

Landnámsmenn Íslands höfðu út með sér til landsins eigi aðeins nýjan hugsunarhátt víkinga sem þeir ólust upp í sjálfir heldur líka fornfálegan ættarhugsunarhátt eða ættarsamheldni og loks hugsunarhátt snauðra manna í Noregi. Speki fátæklingsins er felld í stuðla **Hávamála**, eins og Akkilles í **Ódysseifskviðu** vill hann heldur vera á lífi en dauður og má af því ráða að ekki hafi hann búizt við miklu í öðru lífi:

Betra er lifðum
en sé ólifðum
ey getr kvikr kú.
Eld sá ek brenna
auðgum manni fyr
en úti var dauðr fyr durum.

Haltr ríðr hrossi
hjörð rekr handarvanr
daufr vegr ok dugir.
Blindr er betri
enn brendr sé
nýtr manngi nás.

Betlarar voru lítils virðir en bjargálnamenn mikils:

Ganga skal
skala gestr vera
ey í einum stað;
ljúfr verðr leiðr
ef lengi sitr
annars fletjum á.

Bú er betra
þótt lítit sé
halr er heima hverr;
þótt tvær geitr eigi
ok taugreptan sal
þat er þó betra en bæn.

Ghandi gat lifað á einni geit á Indlandi. Það hefði verið munur fyrir ameríska menn einstaklingsframtaksins að lifa eftir þessum fræðum, heldur enn eftir þeim kristnum fræðum sem þeir lengst af hafa verið að burðast við að játa sig undir. Fátækum landnámsmönnum hvar í heimi sem væri mundi engin kenning hollari en þessi kenning **Grógaldrs:** Sjálfr leið þú sjálfan þik.

Fyrsta boðorð samheldinnar ættar má lesa í **Sigrdrífumálum:**

Þat ræð ek þér et fyrsta
at þú við frændr þína
vammalaus verir;
síðr þú hefnir
þótt þeir sakar göri
þat kveða dauðum duga.

Hve stór frændgarðurinn var metinn að fornu má lesa í **Baugatali.** Þar skal greiða fjóra lögaura frændum ins vegna af frændum vegandans eftir vissum reglum: föður, syni og bróður, (en ekki móður!); föðurföður, sonarsyni, móðurföður og dóttursyni; föðurbróður, bróðursyni, móðurbróður og systursyni; og loks sonum föðurbræðra og föðursystra, móðurbræðra og móðursystra. Fleiri fá ekki lögbauga. En þar með er frændgarðurinn ekki allur talinn, því enn eru minni bætur greiddar fjarskyldari mönnum (ekki konum) allt í fimmta lið. Fyrsti lögbaugur var þriggja marka stór, annar tuttugu aurar, þriðji tvær merkur, fjórði tólf aurar. Maður fyrir utan frændgarð sinn er ekki margra fiska virði:

Hrörnar þöll
sú er stendr þorpi á
hlýrat henni börkr ne barr.
Sá er maðr
sá er manngi ann
hvat skal hann lengi lifa.

Gull og konur eru margfreistarar manna að rjúfa lög ættarinnar, frændgarðsins, bæði gull og konur geta gert menn að svikurum en svik eru glæpa verst. Svo segir í **Sigrdrífumálum:**

Þat ræð ek þér annat
at þú eið né sverir
nema hann sannr sé;
grimmar limar
ganga at tryggðrofi
armr er vára vargr.

Enn ættvíg gerast og griðrof í heimi goða eigi síður en með mönnum þeim sem hetjur teljast í hetjukvæðum. Eiðrof verða vegna gulls og kvenna eigi síður í **Völuspá** en í **Sigurðar-kviðu Fáfnisbana.** Þegar dregur að heimsslitum segir svo í **Völuspá:**

Bræðr munu berjask
ok at bönum verðask
munu systrungar
sifjum spilla;
hart er í heimi
hórdómr mikill
vindöld vargöld
áðr veröld steypisk.

En þegar jörð rís á ný úr ægi þá er hún byggð nýrri ætt goða: bræðurnir sem óviljandi höfðu orðisk at bönum, Baldr og Hörðr, fá nú að byggja saman Hropts (Óðins) sigtoptir á hinni nýju jörð. Andreas Heusler tók eftir því að íslenzkar bókmenntir að fornu voru allra bókmennta lausastar við klám, kannske enn siðavandari en Viktoríutímabilið brezka. En hvers vegna? Tæplega fyrir kristin áhrif, þess mundi ekki gæta í **Völuspá,** heldur hefur siðavendnin orðið til í hinum stranga skóla ættgarðsins. Auk þess voru störf manna svo hörð — eins og munkanna — að lítil freisting var að leika sér.

F l e s t i r landnámsmenn voru heiðnir og héldu heiðnum sið í rúma öld (874—1000) á Íslandi. Þeir heiðruðu og blótuðu allmörg goð og gyðjur, þar á meðal Frey, goð frjósemi og akuryrkju, Þórr vin bænda, sæfara og fiskimanna, og Óðinn, guð víkinga, skálda og galdra-

manna. Einhverra hluta vegna var gott að hafa Þór í mannanöfn, Frey sjaldan, en Óðinn aldrei. Eflaust hefur trúrækni þeirra daga verið komin undir persónulegu upplagi manna, þá sem nú, eru dæmi þess fyrstu landnemarnir, fóstbræðurnir Ingólfr og Hjörleifr. Ingólfr var blótmaðr en Hjörleifr ekki, „svo sé ek hverjum verða sem ekki vill blóta," kvað Ingólfr er hann fann Hjörleif veginn af írskum þrælum, Vestmönnum, er forðuðu sér út í Vestmannaeyjar þar til Ingólfr náði þeim og drap þá. Vera má að Óðinn hafi verið tignaður af ungum víkingum er treystu honum sem víðförulum og margreyndum víkingahöfðingja fremur en Þór, sem varla hafði hleypt heimdraganum í samanburði við hinn slægvitra og undirförula Óðinn. En sterkastur var Þórr að berja á jötnum og tröllum í Austurvegi og þegar Hvíti-Kristr fór að ganga upp á suðurhimni þá var Þórr aðalmótstöðumaður eða andskoti hans. Órói víkingaaldar hefur tæplega verið til þess fallinn að treysta gömul trúarbrögð eða traust á fornum goðum, enda fer nú að bera á mönnum sem trúa á sinn eigin mátt og megin. Ólíkt er að þessir menn hafi verið trúaðir á aðra en sjálfa sig. Þeir hafa haft kjörorðið: Sjálfur leið þú sjálfan þig, sem áður var nefnt. Þess er oft getið að menn kusu sér goð að fulltrúa eða vinum; gat þá oltið á ýmsu um vinskapinn eftir því hversu vel goðið reyndist. Á svipaðan hátt gátu heiðnir menn vingast við Hvíta-Krist sjálfan án þess að slíta vinfengi sínu við önnur goð, til að mynda Þór, en það er að segja á meðan umburðarlyndi heiðninnar einkenndi þá; en kristnir menn voru ekki lengi að uppræta umburðarlyndi úr heiðnum hjörtum: þá varð guð bara einn og hann Hvíti-Kristr eða sú heilaga Guðdómsins þrenning, en hvernig var sú eining sönn í þrennum greinum mun heldur hafa vafist fyrir norrænum mönnum að skýra: á Írlandi var sagt að hún væri eins og smárinn þrílaufa (en ef einhver hefði nú fundið fjögra laufa smára). Þá var mun skiljanlegri guðinn sem sólina hafði skapað, sem Þorkell máni trúði á, og auðskilið var að sá guð var máttugur, hvort sem það hefur verið hinn almáttki áss eða eigi.

Eitt virðist sæmilega skýrt um heimspeki víkinganna: trú á vissann guð var ekki rót framkvæmda í lífi þeirra eins og hún vissulega var í lífi kristinna manna á dögum Karlamagnúsar eða í Islam eftir daga Mahómets. En hvað rak þá víkingana fram til dáða? Hvað eftir annað má lesa að hið mjög ókristilega drif í lífi þeirra og breytni hafi verið „að afla sér fjár og frama." Þetta rennur sem rauður þráður gegn um allar gerðir þeirra og afrek. Á víkingaferð mátti vinna hvorttveggja: fé með sigri, frama með hreysti. Heima var og hægt að vinna frama með góðum gjöfum til frænda fylgdarmanna og vina, en sá frami kostaði fé. En hreysti og gjafmildi voru þannig höfuðkostir víkinga og hetja — án þeirra vannst enginn frami hversu mikið gull sem víkingur hafði safnað. Engin frægð var í því að liggja sem ormr á gulli. En á hinn bóginn var líf einskisvert nema maður gæti unnið sér frægð

með verkum sínum svo að frægðin lifði eftir mann dauðan í dómum þeirra manna sem varðveittu minninguna. Svo segir í **Hávamálum:**

Deyr fé
deyja frændr
deyr sjálfr et sama;
en orðstírr
deyr aldrigi
hveim er sér góðan of getr.

Og:

Deyr fé
deyja frændr
deyr sjálfr et sama;
en einn veit ek
at aldri deyr:
dómr um dauðan hvern.

Til þess að vinna orðstír og eignast dóm sem aldrei deyr verða menn að lifa lífi sínu með sóma og í frelsi, engum háður nema almenningsálitinu, en það gat verið nógu strangur dómari svo sem ráða má af orðum Njáls. Þegar Göngu-Hrólfur kom til Frakklands með víkinga sína var hann spurður: „Hver er konungur yðar?“ Hann svaraði: „Vér höfum engan konung, vér erum allir jafningjar.“ Lög sæmdarinnar kröfðust eigi aðeins gjafmildi við ætt, vini og gesti, heldur og sívakandi árvekni gegn hverskonar rangindum hvort sem þau komu fram við mann sjálfan ættingja eða vini. Ef slíks réttar var ekki rekið vofði yfir æfilöng skömm, en hinir gömlu sæmdarmenn vildu miklu heldur deyja en lifa við slíka skömm.

Með þessar hugsjónir og slíka heimspeki var lítil furða þótt Íslendingasögur væru fullar af vígaferlum og deilum milli þessara sómakæru manna. Vígaferlin voru heiðnum mönnum ill nauðsyn til þess að halda sæmd sinni; kristnir menn álitu þau syndsamleg. Á hinn bóginn þótti Íslendingum fátt skemmtilegra en að hlusta á sögur af vígaferlum og kristin fræði lítt söguleg svo ekki sé dýpra tekið í árinni: „Ekki er gaman að guðspjöllunum, enginn er í þeim bardaginn,“ sagði kerlingin.

Eflaust hafa höfðingjarnir er sóttu öryggi hafsins þess hins víða, hagalönd fiskiver og selver Íslands haft miklar vonir um það að geta notið höfðingdóms síns úti þar sem höfuð niðja sinna hleytimanna og þræla. Í fyrstu gátu þeir tekið mjög víðáttumikil lönd en sjálfir orðið hofgoðar með sæmilegu mannaforráði. Síðar gátu þeir miðlað niðjum, vinum og nauðhleytamönnum, jafnvel þrælunum sjálfum af löndum sínum, en þingmenn goðanna skulduðu þeim fylgd sína fyrir traust hans. Goðinn var venjulega af göfugum ættum, vald hans var kallað goðorð, menn hans þingmenn af því að þeir fylgdu honum til þinga bæði í héraði og til Alþingis. Hann byggði oft hof á bæ sínum en þingmennirnir guldu lítils háttar hoftoll, sem hvergi mun hafa nálgast kristna tíund.

Á Íslandi voru engir frumbyggjar að brjóta í ánauð eins og víkingar gerðu í Englandi og á Frakklandi, og goðinn gat ekki vænst þess að þingmenn hans gyldu honum skatta sem nokkru næmi því þeir höfðu flúið Noreg til að losna við skatta og álögur hins upprennandi konungs. Hofgoðinn varð því að láta sér nægja að verða **primus inter**

**pares**, fremstur meðal jafningja og og vinna öll verk sem til féllu á bæjum sínum ekki síður en aðrir. Í því voru kjör íslenzkra landnámsmanna lík kjörum landnámsmanna fyrir vestan haf og með svipuðum afleiðingum: bændur á Íslandi hafa aldrei þóttzt of góðir til að vinna. Metnaður hinna minni bænda mun hafa látið sitja við það að fá að búa á landi sínu í friði og hleypa upp niðjum þar sem útflutningurinn hafði skorið á ættarböndin í Noregi. Vera má og að þeir hafi vonað allheitt að þeir gætu endurfætt hið forna veldi ættarinnar, byggt sér nýjan frændagarð á Íslandi og ekki gleymdu lögsögumennirnir **Baugatali**, en það er talandi vottur um skipun ættarinnar, skyldur og réttindi, þegar höggvið var skarð í hana. Njáll og synir hans eru líka allgott dæmi þess að foreldrar og börn gátu eigi aðeins haldið saman, heldur jafnvel búið saman mann fram af manni. En yfirleitt mun námið hafa orðið til að tvístra ættum, sem saman bjuggu í Noregi, og liggur það í hlutarins eðli. Og í stað frændgarðsins sköpuðu landnámsmennirnir sér nýtt samfélagsform: hreppana. Þeir svara nokkurnveginn til amerískra "Tonwships," en í hreppunum áttu að vera tuttugu sjálfseignarbændur eða fleiri. Hrepparnir höfðu beitar og veiðiréttindi óskift í sameign; þeir veittu sjúkum og ómögum framfæri, og þeir vátryggðu bæi sína og gripi að vissu skynsamlegu marki. Svo er að sjá að það hafi er fram liðu stundir verið dýrara að búa á höfuðbólum með fjölda manna heldur en að gefa þrælum land og láta þá sjá fyrir sér sjálfa. Því munu fáir eða engir þrælar hafa haldist er kom fram á 12. öld. Þannig gátu jafnvel þrælarnir eignast tvær geitur ok taugreptan sal.

Eftir sextíu ára landnám fanst goðunum tími til kominn að setja landslög eða stjórnarskipun, sem héldi valdi þeirra í jafnvægi en eyddi lögleysum í landinu. Þrjátíu og sex goðorð voru löggilt en goðarnir áttu að hittast á sumri hverju á Þingvöllum og setja lög fyrir land allt en dæma þau mál er upp kynnu að koma. Þannig var Alþingi stofnað 930 sem fram til loka þjóðveldisins (1262—'4) var æðsti löggjafi landsins og hæstiréttur — en hafði ekkert framkvæmdavald. Í stað þess varð hver einstaklingur með stuðningi goða síns og hjálp vina og vandamanna að framkvæma dóma þá sem hann hafði dæmt sjálfur eða látið dæma á þinginu og halda svo uppi lögum landsins. Það var aðeins einn alríkis-embættismaður, lögsögumaðurinn, en hann átti að segja upp öll lögin á þrem þingum og skera úr því hvað lög væru, ef menn spurðu.

Alþingi var stofnað sem einskonar samband goða eða göfugra höfðingja á Íslandi. Sýnilega hafa þessir göfugu höfðingjar verið menningarberar á Íslandi. Þeir stunduðu ættfræði og fjölskyldu frásagnir og smásögur er gerzt höfðu í ættinni. Þeir hafa verið jafnhrifnir af hetjukvæðunum í Eddu og Ameríkanar voru af Biblíunni. Hofgoðarnir eða hofgyðjurnar hljóta að hafa kunnað goðakvæðin, þar sem þeirra verk var að skifta opinberlega við goðin. Öllum höfðingjum

þótti skáldalof gott, þótt skáldunum sjálfum þætti bezt að lofa konunga. En enginn einstakur atburður er líklegri til að hafa snúið landnámsmönnunum í skáld og minningafræðimenn en það að vera rifnir upp úr rótum gamla landsins og fluttir í rótleysi nýja landsins (Nordal).

Erfitt er að ofmeta löngun þá sem einbúarnir á bóndabæjunum höfðu í fréttir hvaðanæva: frá næsta bæ og úr víðri veröld. Gestir voru svo velkomnir að menn, eins og sagt er að líka hafi verið gert á Írlandi, byggðu hús sín um þjóðbraut þvera til að laða þá heim. En hvergi var auðveldara að slæva fréttahungrið og fylla sig nýjum tíðindum — frá frændum í fjarlægum héröðum, frá ættingjum erlendis og utan úr víðri veröld en á Alþingi. Þar breyttist hraunið og gjárnar í fjöruga tjaldborg ár hvert, tveggja vikna tíma um miðsumarsleytið. Þangað streymdi bezta fólkið hundruðum saman hvaðanæva af landinu, en goðin réðu þá sem nú veðrinu og fagurt var þar í góðu veðri. Hér var gnótt áheyrenda fyrir þá sem frá einhverju höfðu að segja hvort sem kveðin voru kvæði eða sagðar sögur. Hér höfðu fræðimenn tækifæri til að bera sig saman um fróðleik sinn. Eitt dæmi nægir: Hér hlustaði ungur sagnamaður á Halldór Snorrason segja Útferðarsögu Haralds Harðráða er gerðist í Miklagarði og Miðjarðarhafi, en Halldór sagði söguna á mörgum sumrum í senn. Síðan sagði ungi maðurinn Haraldi konungi sjálfum.

Afdrifamest af öllum gerðum Alþingis var viðtaka kristins dóms árið 1000. Flokkadrættir höfðu gerzt um það mál á Alþingi svo að við lá að allur þingheimur berðist. Kaus hvor flokkur sinn lögsögumann og heituðust menn við að segjast úr lögum hvorir við aðra (eins og Suðurmenn gerðu Norðurmönnum í Vesturheimi). Þorgeir ljósvetningagoði var þá lögsögumaður, en kristnir menn kusu Hall á Síðu. Hann lagði málið á vald Þorgeirs, sem þá var enn heiðinn, með því móti að allir skyldu hafa ein lög í landinu. Þorgeir gaf sér góðan tíma að hugsa málið. Þá hélt hann ræðu sem enn myndi geta sætt Austur og Vestur, ef ráðamenn þeirra létu sér hana að kenningu verða. En máli sínu lauk hann með því að allir menn skyldu kristnir vera og skírn taka þeir er áður voru óskírðir á landi hér. En um barna útburð skyldu standa en fornu lög og um hrossakjötsát: skyldu menn blóta á laun, ef vildu, en varða fjörgarðr ef vottum of kvæmi við. En síðar fám vetrum var sú heiðni af numin sem önnur — því miður um hrossakjötsátið því enginn vafi er á því að fólkinu hefur yfirleitt liðið verr af því að það fékk ekki að njóta þessarar hollu og góðu fæðu sem venjulega var nóg af á Íslandi, en vitanlega gripu menn til hrossakjöts í hallærum og svo rammt kvað að þessum fordómi kirkjunnar að enn mun flestum Íslendingum þykja illt hrossakjöt.

Með kristninni var dauðadómur kveðinn upp yfir hinum heiðna sið og því sem honum fylgdi: sjálfstæði og einstaklingshyggja með hefndum fyrir skertan sóma svo sem þessu lífi var lifað á íslenzkri söguöld.

Samt sem áður hefðu minningarnar um þetta sögulega hetjulíf aldrei verið færðar í letur ef kirkjan hefði ekki kennt höfðingjunum latínu og leturgerð og ef þeir hefðu ekki sjálfir gerst því nær einráðir höfðingjar kirkjunnar um tvær aldir eða fram um 1200. Kristniboðarnir lofuðu hverjum goða rúm fyrir jafnmarga menn í himnaríki og þeir gætu hýst í kirkju sinni. Þetta var gott loforð og reyndu margir goðar að ávinna sér þessa verðskuldan, en margir snöru hofi sínu eins og það var í kirkju Krists. Til þess að fá presta til kirkjunnar létu margir goðar syni sína læra til prests; þá gekk kirkjan í ættina eins og hofið hafði gengið í ættinni. Ísleifur biskup og Gissur sonur hans lærðu marga höfðingjasyni á sinni tíð, en væri umkomulítill sveinn barinn til bókar, þá gat hann átt það á hættu að hafa heldur lítil umráð yfir kirkju þeirri er hann var skipaður til og enn síður rétt til að fara frá henni. Gissur innleiddi jafnvel tíundagreiðslu skömmu fyrir aldamótin 1100 og á 12. öld risu fyrstu klaustur á Íslandi. En höfðingjarnir, goðarnir, héldu áfram að ráða lögum og lofum kirkjunnar; því var það að þegar þeir fóru að rita bækur á 12. öld — en allir sagnaritarar á 12. öld virðast hafa verið klerkar — þá sýnir það sig að þeir hafa eins mikinn áhuga á þjóðlegum fróðleik svo sem ættartölum forfeðra sinna og sögnum um þá eins og á hómilíum og ritningum helgum. Þeir höfðu með öðrum orðum engu gleymt af hinum forna sið þrátt fyrir viðtöku hins nýja, sem betur fór. Já, sem betur fór því annars hefðu engar Eddur og engar Íslendingasögur verið færðar í letur. Það var þessi herzlumunur í kenningum og völdum kirkjunnar sem gerðu það að við fengum Snorra á íslenzku en Danir Saxo á latínu, en þessir tveir miklu lærdómsmenn voru samtímamenn. Saxo sýnir að Danmörk hefur morað af hetjukvæðum en þeirra sést nú hvergi stafur, nema í skrúfuðum þýðingum Saxos: hann hélt að öllu væri borgið þegar hann var búinn að þýða kvæðin á latínu, en klerkarnir hafa flýtt sér að kola þessum leifum heiðindómsins.

Fyrir utan lögin, sem fyrst voru rituð til að létta á minni lögsögumannanna, má segja að ritöld hefjist á Íslandi með ritum þeirra Sæmundar fróða og Ara fróða, sem báðir voru höfðingjaklerkar. Sæmundur ritaði **Noregskonungatal** á latínu en Ari fróði **Íslendingabók** og **Landnámabók**, báðar á íslenzku. Á þessum árum var það mikill siður að rita konunga kroníkur í vestrænni kristni á latínu. Sæmundur lærður í Frakklandi (Svartaskóla) hefur eflaust vitað um þessa sagnaritun, því var eðlilegt fyrir hann að byrja Noregskonungatal á latínu og þeirri línu var haldið áfram af Þjóðreki munk í Noregi og Saxo Grammaticus í Danmörku. Sagnarit höfðu verið ritin á Englandi á móðurmáli (fram undir 1150) en því var þá hætt: allir upprennandi menn skrifuðu á latínu.

Ari ritaði líka einhverskonar konungaævi, og eftir hans daga komst skriður á sagnaritun konungasagna á íslenzku með **Hryggjarstykki** Eiríks Oddssonar og **Sverris**

**sögu** Karls ábóta á Þingeyraklaustri. Klaustramenn rituðu líka á 12. öld helgisögur trúboðakonunganna tveggja: **Ólafs sögu Tryggvasonar** og **Ólafs sögu helga**, þeir höfðu fyrirmyndir í heilagra manna sögum kirkjunnar. En mikill leikmannabragur var þegar á **Hryggjarstykki** og **Sverris sögu**.

En þess voru engin dæmi erlendis að rita bækur um ótínda sveitamenn eins og Ari gerði í **Landnámu** sinni, nema þeir væri skráðir til skatts eins og Vilhjálmur bastarður lét gera í **Dómsdagsbók** sinni, sem fáir elskuðu. En Ari skráði öll landnámin, nöfn landnámsmanna, ætt þeirra og niðja og eins margt af sögum um þá sem hann gat við komið. Má segja að í **Landnámu** séu margar Íslendingasögurnar í hnotskurn, enda hefur **Landnáma** oftast verið heimild þeirra manna er á 13. öld fóru að skrásetja Íslendingasögurnar, en með þeim náði íslenzk sagnaritun mestum blóma. Þarf ekki annað en nefna sögur eins og **Eglu**, **Laxdælu**, **Eyrbyggju**, **Njálu** og **Grettlu** til að bregða upp mynd af þessum merkilegu bókmenntum; því merkilegasta sem Íslendingar hafa skapað, með undirbúningi og áhrifum úr ýmsum áttum, en fullkomlega íslenzk framleiðsla. Þótt merkilegt sé, þá er um Íslendingasögur sem Eddu kvæði að þær geta aldrei höfundar. Mikil rök hafa verið færð til þess að Snorri Sturluson hafi ritað **Egils sögu**, Sturla Þórðarson eldri gerð af **Grettis sögu**, og Þorvarður Þórarinsson á Valþjófsstað **Njáls sögu** (Barði Guðmundsson). Þetta eru allt veraldlegir höfðingjar en ekki klerkar á 13. öld, og líklegt er að Íslendingasögurnar séu yfirleitt verk veraldlegra höfðingja en hvorki presta né munka. Á 13. öld fór kirkjan að gerast kröfuharðari við leikmenn á marga lund, kirkjustaðirnir voru heimtaðir af gömlu höfðingjaklerkunum, höfðingjar og goðorðsmenn fengu nú ekki lengur að verða prestar, ókvæni var heimtað og á seinni hluta aldar voru biskupar flestir orðnir norskir. Sumir þessara klerka skrifa heilagra manna sögur og biskupasögur, en enginn að því er virðist neitt annað. En höfðingjar eru veraldlegir sagnaritarar á 13. öld og er ljósast dæmi Snorra með **Heimskringlu** og Sturlu Þórðarsonar með **Sturlungu (Íslendinga sögu)**, en Nordal hefur talið **Egils sögu** verk Snorra en **Grettis sögu** að einhverju leyti eftir Sturlu.

Íslendingasögur voru ritaðar frá ókristlegu sjónarmiði hetjusagna, sjónarmiði goðanna og höfðingjanna, en þó höfðingja sem voru ekki svo ýkjahátt yfir fjöldann hafnir fyrr en helzt á Sturlungaöld, því þrjár aldir höfðu þokað þrælunum upp úr sinni stétt í stöðu leysingja og leiguliða. Menn skömmuðust sín hvorki skúa né bróka, því síður verkanna sem voru uppihald allra. Andreas Heusler kallaði þetta þjóðfélag aristo-demokratiskt, höfðinglegt lýðræði. William Morris, einn af fyrstu mönnum jafnaðarstefnunnar á Englandi var mjög hrifinn af þjóðfélagi Íslendinga og Íslendingasögum, enda þýddi hann margar þeirra í félagi við Eirík Magnússon, bókavörð í Cambridge. Honum fannst íslenzka þjóðfélagið eitthvað annað og betra en stétta

ójöfnuðurinn í því Englandi, sem hann var alinn upp í og þurfti að ala aldur sinn í. Hann lifði það ekki að sjá jafnaðarmenn komast til valda á 20. öldinni.

En merkasta einkenni þessara alþýðlegu og höfðinglegu bókmennta var raunsæi þeirra í heimi, sem eins og Laxness hefur sagt, því aðeins virti hlutina að þeir væru tákn fyrir eitthvað annað en þeir voru sjálfir, hinum vestræna kristna heimi, heimi táknmáls og táknvísi, symbólisma og allegoríu. Íslenzkar bókmenntir voru eins og falinn runni sem enginn vissi af og enginn tók eftir fyrr en menn hugsæisstefnunnar í Evrópu snemma á 19. öld og menn raunsæisstefnunnar seint á öldinni. Hvorirtveggja skildu að hér var eitthvað nýtt á ferðum þótt hvorir litu sínum augum á silfrið. Og nú um miðja 20. öld hefur skáldið enska W. H. Auden farið þessum orðum um íslenzka sagnastílinn í umsögn um hina nýju útgáfu **Njáls sögu** í enskri þýðingu hjá American Scandinavian Foundation. Ritdómurinn er í **New Statesman and Nation** 3. nóv. 1955. Hér er útdráttur úr honum:

„Ef hugtakið „Sósialrealismi“ (sem Rússar hafa mikið notað eftir byltinguna) væri hreinsað af öllum ádeilukeim, gæti verið gagnlegt að nota það við skilgreiningu á sérstakri tegund bókmennta. Ef rithöfundur væri kallaður sósíalrealisti, mundi það þýða það, að hvort sem hann fengist við sannsögulegt efni eða tilbúið, takmarkaði hann af ásettu ráði mannlýsingar sínar við þau horf mannlegs eðlis, er einstaklingarnir birta hver öðrum með athöfnum sínum, orðum og svipbrigðum. Auðvitað er langt frá því að mannlegt eðli sé allt þar sem það er þannig séð. Það er margt sem maðurinn kærir sig ekki um eða megnar ekki að láta í ljós við aðra, þó að aðrir geti út frá sjálfsreynslu gert sér sumt í hugarlund, en öllu þessu sneiðir sósialrealistinn hjá af ásettu ráði.

Þá heldur hann og sjálfum sér af ráðnum huga utan við frásögnina eins og kostur er á. Hann kann að hafa eða halda að hann hafi gleggri skilning á því, sem persónur hans aðhafast, heldur en þær sjálfar, t. d. kann hann að líta á þær sem óvitandi verkfræði guðlegrar forsjónar eða framvindu sögunnar, en sé hann slíkrar skoðunar, þegir hann um það. Í frásögn hans er orsök, hvöt, afleiðing það sem persónur hans halda að það sé. Eins kann siðferðismat hans að vera mjög frábrugðið siðferðismati þess samfélags sem hann lýsir, en allir beinir siðferðilegir dómar, sem hann setur fram eru dómar persóna hans hverrar um aðra.

Ópersónulegur frásagnarháttur samfara útilokun allra huglægra þátta draums og hugarflugs gefur öllum sósíalrealistiskum verkum visst sameiginlegt bókmenntagildi. Í þeim öllum helzt breytileiki persónanna innan takmarka hins mannlega og er í því samræmi við það þjóðfélag sem persónurnar lifa í: þeir beztu eru ekki hálfguðir og þeir verstu ekki djöflar. Í öðru lagi eru einstaklingarnir sýndir í félagslegu umhverfi sínu, sem hefur áhrif á gerð þeirra án þess að ráða yfir þeim í einu og öllu: konungar þekkj-

ast alltaf frá bændum, en kóngar eru ekki allir göfuglyndir, né allir bændur skopleg fífl. Loks fer málfar persónanna frá því hátíðlegasta til hins hversdaglegasta aldrei út fyrir mörk þess sem er trúleg ræða. Af þessu leiðir, að þó að hægt sé að rita sósíalrealistisk verk í bundnu máli, það er að segja ef skáldið notar blandaðan stíl eða millistíl, þá er óbundið mál hinn eðlilegi og rétti miðill, meira að segja þess konar óbundið mál sem er eins laust og verða má við öll stirðnuð mælskuform og líkingaskrúð. Sósíalrealismi er auðvitað ekki eina eða undir öllum kringumstæðum bezta tegund bókmennta. Þó virðist hún ef til vill hafa þróast síðast og kannske vera að vissu leyti þroskuðust.

Íslendingasögur eru meðal sérkennilegustu fyrirbæra menningarsögunnar, ekki vegna þess hve góðar þær séu heldur vegna þess hvers konar gæði þær hafa til að bera. Ef Íslendingar miðaldanna hefðu haldið áfram að yrkja söguljóð eins og Orrustuna við Maldon eða snúið sér að því að yrkja danskvæði, kann að vera að við hefðum dáðst alveg eins mikið að þeim, en við hefðum ekki verið eins undrandi. En það sem þeir gerðu í raun og veru var að skapa þjóðfélagslegar raunsæisbókmenntir mörgum öldum áður en gerð var svo mikið sem tilraun til slíks í nokkru landi öðru í Evrópu, bókmenntir, sem innan sinna þröngu takmarka eru slíkar að gæðum, að aldrei hefur verið betur gert.

Ef því er ekki haldið fram að Íslendingar hafi að óbreyttum aðstæðum þeirra hlotið að rita eins og þeir gerðu er nokkur skynsemi í að íhuga að hvaða leyti líf þeirra var frábrugðið lífi samtíðarmanna þeirra annarsstaðar í Evrópu. Meirihluti landnámsmanna var göfugrar ættar og hafði flutst frá Skandinavíu af því þeir kærðu sig hvorki um að vera undir stjórn né stjórna sjálfir, heldur vildu vera óháðir. Þeir höfðu tekið að erfðum víkingaaldarsiðgæði stéttar sinnar, en það var ekki lengur í verkahring þeirra að berjast og leggja undir sig þjóðir. Fyrir kom að þeir fóru í víking, en slíkir leiðangrar voru hlé á daglegum störfum þeirra við landbúnað og fiskiveiðar. Sumir áttu kannske betri og stærri jarðir en aðrir, en stórjarðaeigendur voru engir á lénsmannavísu og með einkaherjum. Það er getið um þræla en ekki um iðjulausa stétt, er teldi vinnu ósamboðna virðing sinni. Þar eð þeir bjuggu á lítilli eyju ekki ýkja frjósamri, fjarri höfuðstöðvum stjórnmálastarfsemi trúarbragða og lærdómsiðkana, hlutu áhugaefni þeirra að bera blæ einangrunar og fásinnis. Allir voru meira og minna kunnugir öllum og heimsviðburðirnir vöktu minni eftirtekt en athafnir nágrannanna.“

Margt fleira segir Auden skynsamlegt og skarplega athugað um Íslendingasögurnar og Njálu, en hér skal látið staðar numið. Þýðingin er eftir G. Á. í **Tímariti máls og menningar** í desember 1956 og má vísa Íslendingum þangað en enskumælandi mönnum í frumgreinina.

# Blómidon höfðinn

**(Eftir Watson Kirkconnell)**

Við þessa strönd, er Ægis flóð og fjara
fram og til baka streyma ár og síð,
frán augu höfðans út á sæinn stara
sem áður fyr, á löngu gleymdri tíð.

Er vetrarmjöllin höfðans ásýnd hylur:
er hiti sólar kyndir eld og bál,
hann hræðist ei; né Hvítasunnu bylur
frá Heljar slóð, ei ógnað fær hans sál.

Sá ævaklettur engan hræðist voða.
Hans ásýnd jafnvel tíminn fær ei breytt.
Um eilífð sér hann yfir brim og boða,
með bros á vör, þótt mæli ekki neitt.

Frá tímans djúpi sagan greint ei getur,
né glöggvað hann, í orði þess er skóp.
Hans ásýnd stafar Indíána letur
og afturgöngur Víkinganna í hóp.

Glúskápur Míkmáks málum stýrir feðra,
þar mænir wigwamtjaldsins græna lín.
En hafið siglir píslarvottur veðra,
hin væna mær, að nafni Evangelín.

Þar Hinrik Allín augum rennir glaður
á aldið fjall, með kristals herðaslag.
Og Isak Chipman, frábær fræðimaður,
þar fórst með skipshöfn nemenda einn dag.

Frá vinnustofu minni, gegn um gluggann
eg greini hans morgunkveðju, er sólin skín:
á kvöldin gegn um skímuna og skuggann,
og skinið stjarna, unz hann hverfur sýn.

Eg harma það, að kynslóðirnar hverfa,
á hraðri leið, sem fjara í hafsins þró:
en hatursglóð, sem allar þjóðir erfa,
fer einnig þeirra leið, í grænan sjó.

En forsjónin býður oss að lifa og læra
og lítur samúðg gjörvöll örlög manns.
Því hafa jólin fögnuð þann að færa,
að framhaldslíf er eign og réttur hans.

**S. E. Björnsson**

SNÆBJÖRN JÓNSSON:

# Íslenzk ljóð í enskum þýðingum

Frá öndverðu hefir ljóðagerð verið höfuðíþrótt íslenzkrar þjóðar. Því er það, að eigi að mæla hæð þjóðarinnar eftir sömu reglu og fjallið, sem mælt er upp á efsta tindinn, verður að mæla hana eftir afrekum hennar á þessu sviði.

Nú á dögum vill hver þjóð láta nokkuð á sjer bera á alþjóðlegum vettvangi. Svo lengi sem ekki verður úr þessu oflæti, er það heilbrigður metnaður og enda nauðsynlegur, slík sem samkeppnin er nú orðin þjóða á milli. Því skyldi sízt af öllu kefja þá viðleitni, sem miðar að því, að sýna hvers við erum megnugir og í hverju við helzt getum haldið til jafns við aðrar þjóðir. Þar í líka felst brýning til okkar sjálfra, og hennar verður ætíð þörf.

Segja má að enn sem komið er, sjeu bókmenntir á okkar eigin tungu lokaðar öðrum þjóðum, sökum þess hve tiltölulega fáir menn erlendir eru læsir á íslenzku, a. m. k. nútíðarmálið. Þetta er að nokkru leyti okkur sjálfum að kenna, okkar **insularity**, eða búraskap. Við höfum fjarska lítið, ótrúlega lítið, til þess gert að vekja athygli eða glæða áhuga á tungu okkar erlendis, og alt þar til nú á allra-síðustu árum á engan hátt veitt þeim erlendum mönnum stuðning, er kynnu að hafa viljað nema íslenzku. Alt til ársins 1927 undum við því vel, að ekki væri til á neinu erlendu máli kenslubók í íslenzku nútíðarmáli, og þegar hún þá loksins kom, var það stuðningslaust og þakkarlaust af hálfu íslenzkra stjórnarvalda og mentastofnana. Og enn í dag höfum við ekki svo mikið sem haft það á orði að koma út íslenzkri orðabók er almennt gæti komið erlendu námsfólki að gagni. En sú orðabók yrði að þýða annaðhvort á ensku eða frönsku. Orðabækur þeirra Geirs Zoega og G. Boots eru að vonum allsendis ófullnægjandi til þessara nota; þær eru aðeins fyrir íslenzkt skólafólk.

Ekkert mun heldur gert af okkar hálfu til þess að efla íslenzkan bókakost við þær tiltölulega fáu mentastofnanir erlendar sem veita tilsögn í íslenzku. Þó er þetta höfuðnauðsyn, því ekki hafa þær stofnanir fje til þess að kaupa íslenzkar bækur að neinu ráði. Því fje, sem þær hafa til bókakaupa, verða þær að verja til þess að afla bóka í mikilvægari greinum en íslenzku. Íslenzkir forleggjarar hafa að vísu margsinnis sýnt lofsverða rausn þegar ein og ein stofnun hefir leitað til þeirra. En þó að það væri (eða svo segja prestarnir) á sínum tíma gott að einn dæi fyrir alla, þá mælir þó engin sanngirni með því, að þessi eina stjett (sjersköttuð um fram allar aðrar) beri ein þá byrði, sem þjóðin öll ætti að bera. Hjer eru að vísu þau fjelög sem (að eigin sögn) telja það hlutverk sitt að efla menningartengsl milli Íslands ann-

ars vegar en Danmerkur, Englands, Frakklands, Noregs og Þýzkalands hins vegar. En eftir því sem jeg frekast veit, láta þau ekkert til sín taka um öflun íslenzkra bóka til þess að senda mentastofnunum í þessum löndum; og ekki veit jeg með hverju móti þau yrkja akurinn þar, en helzt alls engu, að því er jeg ætla.

En næst því, að efla íslenzkunám erlendis, er hitt, að kynna bókmentir okkar á erlendum tungum, og þá vitanlega fyrst þá grein þeirra, er fremst hefir staðið og í eðli sínu er líka æðst, þ. e. a. s. ljóðin. Og þetta er það, sem jeg vildi minna á með greinarkorni þessu.

Að sjálfsögðu ber þá að leggja megináherzlu á að gera þetta á ensku, því að á henni er unt að ná til svo miklu fleiri lesenda en á nokkurri annari tungu. Auk þess getum við þetta fremur á ensku en nokkru máli öðru. Þar um veldur einkum það mikla og merkilega starf, sem fólk af íslenzku bergi brotið hefir unnið með þýðingum íslenzkra ljóða á enska tungu.

Þrjú ljóðasöfn, sýnisbækur, algerlega helguð þessu hlutverki, er mjer kunnugt um að út hafi komið, og hið fjórða sem er að miklu leyti þýðingar íslenzkra kvæða.

Tvær þessara sýnisbóka komu út árið 1930. Önnur þeirra er safn það, **Icelandic Lyrics,** er Dr. Richard Beck tók saman. Þar var prentað bæði frumtextar og þýðingar, en fyrir það varð bókin vitaskuld miklu dýrari, og var þó lítið unnið við að prenta íslenzku textana. Mátti vel nægja að tilgreina upphaf hvers kvæðis á frummálinu, en að gera svo, er mjög æskilegt. Á bókinni er það ennfremur ókostur að sumar eru þýðingarnar fjarska ljelegar, þó að aðrar sjeu góðar. Hún var prentuð hjer heima og til hennar var óvenjulega vel vandað af hálfu forleggjarans. Og það er sannarlega ekki lítils virði um bók sem á að vera fulltrúi íslenzkra bókmenta úti um heiminn. En margfalt betri sýnisbók en þessa mundi Dr. Beck gera núna.

Hina bókina, **Icelandic Verse,** sendi prófessor Watson Kirkconnell frá sjer sama árið. Einar H. Kvaran sagði að hún væri ósambærilega miklu betri, og það var sannmæli, enda var hún, eftir atvikum, frábært afreksverk, og Kirkconnell efalítið eini maðurinn í veröldinni, er við sömu aðstöðu og á aðeins örfáum mánuðum gat gert hana. Hann gaf hana út á eigin kostnað og fjekk vitanlega aldrei nema örlítið brot af útlögðum kostnaði endurgoldinn — að ekki sje minst á þá vinnu sem hann lagði í hana. Ef Háskóli Íslands hefði þá verið lifandi og vakandi, mundi hann tafarlaust hafa sæmt Watson Kirkconnell doktorsnafnbót, og ef ríkisstjórn Íslands hefði verið skipuð mentuðum mönnum, mundi hún hafa heiðrað hann með Fálkaorðunni, og líka boðið honum heim. En vitaskuld gerðist þá ekkert af þessu þrennu — og hefir enn ekki gerzt.

Síðan 1930 veit Watson Kirkconnell hvað það er að vinna fyrir sæmd Íslands. Hann hefir unnið svipuð afrek, og þó smærri, fyrir aðrar þjóðir, t. d. Ungverjar og Pólverja. En þær þjóðir hafa haft annan hátt en við á laununum.

Um bók þessa er til einskis að ræða frekara, því hún er löngu ófáanleg, enda mun upplagið hafa verið fjarska lítið og mestur hluti þess gefinn, en ekki seldur.

Þriðja safnið hefi jeg aldrei sjeð og kom það þó út 1955. Mjer vitanlega hefir það aldrei sjest í nokkurri íslenzkri bókaverzlun. Það nefnist **The Harp of the North**, safn kvæða eftir Einar Benediktsson, en prófessor Frederic T. Wood þýddi. Um bókina var greinargóður og skarplegur ritdómur í **Scandinavian Studies** 1957, eftir próf. Loft L. Bjarnason. Eftir honum virðist sem hún sje stórmerk, og hefir þó þýðarinn valið sjer ærið erfitt hlutverk. Væri þess mjög að óska að hann vildi halda áfram þessu starfi sínu.

Fjórða bókin er svo safn Páls Bjarnasonar, **Odes and Echoes**. Meiri og merkasti hluti hennar er þýðingar úr íslenzku. Hún hefði getað orðið hin gagnlegasta ef betur hefði tekizt um útgáfuna, en þar hafa fjallað um þeir menn, er ekki kunnu til bókagerðar og höfðu auk þess máske ekki þau letur, sem nauðsynleg voru. Hefir margt orðið öðruvísi en skyldi. Heiti bókarinnar er mjög óheppilegt, gefur enga bendingu um skyldleika við Ísland, prentið er leiðinlega fráhrindandi, alt með jafnstóru letri, og ekkert greint frá höfundum kvæðanna, að maður nú ekki tali um að þar sje nein leiðbeinandi ritgerð um íslenzkan skáldskap alment, sem þó hefði ekki verið alveg út í bláinn. Alt eru þetta raunaleg mistök og hafa orðið höfundinum fjárhagslega dýr. Átti hann þó betra skilið fyrir starf sitt og fyrir það framtak að koma þýðingunum út á eigin kostnað. Guð gaf þarna vængina, og þá var ilt að binda við þá blý.

Hjer á Íslandi var um eitt skeið einhver orðasveimur um að ljóðaþýðingar Jakobínu Johnson mundu verða gefnar út í sjerstakri bók vestan hafs. Þetta þóttu að vonum góð tíðindi, en nú um langt skeið hefir ekkert um þetta heyrzt, og því ástæða til að ætla að orðrómurinn hafi verið gripinn úr lausu lofti. Er þá spurningin, sú, hvort ekki megi endurvekja hugmyndina og reyna að gera hana að veruleika. Sje enginn möguleiki að koma kverinu út vestan hafs — það yrði að vera vel og fallega út gefið og viðunandi greinargerð að fylgja þýðingunum — mætti leita fyrir sjer um íslenzkan forleggjara. En hjer er vitanlega að öðru leyti ekki unt að fara út í framkvæmdaratriði. Þýðingar Jakobínu eru gerðar af svo mikilli prýði að þær ættu þetta skilið. Jeg hefi enga sjeð sem ekki væri góð, og á sumum þeirra er ómenguð snild.

Alls og alls hefir mikið birzt af þýðingum íslenzkra ljóða í Vesturheimi, vitaskuld miklu meira en jeg hefi augum litið, og efalaust er nokkuð (máske mikið) til óprentað í eigu einstakra manna. Þannig er harla ósennilegt að Skúli Johnson hafi ekki látið eitthvað eftir sig í handriti. Þær þýðingar, sem jeg hefi sjeð á prenti, eru náttúrlega misjafnar að gæðum, lítill fengur í sumum þeirra, aðrar ágætar. Af góðum þýðingum hlýtur að vera til meir en nóg til þess að fylla slíka bók sem hjer yrði um að ræða. Sýnisbók yrði að vera af hæfilegri stærð, ekki kver, en ekki heldur

stór bók, því þá yrði hún of dýr.

Sum kvæði hafa verið margþýdd, og þá oftar en einu sinni ágætlega. Í slíkum tilfellum gæti verið æskilegt að birta fleiri þýðingar en eina. Þannig er í nýkomnu hefti af **The Icelandic Canadian** prýðileg þýðing á „Dettifossi" Kristjáns Jónssonar, eftir T. A. Anderson, sem ekki hefir þótt ómaksins vert að segja nein deili á, máske fyrir að hann sje svo kunnur. En fyrir löngu, sennilega um það bil þrjátíu árum, las jeg í annaðhvort **Heimskringlu** eða **Lögbergi** þýðingu á þessu sama kvæði, eftir einhvern Christopher Johnson, að mig minnir, og ef jeg man rjett var hún líka góð. Af öðru kvæði Kristjáns, „Tárinu," hefi jeg sjeð tvær snildarlegar þýðingar. Ætla jeg að þýðing Runólfs Fjeldsteðs birtist á sínum tíma í **American-Scandinavian Review.** Jeg nefni þetta sem dæmi.

Ef efna ætti til sýnisbókar og nota þær þýðingar, sem þegar eru til, yrði það fyrsta skrefið að finna þær sem flestar, prentaðar og óprentaðar, til þess að fá glögt yfirlit áður en farið væri að velja. Þessi söfnun og skráning **yrði** að fara fram vestan hafs, því jafnvel hinar prentuðu þýðingar mundi lítt hugsanlegt að finna hjer allar; þær eru efalítið sumar í blöðum og tímaritum, sem Landsbókasafnið á ekki. En samvinnu væri þó nauðsynlegt að hafa við Landsbókasafnið. Jeg held að landsbókavörður hafi einhverntíma sagt mjer að þar mundu einhverjar óprentaðar þýðingar eftir Eirík Magnússon og Sveinbjörn Sveinbjörnsson. Og þó að þýðingar Sveinbjarnar hafi efalaust verið gerðar vegna söngs, þá er það síður en svo að þær ættu fyrir það að vera rækar. Eitthvað kynni þar líka að finnast í handritum komnum frá síra Rögnvaldi Pjeturssyni.

Skrá sú, er gerð yrði yfir þýðingarnar, þyrfti að vera mjög greinargóð; helzt að sýna hvort tiltekin þýðing gæti komið til álita við endanlegt val eða ekki.

Jeg ber það traust til landa vestan hafs að þeir mundu margir fúsir að leggja lið við söfnunarstarfið, þó ekki væri í sumum tilfellum nema rjett að benda á þýðingu sem þeir kynnu að muna eftir á tilteknum stað, eða vita um í handriti. Annars færi leitin að sjálfsögðu aðallega fram á íslenzka bókasafninu, eða á öðrum þeim söfnum, sem um kann að vera að ræða. Og margur gæti ljett undir með því að fletta blöðum; það er ósköp einfalt verk, en tekur sinn tíma og krefst gaumgæfni.

Forgöngumaður í þessu verki gæti jeg ósköp vel hugsað mjer að yrði prófessorinn í íslenzku við háskólann í Winnipeg, og líklega ætti hann sömuleiðis hægast um vik að safna úr blöðum og tímaritum. En ekki er það mitt að segja fyrir verkum. Augljóst mál er það, að hentugast mundi að bókin yrði búin undir prentun vestra, hvar svo sem hún yrði gefin út. En það tel jeg æskilegast að yrði annaðhvort í Bandaríkjunum eða á Englandi, og vitanlega yrði forleggjarinn að vera kunnur og vel metinn. En líka mætti vel hugsa sjer hana gefna út hjer í Reykjavík. Væri útgáfan hið sæmilegasta hlutverk fyrir bókadeild Menningarsjóðs, sem vonandi fer

nú að hugsa meir til landvinninga erlendis fyrir bókmentir okkar, en hjer hefir enn verið gert. Mundi þá samið við valda forleggjara á Englandi og í Ameríku um dreifingu bókarinnar erlendis. Engin hætta er á því, að ekki mætti fá stöðuga sölu á henni ef rjett er á haldið og bókin svo úr garði gerð sem vera ber. Á góðan frágang yrði í hverju atriði að leggja áherzlu — eins og líka þörf er á að fara að leggja meiri áherzlu á fagra og vandaða útgerð íslenzkra bóka en alment hefir verið gert hingað til.

Það er ætlun mín, eða öllu heldur sannfæring, að slík sýnisbók íslenzkra ljóða í enskum þýðingum verði fyr eða síðar gefin út; og jeg vildi óska að það yrði heldur fyr en síðar. Því hefi jeg hjer vakið máls á þessari hugmynd, ef vera kynni að þar með yrði ýtt undir framkvæmdir.

---

# Ég horfi lengi . . .

Ég horfi lengi' á himintunglin
um heiða nótt — við gluggann minn.
Ég tilbið hljótt þá tign sem birtist
og tilverunnar hjartslátt finn.
Því alheimur guðs er mitt ættarland —
en ódauðleg fegurð þess segulband.

Ég kvíði leynt að kveðja vini
og kærar stöðvar þessa heims. —
En heimþrá örvar himindjúpið
með hátign ljóss og stjörnugeims.
Það Kyrrahaf alheimsins umlykur mig —
og andlegra dreymir mig tilverustig.

**Jakobína Johnson,** 1958

# Barið að dyrum

**Ævintýri eftir L. F.**

Hinn ungi vísindamaður sat við útvarpið, hnugginn og spyrjandi, en þó ekki alveg vonlaus um, að sér mætti takast að kryfja til hlítar þessa ráðgátu, sem að honum sótti.

Síðan hann tók að fást við stuttbylgjuútvarp, svona í frístundum sínum, hafði hann orðið var við ýmsa fyrirburði, sem voru ofar skilningi hans, og sem ollu honum hugarangurs. Hann hafði smíðað þetta tæki sitt að miklu leyti sjálfur, og komið fyrir í því nokkrum afbrigðum eftir eigin hugmyndum, og í gegnum það talaði hann oft við aðra samskonar tilraunamenn víðsvegar um heim. Þessir menn eru kallaðir á ensku máli **radio-hams**, og hafa leyfi fyrir vissum stuttbylgju lengdum, sem ekki ríða í bága við almenna útvarpsstarfsemi. Hann „snakkaði“ að jafnaði við málkunningja í Suður-Afríku, annan langt inn í meginlandi Asíu og enn annan í Ástralíu.

Þetta var alt saman skýrt og eftir hlutarins eðli. En svo tók hann eftir því, að stundum fékk hann merki eða skeyti, alólík þeim skeytum, sem áttu uppruna í eða komu frá öðrum stuttbylgju útvarpsstöðvum. Þessi hljóðvörp virtust koma utan að, utan úr geimnum. Ef til vill voru þau í einhverju sambandi við geimgeislabylgjurnar (cosmic rays).

Hann gerði sig ánægðan með þessa tilgátu, þar til að hann tók eftir því, af einstakri hendingu, að þessi merki komu með reglubundnum áföllum, stundvíslega á hálftíma fresti og vöruðu í nákvæmlega þrjár mínútur í senn. Þetta var ráðgátan, sem vakti spurningarnar í huga hans, og sem hann glímdi við. Að öðru leyti voru þessi merki honum óskiljanleg, og komu úr útvarpinu aðeins sem hávaði, en þó svo reglubundin og samhljóða, að aldrei skeikaði.

Þetta varð til þess, að hann fór að grúska í því, hvernig honum mætti takast að fíngera móttökuáhaldið með breytingum á ristum í lömpunum. Hann lét þá smíða nokkra lampa með gerð, sem honum hafði hugkvæmst, eftir áður óþektu lögmáli. Svo kom hann þeim í rétt lag og beið átekta.

Brátt heyrði hann skýra rödd: „Mars calling to earth.” (Mars að kalla til jarðarinnar) á hreinu ensku máli, og svo nokkur orð, kannske samskonar, en á öðrum tungumálum, sem hann gat sér til að væri franska, rússneska og önnur fleiri, og varaði þetta innstreymi í nákvæmlega þrjár mínútur. Að hálftíma liðnum var þetta endurtekið, og svo á hálftíma fresti alla nóttina, eða meðan stjarnan var á himni ofar sjóndeildarhringnum.

Næstu nótt hlustaði hann enn á þessa rödd, gagntekinn af undrun og vímu út af þessum fyrirburði, sem hann nú loksins trúði, að væri útvarp frá jarðstjörnunni Mars. Þegar hann heyrði þessi orð fyrst, hélt hann að þau kæmu frá ein-

hverjum útvarpskunningja, sem væri að gera að gamni sínu. Daginn áður hafði hann blaðað í stjörnufræðis almanaki og gengið úr skugga um, að einmitt um þetta leyti árshringsins voru Mars og jörðin eins nálægt hvor annari og þær geta komist, eða innan við fjörutíu milljónir mílna, en það skeður sjaldan.

Nú afréð hann að reyna að senda svar í áttina til rauðu stjörnunnar, ef ske kynni að hann næði til hennar. Hann sendi rödd sína út í bláinn: „Earth calling Mars. Your signals received.“ (Jörðin kallar til Mars. Merki frá ykkur ná til okkar).

Nokkrum mínútum síðar kom skýr rödd, en þó með hreim af æsingi, úr útvarpinu: „Your message received. Keep sending.“ (Orð yðar meðtekin. Haldið áfram með skeytin). Svo tókst tal með þeim á ensku, með skýringum frá Marsbúum, um hvernig þetta kæti átt sér stað, eitthvað á þessa leið:

Frá þeim tíma, að þið á jörðinni uppgötvuðuð firðsendingar, höfum við á Mars vitað um það og heyrt til ykkar, því að við höfðum þá haft radíó í fleiri hundruð ár og stöðugt endurbætt og fíngert áhöld okkar og tækni, svo að jafnvel fyrstu útsendingar ykkar fyrir svo sem hálfri öld náðu til okkar. En auðvitað voru tæki ykkar of ófullkomin og ekki þess megnug, að veita viðtöku sendingum frá okkur fyr en nú, að þú hefir ratað á þetta eina sem til þurfti. Þó vissum við, að þetta myndi, fyr eða síðar, koma í leitirnar, og því höfum við í fleiri ár haldið áfram að beina skeytum til ykkar á hálftíma fresti, nákvæmlega þrjár mínútur í senn á öllum þeim tímum, sem pláneturnar voru í námunda.

Í fyrstu skildum við ekki mál ykkar, en brátt tókst okkur að smíða lyklana að þeim, svo að nú getum við talað við ykkur á mörgum tungumálum jarðarinnar, og um jörðina og jarðarbúa. Við vitum hvernig þið lítið út og hvað þið aðhafist; og kort okkar af yfirborði jarðarinnar eru kannske nákvæmari en ykkar kort.

Geimskip okkar sveima í efri lögum gufuhvolfs ykkar, sjaldan svo lágt, að þið verðið þeirra vör, því að það er ekki hættulaust, svo hraðskreið sem þau eru. Þó hafið þið víst einhvern tíma fengið vitund um þau, þar sem þið getið um „fljúgandi diska,“ en skip okkar eru þannig í laginu. Þau ganga fyrir frumagna orku, sem við beisluðum fyrir langa löngu. Þú þarft því ekkert að eyða tíma til að segja okkur neitt um ykkur eða annað á jörðinni. Eins og er, vitum við gerla um ástand og viðhorf þar.

Öðru máli er að gegna, hvað þið vitið um okkur hér á jarðstjörnunni, sem þið kallið Mars, og hvað hér stendur til. Pláneta okkar er, sem sé, á fallandi fæti, og verður senn að auðn, eins og nú horfir við. Vatnsforði okkar er að ganga til þurðar. Mars er þeim mun minni en jörðin — aðeins lítið meir en hálf að þvermáli — að þyngdarlögmál okkar megnar ekki að halda í og endurheimta alt það vatn, sem gufar upp í þynslu loftsins. Vatnið gufar upp í sífellu og sleppur út í geiminn, og

forðinn rýrist ár frá ári, svo að til vandræða horfir fyrir okkur. Nú erum við aðeins tíu mlijónir als. Við höfumst við á bökkum þess eina vatns, sem hér er um að gera, en sem óðum minkar. Þessvegna eru skip okkar að virða fyrir sér jörð ykkar með það í huga, að flytja þangað búferlum, ef leyfi ykkar fengist. Um annan griðastað í sólkerfinu er ekki að gera, og kannske hæpið, að Marsbúinn þyldi þær breytingar, sem viðurværi á jörðinni heimtaði — svo og líkamsþyngd og loftþrýsting, sem breytingin hefði í för með sér.

Við gætum þó fært ykkur ýmislegan fróðleik, sem komið gæti að gagni, því að við erum langt á undan ykkur í margskonar vísindum. Til dæmis höfum við yfirstigið alla holdlega sjúkdóma, svo að hér deyr enginn nema af elli (en vanalegt aldursskeið okkar er um 300 ár) eða af slysum, og styrjaldir óþektar og óhugsanlegar um fleiri þúsundir ára. Öll atvinna okkar gengur fyrir frumagna orku, sem við breytum beint í rafmagn, því að hér er hvorki um að gera olíu eða vatnsafl.

Hér er engin skepna til önnur en maðurinn, að undanteknum jarðormum og býflugunni, hvorttveggja nauðsynlegt jarðargróðrinum, sem einnig gengur til þurðar. Við mötumst svo að segja eingöngu á samanþjöppuðum mat í pilluformi, búnum til úr ýmsum jurtum, svo fullnægjandi, að biti skorinn við nögl nægir til fleiri daga.

Þú ert forvitinn um, hvernig við Marsbúar lítum út. Jæja, við erum ekki svo ósvipaðir ykkur jarðarbúum, — erum hvítleitir á hörund, yfirleitt léttari á vog en þið — jafnvel á jörðinni, hvað þá hér, — mittismjóir, en með vítt brjósthol, því að loftið er svo þunnt hér, smáfættir og leggirnir veikir í samanburði við ykkar. Þetta verður okkur kannske drjúgur farartálmi, náum við annars nokkurn tíma til jarðarinnar.

En nú dregur óðum að því, að við verðum að hrökkva eða stökkva. Nokkrar hræður, smáfækkandi, geta ílengst hérna um nokkra mannssaldra enn; en loks kemur að því, að alt líf hér hverfi að fullu og öllu, þegar síðasta vatnsfatan er dregin upp úr dýpsta brunninum.

Svo, hvað segið þið jarðarbúar um það, að veita okkur innflutningsleyfi til ykkar og griðastað? Á svari má ekki standa lengi, því að þessi vistaskifti eru ekkert smáræði og munu sennilega taka langan tíma. Við höfum að vísu mikinn skipastól, sem svífa hratt um loftleysuna milli okkar; en samt er ógjörningur, að leggja í slíka för, nema á þeim tímum, þegar pláneturnar eru í námunda, sem aðeins ber til þegar báðar eru sömu megin sólar.

Manninn við útvarpið í kjallara á jörðinni setti hljóðan við þessa uppástungu og beiðni. Hverju gat hann svarað öðru en því, að hann myndi leggja málið fyrir þá háu herra jarðarinnar, sem öllu ráða, en sem hafa hendur í hári hvers annars, og sýnilega vilja helst, að hinn taki á rás út í geiminn og týnist með öllu? —

Og þar við situr, eins og sakir standa, svo gerst sem sá veit, er þetta hripar.

# Íslenskur skólaskáldskapur og Kristján Jónsson

Í næstsíðasta árgangi Skírnis (1956) er grein um íslenskan skólaskáldskap á árunum 1846—1882 eftir Gunnar Sveinsson, einn hinna yngri mentamanna á föðurlandinu. Ekki veit ég hvers vegna höf. bindur sig við þessi 36 ár, nema ef vera skyldi, að vænta megi áframhalds í næstu árgöngum. Fyrstan á blaði telur hann Magnús Grímsson og síðastan Þorstein Erlingsson. Má víst óhætt ætla, að þar séu öll skólaskáld talin frá því tímabili. Þó er eins og mig dreymi um, að Jón A. Hjaltalín, síðar skólastjóri Möðruvallaskólans, hafi ort að minsta kosti skólaminni einhvern tíma á skólaárum sínum. Og hann var sá, sem flutti Victoríu Englandsdrotningu drápu á dvalarárum hans á Bretlandi.

Ekki er það tilgangur þessara fáu lína, að gjöra þessa fróðlegu og læsilegu grein, að umtalsefni í heild sinni, heldur eru það tvö atriði í sambandi við kaflann um Kristján Jónsson, sem rumskuðu við löngu gleymdum atvikum í huga mínum frá yngri árum.

Í niðurlagi kaflans um Kristján er þessi málsgrein: „Eftir að Kristján hætti skólanámi, orti hann lítið á því tæpa ári, sem hann átti eftir ólifað.“ Þetta er að vísu ekki fjarri sanni eftir kvæðabókinni að dæma. Þar er víst fátt, nema það sem tínt var saman úr bréfum frá Vopnafirði, að undanskildum erfiljóðunum um dóttur séra Halldórs á Hofi, sem hlutu mikið lof á þeim tíma. En bæði er það, að öll kurl hafa víst aldrei komið til grafar um kveðskap Kristjáns, og svo gekk algeng saga þar eystra í ungdæmi mínu, að þegar Kristján dó, hafi Gustav faktor Iversen, sem líka drakk sig í hel, að sögn, látið greipar sópa um skrifborð Kristjáns og borið á bál öll kvæði hans, handrit og bréf, hver svo sem orsökin hefir verið. Í ungdæmi mínu heyrði ég talsvert af vísum og kveðlingum Kristjáns, sem fátt var að vísu merkilegt, þar á meðal hnútukastið í milli þeirra skáldanna Jóns Thoroddsens og Kristjáns, sem sumt var of klúrt til að prenta. Friðrik Guðmundsson, sonur bónda, sem lengi bjó á Hólsfjöllum í tíð Kristjáns þar, birti sumt af því eftir minni í Æviminningum sínum, sem hann samdi hér vestra, eftir að hann varð blindur, og prentað var í Heimskringlu og sömuleiðis í bókarformi.

Þá komu og tvö kvæði eftir Kristján í blaðinu Stefni 2. árg. 20. tölublaði, 1894, prentuð eftir eiginhandriti skáldsins. Ekki veit ég til, að þessi kvæði hafi verið tekin upp í nokkra útgáfu af kvæðum hans, og eru þau þó vel þess virði. Fyrra kvæðið heitir **Herðibreið**, átta erindi, ort undir sama hætti og í sama anda og **Dettifoss**, og stendur því kvæði fyllilega á sporði, og er líkt því.

Hið síðara kvæðið er gamankviðlingur út af einhverri kvenfélagsskrá, sem prentuð var í Þjóðólfi, þar

sem nöfn kvennanna „enda öll á -sen og -son.“ Keisarinn í Kína kaupir Þjóðólf og vill óðfúsa breyta til í sínu ríki, því að:

Sonu eina en eigi dætur eiga má hilmis ríki héðan í frá.

Kristján sendi víst vinum sínum sum kvæði sín, en að öðru leyti hefir hann verið hirðulaus um, að vernda þau frá glötun. Og þannig munu þessi tvö kvæði hafa verið send Stefni frá vini eða skyldmenni löngu eftir dauða skáldsins.

Kristján var snemmþroska — orti athyglisverð kvæði strax á unga aldri. Hann virðist þó að hafa verið fremur rusulvirkt skáld, sem lét alt flakka, og jafnvel fæst af bestu kvæðum hans eru lýtalaus, að minsta kosti að því er snertir áherslur og bragliði. Hvort hann hefði vaxið að mun, ef honum hefði orðið lengri lífdaga auðið, er og verður óleyst gáta. Sumir stækka alt til hárrar elli, aðrir funa upp eins og eldgígar, og kulna svo til ösku innan fárra ára.

En þrátt fyrir alt hafði Kristján undrasterk áhrif á hina yngri kynslóð á síðasta fjórðungi 19. aldarinnar. Ég, sem þetta rita, kunni víst flest kvæði hans á fermingaraldri og orti þá æskukvæði í anda hans. Því var það, þegar ég kom á Möðruvallaskólann haustið 1894, og komst óvænt yfir prentuð og óprentuð verk Kristjáns, sem ekki voru í kvæðabók hans, að ég skrifaði þau upp og hefi geymt þau til þessa dags.

Á öðrum stað talar greinarhöfundur um leikrit og leikritabrot Kristjáns, fimm eða sex að tölu, sem öll munu hafa verið skrifuð á skólaárunum. Þar segir meðal annars: „**Gestakoman** og **Tímarnir breytast** hafa verið stutt leikrit, en aðeins nokkur ljóð úr þeim hafa varðveitst.“

Eins og sagt er hér að framan kom ég að Möðruvöllum haustið 1894, þá 18 ára unglingur og undir sterkum áhrifum eldri skáldanna — ekki síst Kristjáns. Það hlýtur því að hafa verið þann vetur, sem ég á einhvern hátt komst yfir handrit af **Gestakomunni** — snjáð og slitið, en þó vel læsilegt, nema latínuklausurnar, sem auðsjáanlega voru úr lagi færðar — og skrifaði það upp eftir bestu getu. Aftan við leikinn hefi ég svo skrifað kvæðin úr Stefni, sem áður er getið.

Löngu seinna — upp úr aldamótunum — fékk ungt fólk á Oddeyrinni leikinn að láni og æfði hann — og lék eitt laugardagskvöld á útmánuðum í samkomuhúsi úti á Hjalteyri fyrir fullu húsi.

Ekki er það alsendis óhugsanlegt að afskriftir af þessum týndu leikum Kristjáns kunni að felast í blaðaskrínum eldri manna heima á föðurlandinu. Ef höf. Skírnisgreinarinnar hefði ekki talið þá glataða, er lítill vafi á, að þetta afrit mitt af Gestakomunni hefði verið á bál borið að mér lífs eða liðnum.

Vel get ég verið þeim mönnum samdóma, sem ekki hefðu talið mikinn bókmenntalegan skaða skeðan, þó þessi leikur hefði aldrei komið í leitirnar. En fyrst hann hefir flækst með mér um tvær heimsálfur í síðastliðin 65 ár, þá get ég ekki minna gert en að fela hann Tímaritinu til varðveitslu nú í vertíðarlokin. G. J.

# Gestakoman

**Gamanleikur í tveimur þáttum eftir Kristján Jónsson.**

Persónur leiksins:
Guðmundur bóndi
Jórunn, kona hans
Þóra, 18 ára dóttir þeirra
Einar, 15 ára sonur þeirra
Sölvi Helgason
Ólafur Muður
Galdra Leifi
Jón Repp
Fjórir skólapiltar:
Pétur, Jón, Þórður, Páll.

## FYRSTI ÞÁTTUR

### FYRSTA ATRIÐI

(Guðmundur, Jórunn, Einar, Þóra).

**Jórunn.** En hvað mig syfjar í kveld. Ég held það sæki að mér (geispar).

**Guðmundur.** Vera kann að einhver komi. Það er líka farið að líða að þeim tíma, að mannaferðir fari að byrja yfir heiðina. Það lífgar upp haustkvöldin fyrir okkur, sem búum svo afskekt.

**Jórunn.** Ekki þykir mér nú ævinlega mikil lífgun, þegar varla er hægt að hafa neina hendisemi fyrir gestum.

**Þóra.** Ekki veit ég hvað getur lífgað mann og lyft manni upp, ef það er ekki, þegar skólapiltarnir eru á ferðinni; þeir eru svo kátir og fjörugir og syngja svo indælar vísur.

**Einar.** Já, það er gaman, þegar skólapiltarnir fara að koma, ekki sízt að sjá hana Þóru systur, hvað hún er þá tindilfætt.

**Þóra** (stygg). Það er annaðhvort eða ekki, að maður veiti þeim sæmilegan beina og lætur þá ekki bíða eftir hverju smáviki heila og hálfa klukkustund. Þér væri nær að vera ögn tindilfættari en þú ert, að hjálpa þeim til við hestana.

**Einar.** Það getur nú verið, en ósköp er ég hræddur um, að þú fáir engan þeirra, hvernig sem þú hoppar og skoppar í kringum þá—he, he!

**Guðmundur.** Látið þið ekki svona börn. Þér væri nær að hugsa um að gera eitthvað, heldur en vera með þessar ertingar (þá er barið). Farðu til dyranna Einar. (Einar opnar dyrnar. Maður kemur inn, með mikið rautt skegg og er í dökkri yfirhöfn).

### ANNAÐ ATRIÐI

(Þeir fyrri — Sölvi Helgason)

**Sölvi.** Sælt og blessað fólkið. En hvað það er endurnærandi fyrir lúinn og þreyttan vegfaranda, að koma á bæ þar sem andi friðarins og eindrægninnar og kærleikans hefir tekið sér fastan bústað.

**Guðmundur.** Má ég með leyfi spyrja: Hvaða maður er það, sem hér ber að mínum húsum?

**Sölvi.** Heimspekingur, náttúruskoðari, lista-málari, sagnaritari og skáld. Fleira mætti nefna, ef þess álitist þörf.

**Guðmundur.** Hvað heitir maðurinn?

**Sölvi.** Sölvi Helgason, Sólon, Pétur, Sókrates, Melankton.

**Einar.** Sá er ekki nafnlaus.

**Þóra.** Þetta hlýtur að vera einhver fjarska mikill maður.

**Sölvi.** Það er köllun mín, að skoða náttúruna, rannsaka gang himintunglanna, ígrunda eiginlegleika hins skapaða og safna mér fjársjóðum af visku og fróðleik, til þess að miðla aftur hinum fáfróðu þar af. Af þessu leiðir, að ég verð að dvelja hér og hvar styttri eða lengri tíma. Og hér um slóðir verð ég að nema staðar fyrst um sinn. Peninga vantar mig ekki (slær á vasann) og mína veru borga ég kontant, þegar starfi mínu er lokið.

**Guðmundur.** Hér er lítið um að vera og ekki mikið að bjóða, en ef maðurinn skyldi vilja láta svo lítið, að dvelja um tíma í mínum húsum, þá er það meira en velkomið.

**Sölvi.** Þökk fyrir vinsamlegt tilboð. Þó ég og mínir líkar séu vanari stórhýsum og skrautbyggingum en húskofum fátæklinganna, þá sættum vér oss við alt fyrir sakir vísindanna og viskunnar. Þetta hús skal ekki hafa skaðann af minni veru.

**Guðmundur.** Ég þakka skyldugast fyrir mig og mína.

**Sölvi.** Hér mun ég þá staðar nema, og þá skal ég gjöra dóttur yðar að komtesse og son yðar að heimspekingi.

**Einar.** Það verður gaman. Þá fer ég í frakka. (Heyrist barið).

**Þóra.** Það þætti mér gaman að verða kompressa. Ég skil nú annars ekki orðið (fer til dyra).

**Jórunn** (til Guðmundar). Það grunaði mig lengi, að eitthvað mundi verða úr börnunum okkar.

## ÞRIÐJA ATRIÐI

(Hinir fyrri. Ólafur Muður)

**Þóra** (opnar dyrnar, Ólafur Muður kemur inn með stórt samanbrotið bréf, er stendur upp úr vasa hans).

**Ólafur Muður.** Hér sé friður, hefir ekki ókunnur maður komið hér?

**Guðmundur.** Ekki nema spekingurinn sá arna, sem þér sjáið. (Sölvi og Ólafur koma auga hvor á annan, og báðum verður ilt við). Átti maðurinn von á nokkrum?

**Ólafur Muður.** Þorleifur skáld var hér á ferðinni. Ég vildi ekki verða honum samferða, því ég þjóna drotni af lífi og sál, en hann er galdrahundur.

**Jórunn.** Það vildi ég að slíkur maður færi ekki að koma í kvöld.

**Ólafur Muður.** Það gjörir ekkert til þó hann komi, þar sem ég er annars vegar, því ég hefi himnabréf í vasanum, hvar sem ég reika í þessum jarðneska táradal, og með því ver ég öllu grandi.

## FJÓRÐA ATRIÐI

Hinir fyrri. Galdraleifi. Dyrnar eru opnaðar óþyrmilega og Galdraleifi veður inn með fasi miklu.

**Galdraleifi.** Hér er ekki alveg mannlaust fyrir. Það getur maður líka þegið, að koma til menskra manna, þegar nýbúið er að glíma við draug og keyra hann ofan í jörðina.

**Guðmundur.** Þetta mun vera Þorleifur skáld.

**Galdraleifi.** Þorleifur heitir maðurinn, sem sumir einfeldningar kalla Galdraleifa. Það kemur sér líka betur, að kunna eitthvað í fornum fræðum, ekki síst þegar maður er einn á ferð. Hérna hitti ég til dæmis

einn mórauðan niður í dalnum, sem ég tókst á við og kvað yfir, svo að ég vona að hann láti ekki á sér bera fyrst um sinn. Helgidómsmaðurinn hann Ólafur Muður er þá kominn hingað á undan mér.

**Ólafur Muður.** Hingað er ég kominn fyrir mildi hins hæsta. Ekki varð af því, sem þú hugsaðir Galdraleifi, að þú mundir verða á undan mér.

**Galdraleifi.** Það gjörði sá mórauði, sem ég var að glíma við.

**Guðmundur.** Þá held ég sé nú mál komið til að fara að líta eftir kindunum. Komdu með mér Einar.

**Jórunn.** Ég verð líka að fara og sjá gestunum fyrir beina. Þú kemur með mér Þóra, að hjálpa mér til frammi. Gestirnir geta vona ég skemt hver öðrum á meðan. (Guðmundur, Einar, Jórunn, Þóra fara).

## FIMTA ATRIÐI

Sölvi, Ólafur, Leifi.

**Sölvi.** Hér var ég í besta gengi og gat haft alt eins og ég vildi vera láta, en þá rekur fjandinn ykkur hingað mér til ama og skapraunar. Hér var ég alveg óþektur, því hingað hefi ég aldrei fyr komið, þó víða hafi ég um landið reikað.

**Ólafur Muður.** Ekki þarftu nú að láta mikið, eða manstu ekki, þegar við vorum saman á betrunarhúsinu, að þú varst feginn að við fleygðum í þig einhverju ætilegu eða hjálpuðum þér til við vinnuna, svo þú yrðir ekki barinn eins og hundur fyrir ómenskuna og letina.

**Leifi.** Og þá man ég svo langt Sölvi, að þú varst feginn, að við snöruðum í þig hrossakjötsbita.

**Sölvi.** Ó, þið heimsins eintrjáningar! En hvað þið skuluð geta verið að ýfa upp gamlar undir; þið ættuð nú að snáfa héðan á burtu og láta mig einan eftir í friði og ró, því ég er spekingur, hvað sem þið segið.

**Ólafur Muður.** Við að víkja héðan fyrir þér! Nei, það verður nú ekki af því, Sölvi minn. En ég vil nú stinga upp á einu, að við göngum nú allir í félag og látum bónda halda, að við séum miklir menn og lifum hér eins og höfðingjar nú um tíma.

**Leifi.** Þetta er þjóðráð. Komdu til í það Sölvi.

**Sölvi.** Ekki mun annað ráð vænna, úr því sem komið er. En haldið þið að mér þyki ekki minkun að ykkur, öðrum eins slordónum.

**Ólafur Muður.** Láttu þér nú hægt Sölvi karl. Manstu ekki eftir verunni á betrunarhúsinu? Aumari sjón hefi ég sjaldan séð en þig, þegar þú bjóst við að verða barinn fyrir einhverja óþægðina. En sleppum nú þessu, og gjörumst glaðir (syngur).

Fer ég glaður ferðamaður
fróns um slóð,
berhöfðaður bið fyrir þjóð.
Nóg fyrir slaður nafntogaðar,
narra menn og fljóð,
syng og yrki óð.

**Galdraleifi.**

Fljótt ég skunda á fæti um grundir
fjörs um tíð,
galdra-undrum æri lýð,
sveifla mundum, særi stundum
sjálfan fjanda' í grið,
yrki napurt níð.

**Sölvi.**

Á hauðri fanna millum manna
margoft fer, —

spekinganna æðstur er, —
hjörtu kanna sveins og svanna,
svo sem vera ber.
Lýðir lúta mér.

Já, mikið skulum við nú láta yfir okkur, en þó verð ég að vera mestur, því ég er bæði málari hinn besti og heimspekingur.

**Ólafur Muður.** Meiri er ég, því ég er mesti guðs maður, og ég geri tákn og stórmerki með himnabréfinu, sem ég hefi hérna í vasanum.

**Leifi.** Mestur er ég, því ég gjöri yfirnáttúrlega hluti.

SJÖTTA ATRIÐI

Hinir fyrri. Jón Repp. (Þóra kemur inn með Repp).

**Þóra** (bendir á stól). Þarna er sæti handa yður, Repp minn. (fer).

**Sölvi.** Hvaða veraldarinnar vöðuselur er það, sem hingað er kominn til vor?

**Repp.** Ég heiti Jón Repp. Ég er vanalega í sendiferðum fyrir höfðingja. Nú var ég á einskonar embættisferð fyrir hann kammerráð Einarssen og er nú, sko, á heimleið (gjörir ýmsar fettur og brettur út í loftið). Má ég spyrja, hvað heita þessir menn?

**Ólafur Muður.** Ólafur heiti ég, aumur syndari og biðst fyrir dag og nótt til að afmá syndir mínar. Þessi maður heitir Sölvi Helgason, en hinn Þorleifur skáld, sem sumir kalla Galdraleifa.

**Leifi.** Krims, krams, krumsprang, tirtig, tirty (lítur illilega til Repps).

**Repp.** Ég vil biðja manninn að hafa ekki neina galdra í frammi við mig. Reynslan er sannleikur, sko!

**Leifi.** Það er ekki siður minn að beita göldrum við ókent fólk. En það væri ekki af vegi, að breyta þér í merarlíki og sitja á þér ofan héraðið. (hvæsir).

**Repp.** Nei, góði vin, gerðu það ekki. Viltu í nefið? (réttir fram tóbaksdósir).

**Ólafur Muður.** (Leggur hendur yfir Repp). Friður sé með þér, sonur.

**Repp.** Já, við skulum reyna að vera vinir, (Leifi þiggur í nefið, Repp verður hugaðri) því reynslan er sannleikur.

**Sölvi.** Þetta er ófílósófiskt valgsprok.

**Repp.** Þetta hefi ég þó heyrt lærðan mann segja, og meira að segja, ég hefi það skrifað í vasabókinni minni. Geturðu lagt þetta út? (Sýnir honum vasabókina).

**Sölvi** (stamar). Akk, ubb, tubb. Ja, það er franska, það er ekki gott að koma orðum að því, en hugmyndaleiftur má hafa yfir það.

**Repp.** Þetta hefir þó lærður maður sagt mér, að þýddi: Reynslan er sannleikur. En hvað stendur þarna á eftir?

**Sölvi** (les). Testis est mundus. Það þýðir að þú sért andlega starblindur hlöðukálfur hinnar afarvíðu veraldar.

**Repp.** Þetta held ég sé nú einhver speki úr þér. En reynslan er sannleikur .

**Sölvi.** Nei, reynslan er ekki sannleikur, því sannleikurinn er sól hugmynda veraldarinnar, en reynslan er ekki annað en geislabrot í loftsölum hennar.

SJÖUNDA ATRIÐI

Hinir fyrri. Jórunn og Þóra koma inn.

**Jórunn.** Gestirnir verða að afsaka, þó við höfum látið þá vera eina. En þið hafið þá ekki heldur verið ráðalausir með að skemta ykkur með því að tala saman.

**Sölvi.** Einhver ráð hafa jafnan skynsamir menn til að stytta sér stundirnar, ýmist innvortis með viturlegum hugsunum eða útvortis með fjörugum samræðum.

**Þóra.** Mig langar til að spyrja gestina ráða í einu tilliti. Ég fæ oft og einatt höfuðþyngsli og hjartslátt, og það einkum, þegar vel búnir gestir koma. Gætuð þið ekki ráðlagt mér eitthvað við þessu?

**Jórunn.** Ég held þetta eldist af henni. Svona var ég fram að giftingu. Síðan hefi ég haft bestu heilsu.

**Sölvi.** Þennan sjúkdóm þekki ég. Það er áþekt hjá grösunum, þegar þau spíra, og það sem heimspekingarnir kalla respiratis. Það eru viss náttúrugrös, sem eiga hér við. Það er ekki annað en að leggja þau við hjartað, og þá hverfa þessi vanheilindi innan skams.

**Ólafur Muður.** Besta trú hefði ég á því, að taka afskrift af þessu, himnabréfinu, og leggja hana á brjóstið.

**Leifi.** Ég væri vel til með að rita einn rúnastaf og þylja galdra yfir. Það held ég að væri ráð, sem dygði.

**Repp.** Ég held það væri best að fá sér ferðalag og fjörga sig úti í náttúrunni. Það reynist mér ævinlega best, og reynslan er sannleikur.

**Þóra.** Ætlar blessaður maðurinn að gefa mér afskrift af bréfinu?

**Ólafur Muður.** Ég hefi strengt þess heit, að taka aldrei sjálfur afskrift af himnabréfinu fyr en ég hefi snúið 100 heiðingjum til kristinnar trúar. En kannske hann Sölvi vilji gjöra það.

**Sölvi.** Ég að taka afskrift af himnabréfi. Nei, það er verk, sem heimspekingar ekki leggja hendur að. En kannske hann Þorleifur skáld væri til með það.

**Leifi.** Himnabréf er hlutur, sem ég ekki snerti á. Annað mál væri að marka Þórshamar eða draga upp Urðarmána. Það er verk, sem lætur þessum krumlum (hálf kreppir hendurnar) þó farnar séu að eldast.

**Þóra.** En Repp minn, mætti ég ekki biðja yður að taka fyrir mig afskriftina?

**Repp.** Stundum hefi ég ekki verið lengi að stinga niður penna og krota fáeinar línur. En ég verð þó að fá penna og blek og pappír — penna og blek — komið þið með penna og blek. (Þóra tekur penna, blek og pappír ofan af hillu og leggur á borðið). Repp sest og Ólafur leggur bréfið á borðið. Repp tekur pennan og ætlar að fara að skrifa). Þá vantar mig gleraugu, ég get ekki skrifað nema ég hafi gleraugu.

**Sölvi.** Mín eru þér velkomin, ef þú getur brúkað þau.

**Repp.** (setur upp gleraugu Sölva). Ég sé ekkert með þessum gleraugum. (Tekur þau af sér). Þau duga ekki fyrir mig.

**Sölvi.** Það er heldur ekki von — það sjá ekki aðrir með þeim en heimspekingar. En þetta er óþarfi, náttúrugrösin, sem ég nefndi áðan, eru einmitt besta ráðið.

**Þóra.** Því trúi ég líka best.

**Sölvi.** Það er siður minn, að ganga út að kvöldi dags til að skoða ljós himinsins; þá er líka tími til að nema grösin.

**Ólafur Muður.** Það er líka vani minn að ganga út til að biðjast fyrir í kvöldkyrðinni, því þá er friður yfir foldu og ekkert sem glepur.

**Leifi.** Gaman hefi ég stundum af að ganga út þegar húma tekur, því þá er einatt eitthvað á seiði.

**Jórunn.** Gestirnir gjöra svo vel að þiggja eitt glas af víni, áður en þeir ganga út í kvöldkyrðina. Þóra, komdu með flösku og glös. (Þóra tekur flösku og 4 glös út úr skáp, setur á borðið og hellir á).

**Þóra.** Gjörið svo vel. (Gestirnir taka sitt glasið hver).

**Sölvi** (syngur).

Þá lifnar eldheit öndin
og allra harma slitna böndin,
er mjúka meyarhöndin
hið mæra vín á skál oss ber.

**Ólafur.**

Til sælli himinsala
frá sorg og eymdum jarðardala
vor svífur önd sem svala.

**Leifi.**

Í svörtum galdravindi ég fer.

**Þóra.**

Svo drekkið þér. (Þeir drekka).

**Sölvi.**

Ég drekk með hýru hjarta,
því hugnast mér
þú rósin röðulbjarta,
þín rjóða kinn svo fögur er.

**Repp.**

Sko, sko, sko, sko, sko, sko!
Reynslan sannleikur er.

(Tjaldið fellur).

## ANNAR ÞÁTTUR

### FYRSTA ATRIÐI

Pétur, Jón, Þórður, Páll, Þóra.

**Pétur, Jón, Þórður, Páll** (syngja um leið og þeir koma í hlaðið).

Inndælla ég ei veit
en o'n af fjöllum
koma í sæla sveit
og seggjum snjöllum
gista hjá;
gjörist þá
svo glöð vor lund.
Þá fagnar ferðasveinn.
Þinn faðmur er svo hreinn,
svo hreinn —
hann er svo hreinn
þú gestrisna grund.

**Pétur.** Já, gott er nú að vera kominn til bygða eftir þennan heiðartúr.

**Þóra.** Því er nú miður, að ekki er hægt að veita gestunum eins vel og vera ætti. Hér eru líka komnir fjórir menn á undan ykkur, sem ætla að fá gistingu.

**Pétur.** Hverjir skyldu það vera?

**Þóra.** Þrjá þeirra hefi ég aldrei séð, en einn þeirra þekkjum við. Það er hann Repp gamli.

**Pétur** (líflega). Er herra barón von Repp kominn hér? Þá hefir maður eitthvað að skemta sér við í kvöld. En hverjir skyldu hinir vera. Hafið þið ekki spurt þá að heiti?

**Þóra.** Jú, einn heitir Sölvi Helgason, einhver óttalega mikill maður, annar Ólafur, ógnarlega guðhræddur, og þriðji Þorleifur, en hann er göldróttur, svo að við erum hálfhrædd við hann.

**Pétur.** Ó, eru það þessir karlar. Þér hafið nú vel gjört, heimasæta góð, að gefa okkur þessar upplýsingar. Látið þér okkur svo fá kaffi, því nú getum við þegið að fá hressingu.

**Þóra.** Kaffið skal koma svo fljótt, sem hægt er. (fer).

ANNAÐ ATRIÐI

Pétur, Jón, Þórður, Páll.

**Pétur.** Þykir ykkur setið, félagar. Einhverjir hinir frægustu bófar og flækingar, sem til eru á landinu, eru hér samankomnir í kveld. Það væri synd að segja, að við hefðum ekki sótt vel að, og svo Repp karlinn með í hópnum.

**Jón** (gremjulega). Mér finst það ekki vera mikið fagnaðarefni, þegar maður getur ekki þverfótað fyrir alskonar óþjóðalýð. Ég hefði þó þegið að geta hvílt mig eftir ferðina yfir heiðina.

**Páll.** Sama segi ég. Ég hefði látið það vera, þó Repp gamli hefði verið hér einsamall. Það hefði getað verið nógu gaman að spjalla við hann einan og lofa honum að raupa dálítið, en hitt ruslið vildi ég gjarnan vera laus við.

**Pétur.** Bíðið þið nú við. Mér dettur í hug að leika dálítið á þá burgeisa, svo að þeir verði sér til skammar, og verði fegnir að hafa sig á burt.

**Þórður.** Já, Pétur, findu nú upp eitthvert ráð til þess að láta þá verða sér greinilega til háðungar.

**Pétur.** Ég er að hugsa um að fá Galdraleifa til að sýna okkur draug. Svo skal einn okkar látast vera draugur, og vitum þá hvort þeir verða ekki smeikir. En fyrst og fremst mega þeir ekki vita annað en að við séum aðeins tveir. Þið, Þórður og Páll, verðið að fara eitthvað frá. En við Jón skulum vera hér inni að spjalla við gripina. Svo sjáum við hvernig fer. (Þeir syngja).

Sem léttan lax í straumi
í lífsins ölduglaumi
við líðum áfram æ um
æskudagana.
Tra-la-la-la!
Þá hver gleði annars eykur,
því andi vor er hvergi smeikur.
Vort æskulíf er leikur,
sem líður, tra-la-la-la!
Ha-ha-ha-ha-ha-ha-ha-ha-ha-ha.
Vort æskulíf er leikur,
sem líður, tra-la-la-la.

ÞRIÐJA ATRIÐI

Hinir fyrri. Þóra.

**Þóra.** (Kemur inn með fjóra kaffibolla og lætur þá á borðið). Gjörið svo vel. (Þeir setjast niður). Það má heyra að þið kunnið að taka á versi. Það held ég sé stundum glatt á hjalla, þegar þið eruð allir komnir saman í skólanum.

**Pétur.** Já, það er stundum reynt að syngja og leika sér. En meðal annara orða, hvar eru gestirnir ykkar, þessir fjórir, sem þér sögðuð okkur frá áðan? Hafa þeir farið eitthvert, og hvar er hann faðir yðar?

**Þóra.** Faðir minn og hann Einar eru við féð, og koma ekki heim fyr en seinna í kvöld. Gestirnir gengu eitthvað út dálitlu áður en þér komuð. Þeir hljóta að koma aftur á hverri stundu. (Lítur út í glugga).

Þarna trúi ég, að hann Sölvi komi. Ég má ekki vera að standa hér lengur. (fer. Pétur gefur Þórði og Páli bendingu um að fara. Sölvi kemur inn).

## FJÓRÐA ATRIÐI

Pétur, Jón, Sölvi.

**Sölvi.** Hverjir eru þessir ungu menn, sem mér veitist sú ánægja að hitta hér og skifta orðum við?

**Pétur.** Við erum skólapiltar á leið suður í skóla. En með leyfi að spyrja, er ekki þessi maður Sölvi Helgason?

**Sölvi.** Svo er, sem hinn ungi maður spyr, Sölvi Helgason, útlærður fjöllistafræðingur frá háskólanum, Universitetinu í Kaupmannahöfn.

**Pétur.** Þá getið þér frætt okkur um ýmislegt, því við erum nú ekki orðnir sérlega lærðir enn, þó það heiti svo, að við séum í skóla.

**Sölvi.** Það er mitt yndi og ánægja, þegar ég hitti fyrir mér unga menn, að gefa þeim færi á að bergja á hinum silfurtæru lindum viskunnar og vísindanna (hátíðlegur). Þessi hönd (réttir hana fram) og þessi munnur hefir margsinnis leitt hinn rammvilta rófubeinaheim og hina vitlausu veröldu á rétta leið frá myrkrinu til ljóssins.

**Pétur** (lágt til Jóns). Nú er andinn kominn yfir hann. (hátt). Það hafa víst verið býsna margar fræðigreinir kendar á háskólanum.

**Sölvi.** Það voru allar mögulegar fræðigreinir, tungumál, bæði forn og ný, historia, himintunglafræði, mannkynsfræði, bæði um náttúrugrös og náttúrusteina, málaralist og hugmyndafræði, auk annarra.

**Pétur.** Eitthvað hefir nú verið kent. Það hefir þurft meira en smáræðishöfuð til að taka á móti öllu þessu.

**Sölvi.** Það veittist mörgum erfitt og yfir höfuð öllum nema mér, en ég drakk alt í mig, eitt á fætur öðru, svo að nú er ég kominn upp á sjónarhól í ríki vísindanna og hugmyndanna, og þaðan horfi ég ofan yfir þessa fáfróðu veröldu.

**Jón.** Hvað var kent þar í Geologí? Það hafa víst verið nokkrir kapítular í Maríusi.

**Sölvi.** Allur Maríus frá upphafi til enda.

**Jón.** En í gynecologi? Það hefir víst verið lesið eitthvað í ritum Kambýsesar.

**Sölvi.** Öll rit Kambýsesars, og ekki sleppt einni línu.

**Pétur.** Létu kennararnir ykkur ekki stundum studera luere og corporere?*

**Sölvi** (lágt). Það er víst eitthvað mikið. (hátt). Engan nema mig einan, því ég var þeirra mestur í öllu.

**Jón.** Hafið þér ekki ritað neitt, síðan þér komuð frá háskólanum, svo að fróðleikur yðar mætti geymast handa seinni tíma mönnum?

**Sölvi.** Fleiri bindi en tölu verði á komið, sem liggur hjá mér í hlöðum. Núna seinast Frakklands historíu í 30 bindum og 50 arkir í hverju bindi.

**Pétur.** Það er nú aldrei bók. En hvað segið þér þá um Caligúlu?

**Sölvi.** Mér geðjast einna best að honum af öllum Frakklandskonungum.

---

*Þýðir að berja — setja í skammarkrókinn. Að mestu ólæsilegt.

**Jón.** Caligúla var að mínu áliti hinn versti maður.

**Sölvi.** Nei, ekki þegar hann er skoðaður frá miðbaugi sjónheimshvelfingarinnar.

FIMTA ATRIÐI

Hinir fyrri. Jón Repp.

**Repp** (kemur inn, sér Pétur og Jón, hneigir sig). Heilir og sælir háttvirtu herrar, stúdentar eða kandidatar, eftir útlitinu að dæma.

**Pétur.** Við erum nú ekki nema skólapiltar ennþá, og erum nú á leiðinni suður í skóla.

**Repp.** Á leiðinni til að verða stúdentar og síðan helstu höfðingjar landsins. Það hugsaði ég, að þessi kvöldstund myndi ekki líða svo, að ég fengi eigi að segja eitt eða tvö orð við mentaða menn. Reynslan er sannleikur.

**Jón.** Það held ég hann sé mentaður maður, spekingurinn þarna (lítur til Sölva), eða hafið þið ekki talast við í kvöld?

**Repp.** Jú, víst höfum við talað saman, en ekki held ég, að hann sé nú mikið lærður.

**Sölvi.** Svona dæmir þessi sálarlausa kynslóð, sem ekki gjörir annað en kútveltast í forardýum fáviskunnar.

**Repp.** Ég er ekki fremur sálarlaus en þú. Nú skal ég spyrja stúdentana að því, sem ég spurði þig að áður, og vita hvað þeir segja (tekur upp vasabókina og sýnir Pétri). Má ég spyrja stúdentinn hvað þetta þýðir?

**Pétur** (les). Aactum veritas est, testis est mundus. Það er eftir orðunum: Reynslan er sannleikur, það vitnar heimurinn.

**Repp.** Heyrðu nú til Sölvi.

**Sölvi.** Það er það sama og ég sagði, því hin afarvíða veröld rúmar ekki þá reynslu, sem leiðir þann sannleika í ljós, að þú sért andlega starblindur.

**Repp.** Ég skil ekki þetta orðagjálfur. Ég er þinn sannkristinn náungi.

SJÖTTA ATRIÐI

Hinir fyrri. Ólafur Muður og Galdraleifi.

**Ólafur Muður.** Hér sé friður á jörðu og miskunn hins hæsta yfir mönnunum.

**Sölvi.** (til Ólafs og Leifa). Hér eru komnir tveir skólapiltar, ungir menn og fróðleiksgjarnir, sem ég hefi verið að fræða um háskólann erlendis og ýmsa mikilvæga hluti, sem ekki er von að þeir hafi þekking á.

**Repp.** Jú, sá held ég fræði.

**Sölvi.** Ó, þessir heimsins hlöðukálfar, sí og æ jórtrandi við moðjötu heimskunnar.

**Leifi.** Ha! skólapiltar á þingi. Sú var tíðin að skólapiltar vissu jafnlangt nefi sínu, og varð ekki mikið fyrir, að glíma við einhvern haugbúa, en nú er öldin önnur; nú hefir enginn dug eða dáð til að horfast í augu við lítilfjörlegasta draug.

**Pétur.** Ekki er að fortaka nema einhverjir séu þeir í skóla enn, sem eitthvað vita fyrir sér.

**Leifi.** Ekki vænti ég að þú sért galdramaður; þá held ég að flestir sótraftar séu af sjó dregnir.

**Pétur.** Það er ekki svo að skilja, að ég kynni til þeirra hluta, en einn er sá í skóla, að jafnskjótt sem

kallað er á hann einhversstaðar, þá er hann óðar kominn þangað, hvar sem hann kann að vera staddur.

**Leifi.** Þann pilt hefði ég haft gaman af að þreyta kunnáttu við. Lator arepa tenet opera rotas.

**Pétur.** Ég heyri að þú ert kunnáttumaður. Viltu ekki gjöra svo vel og sýna okkur draug?

**Leifi.** Það er ekki fyrir skólapilta með hvítt um hálsinn og hvítar hendur, að leita til kotungs í mórauðri úlpu eins og Galdraleifa, enda fremur maður ekki galdra og gjörninga til að leika sér að.

**Pétur.** Það er sjálfsagt, að ég borgi þér ríflega fyrir, til dæmis 30 krónur. Heldur þú að þú værir ekki til með það?

**Ólafur.** (lágt til Leifa). Þú sleppir ekki slíku færi.

Sölvi. (lágt til Leifa). Fyrir alla muni reyndu að ná í peningana.

**Leifi.** (hvíslar einhverju að Ólafi Muð; segir síðan): Þá verða allir héðan út að fara, því hér þarf undirbúning, enda mun flestum hollast að vera ekki of nærri, þegar Galdraleifi leikur list sína.

**Ólafur Muður.** Ég ætla að verða eftir inni til að biðjast fyrir, svo bærinn sökkvi ekki af særingum. (Pétur, Jón og Repp búast til að ganga út).

**Repp.** Ætli það væri ekki óhætt, þó ég væri inni líka?

**Leifi.** Mig gildir einu hvar þú flækist (hvæsir framan í Repp. Hinir fara út og Repp hröklast út á eftir).

SJÖUNDA ATRIÐI

Galdraleifi og Ólafur Muður.

**Leifi.** Nú verður þú að fá einhvern mórauðan stakk og hafa molduga hettu á höfðinu, svo þú lítir nokkurn veginn út eins og draugur; þegar þú svo heyrir mig blístra, þá kemur þú inn.

**Ólafur Muður.** Ekki skal það vanta að ég líti nógu draugalega út. En hvað allir verða nú hræddir, þegar þeir sjá mig. En meðal annars, við skiftum peningunum á milli okkar. Það er ekki vert að láta Sölva hafa neitt af þeim. Það eru þá 15 krónur til hvors.

**Leifi.** Það getum við talað um seinna; farðu nú bara og flýttu þér að búa þig út. (Ólafur Muður fer út um hliðardyrnar).

ÁTTUNDA ATRIÐI

**Galdraleifi** (einsamall). He, he, galdralistin er ekki svo slæm atvinna, he, he. 30 krónur fyrir eina kveldstund. Það er dáindisgott. En svo ætlast Ólafur Muður til að fá helminginn, he, he. Ég held það verði ekki af því. Hann mætti þakka fyrir að fá þriðjung, en ég held það verði ekki af því heldur; ég snara kannske í hann einni krónu. En þá Sölvi; það er best að hann kalli eftir borgun hjá þessum skólagörmum fyrir uppfræðinguna, sem hann þykist hafa veitt þeim, því af 30 krónunum fær hann ekkert. Ég held ég verði að fara að vita hvað honum Ólafi líður. Ekki tjáir annað en að hann verði sæmilega voðalegur útlits. Alt þarf nú að vera með lagi gjört, he, he! (fer út um hliðardyrnar).

NÍUNDA ATRIÐI

Pétur, Þórður, Páll, Jón. (Þeir koma inn um aðaldyrnar).

**Þórður.** Hvað hefir gjörst til tíðinda síðan við Páll fórum út? Hvernig hefir ykkur Pétri og Jóni samið við þessa kolakarla?

**Pétur.** Alt fer svo ágætlega sem orðið getur. Leifi ætlar að sýna okkur draug. En nú skal ég segja ykkur, hvernig við verðum að hafa það. Þið Þórður og Páll verðið fyrst að vera úti. Páll verður að búa sig út sem draug. Svo þegar tími er til, kalla ég á þig Þórður, og þú lætst þá koma á sömu stundu sunnan úr skóla, og getur svo gefið Páli merki að koma. Og þá vona ég Páll, að þér verði ekki mikið fyrir að yfirstíga draug Galdraleifa, því það verður náttúrlega enginn annar en Ólafur Muður í draugsham, svo heilagur sem hann er.

**Páll.** Ég á þá að fara að verða draugur. Það skal ég gjöra með ánægju. Ekki trúi ég öðru en að ég geti átt í öllum höndum við herra Ólaf Muð, hvort sem hann er draugur eða menskur maður.

**Jón.** Heimafólkið ætti endilega að vera við til að horfa á leikinn, svo að það sjái með eigin augum, hvaða gersemispilta það hýsir. Skyldi ekki húsbóndinn fara að koma heim frá fénu?

**Þórður.** Jú, ég sá fullorðinn mann og pilt koma gangandi ofan frá húsum, rétt áður en við fórum inn. Það hafa víst verið þeir feðgar.

**Pétur.** Það eru sjálfsagt þeir, og því hljóta þeir að vera komnir heim núna, svo þá er hægt að gjöra þeim aðvart. En nú býst ég við að Galdraleifi sé búinn að færa Ólaf í skrúðann, og þá kemur hann inn aftur. Við verðum því að hafa okkur á burt. (Þeir fara).

TÍUNDA ATRIÐI

**Galdraleifi** (einsamall — hann kemur inn um hliðardyrnar). Þá held ég að Ólafur félagi sé nokkurnveginn þolanlega útbúinn. Gaman verður að sjá hvað allir verða nú logandi hræddir, þegar draugsi veður inn. Þeir skólapiltungarnir skulu fá að borga mér góðar 30 krónurnar til að koma draugnum fyrir aftur, he, he! —60 krónur er dáindis lagleg upphæð; hver veit nema maður geti haft það upp í hundrað krónur. Það er jafngott þó þeir fái að borga, þessir piltar. Ég held ég verði þá að fara að kalla á þá; það er óþarfi að vera að bíða lengur. (Kallar með drynjandi röddu): Komi nú allir inn! Ég bíð búinn.

ELLEFTA ATRIÐI

Pétur, Jón, Sölvi, Leifi, Repp, Guðmundur, Einar, Jórunn, Þóra. Síðar Ólafur Muður, Þórður, Páll.

**Repp.** Reynslan er sannleikur. En hvað er orðið af honum Ólafi Muð. Skyldi hann hafa sokkið sjálfur, þegar hann var að bjarga bænum?

**Jón.** Eða hafist upp til himna!

**Leifi.** Þei, þei!
Fram úr helgrimmu
húmi dauða
stíg þú moldrisinn
myrkrabúi.
Lifendum ógn
og undrun vektu,
frá þér andaðu
feigðargusti.

(Blístrar. Draugur kemur inn um hliðardyrnar. Allir verða hræddir, nema Leifi og Sölvi. Draugurinn færist hægt fram á gólfið, skimar í ýmsar áttir).

**Þóra** (skjálfandi). Ó, ef draugurinn ræðst nú á okkur.

**Sölvi.** Ekkert er að óttast heillin, ég er hér.

**Leifi** (glottandi). Hvernig líst skólapiltunum á?

**Pétur** (kallar). Æ, Þórður, Þórður, Þórður! (Leifa verður hverft við).

**Þórður** (kemur inn hvatlega. Til Péturs). Því ónáðar þú mig með þessu harki, þegar ég sit með kyrð og spekt við bækur mínar suður í skóla?

**Pétur** (aumingjalegur). Sérðu ekki drauginn, sem verið er að egna á okkur?

**Þórður** (sér drauginn). Nú, það er svona lagað. Vene Paula, vene sine mora!

**Draugur.** (Kemur inn, stærri og voðalegri en draugur Leifs, veður að Leifa draug, þrífur í brjóst honum og drynur):

Ólafur Muður
ætlarðu suður?
Ræð ég þér það rangkjaftur,
að þú snúir heim aftur!

**Ólafur** (fleygir draugsgervinu — æpir) Æ, vægð, vægð! Ég er ekki nema vesalings Ólafur.

**Þórður.** Til hvers ertu hingað kominn?

**Ólafur.** Ég er bara ferðamaður.

**Draugur.** Játaðu!

**Ólafur.** Æ, æ, ég er gamall betrunarhúslimur og flakka nú manna á milli og þykist vera einstaklega guðhræddur, til að láta gefa mér mat og peninga.

**Þórður** (til draugsa). Findu þennan pilt! (bendir á Leifa — til Leifa). Játa þú, hvað þú hefir aðhafst. (Draugurinn gengur til Leifa).

**Leifi.** Vægið þið mér. Ég var í betrunarhúsinu með honum Ólafi. Ég hefi þótst vera galdramaður til að hræða fólk og hafa út úr því peninga, en það er ekki nema dálítinn tíma, að ég hefi haft það fyrir stafni.

**Þórður.** Játið þið alt.

**Ólafur.** Við erum bæði þjófar og bófar, en þó er Sölvi okkar verstur.

**Sölvi.** Nei, ég er heimspekingur.

**Þórður** (til draugsins). Hittu hann. (Draugurinn gengur að Sölva).

Sölvi. Þeir segja satt. (Draugurinn sleppir honum). (Hálfhátt). En ég er samt spekingur.

Þórður. Hérna er einn enn (lítur til Repps). Það er best að hann fái líka að játa sig. (Draugurinn gengur að Repp).

**Repp.** Verið þér góður, herra draugur. Ég hefi ekkert ilt gjört. Ég er oft bara í sendiferðum fyrir höfðingja, og hérna hafa þeir skrifað hin og þessi spakmæli í vasabókina mína. Mér þótti einstaklega vænt um, þegar skólapiltarnir komu, því ég kann best við að vera meðal lærðra manna.

**Draugurinn.** Játaðu.

**Repp.** Æ, vægð, herra draugur. Ég þykist stundum vera nokkuð mikill maður og kunna það sem ég ekki kann. Ég raupa stundum nokkuð í meira lagi.

**Páll** (fleygir draugsgervinu). Já, já, Repp minn. (Skólapiltarnir hlæja. Sölvi, Leifi og Ólafur verða sneyptir).

**Guðmundur.** Ég þakka skólapiltunum kærlega fyrir, að hafa opnað augun á mér og dregið hrekkjagrímuna af þessum flökkurum.

**Jórunn.** Ég er líka skólapiltunum innilega þakklát.

**Einar.** (Til Þóru). Eru þau ekki góð, grösin hans Sölva, sem þú varst að segja mér frá áðan?

**Þóra.** Þú getur fengið að reyna þau, þegar þú ert kominn á heimspekingafrakkann.

**Jón.** (Til Ólafs og Leifs). Það sem þið hafið lært hér í kvöld er ekki síður fróðlegt og nytsamt en allar þær listir sem honum Sölva voru kendar, þegar hann var á háskólanum í Kaupmannahöfn, en sá háskóli mun nú líklega réttu nafni hafa heitið betrunarhús.

**Sölvi.** Það er verið að draga dár að Sölva. Það skal ekki lengi vera; ég fer að hafa mig af stað.

**Leifi** og **Ólafur.** Við förum líka.

**Pétur:**

Gangið nú héðan
götuna breiðu,
blekkið ei oftar
ókunna menn.

**Þórður:**

Yðar um ævi
aldrei sú líði
hrakför úr minni
er hér fóruð þér.

**Jón:**

Sanna þú Sölvi,
síðar mun vefjast
tunga um tennur
talliprum þér.

**Sölvi:**

Lí ég sem leiftur
lífið í gegnum.
Heimurinn festir ei
hendur á mér.

**Þórður:**

Fremdu ei framar
fjölkyngi Leifi.

**Leifi:**

List þá ei framar
leika ég skal.

**Páll** (til Ólafs):

Hættu að hræsna,
hygðu af glæpum.

**Ólafur:**

Eg heyri ekki meira,
en hef mig af stað.

**Sölvi, Leifi, Ólafur:**

Við heyrum ei meira,
og höldum af stað. (Þeir fara).

**Pétur:**

Mein er þeim manni
í myrkur sem ratar,
böl sér því sjálfur
bakar hann mest.

**Páll:**

Lúta má lygi
lægra í haldi.

**Repp:**

Sýnir æ reynslan, sko!
sannleika þann.

**Allir** (Til áhorfendanna):

Látum svo lokið
leik þessum bræður;
höfum nú hagnýtt
hverfandi stund.
Ferðamenn erum,
áfram skal halda.
Í guðs friði, gott fólk;
vér göngum á braut.

(Tjaldið fellur)

# Helztu viðburðir

**meðal Íslendinga vestan hafs 1958**
**RICHARD BECK tók saman**

3. jan. — Séra Philip M. Pétursson endurkosinn í Spítalaráð Winnipegborgar (Municipal Hospital Commission) til þriggja ára.

Jan. — Frú Guðmunda Elíasdóttir, söngkona í New York borg, í hópi listafólks og starfsmanna útvarps- og sjónvarpsstöðva, sem Kirkjuráð Washington-borgar veitti sérstaka viðurkenningu fyrir framúrskarandi störf í þágu kirkjunnar.

Jan. — Forsætisráðherrann í Canada skipaði Gunnar Sólmund Thorvaldson, lögfræðing í Winnipeg, þingmann (Senator) í efri málstofu canadiska þjóðþingsins, og er hann fyrsti maðurinn af íslenzkum ættum vestan hafs, sem sú sæmd hefir fallið í skaut. Hann er fæddur í Riverton, Manitoba, 1901, sonur þeirra Sveins kaupmanns Thorvaldson, frá Dúki í Sæmundarhlíð í Skagafirði, og konu hans Margrétar Sólmundardóttur frá Máfahlíð í Borgarfjarðarsýslu, sem bæði eru látin.

Febr. — Um þær mundir gerði framkvæmdarstjórn The Great West lífsábyrgðarfélagsins kunnugt, að Stefán Hansen, hefði verið skipaður vara-forseti og framkvæmdastjóri hóptrygginga hjá félaginu (Vice-President and Director of Group Insurance).

24.—26. febr. — Þrítugasta og níunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Winnipeg við góða aðsókn. Dr. Richard Beck var endurkosinn forseti; stuttu seinna endurkaus stjórnarnefndin Gísla Jónsson ritstjóra Tímarits félagsins. Heiðursfélagi var kjörinn Guðmann Levy, er gegnt hefir embætti fjármálaritara félagsins samfleytt í aldarfjórðung.

Marz — Blaðafrétt skýrir frá því, að dr. Keith Grimson, prófessor í skurðlækningum við Duke University, Durham, North Carolina, hafi af hálfu læknisfræðiritsins **Modern Medicine** verið sæmdur heiðursviðurkenningu (Distinguished Achievement Award) fyrir frábæran skerf sinn á sviði læknisfræðilegra rannsókna. Hann er sonur þeirra Guðmundar Grimson, dómstjóra hæstaréttar Norður-Dakota ríkis, í Bismarck, N. Dak., og frú Inu konu hans.

Marz — Walter J. Lindal dómari kosinn forseti nýs blaðamannafélags, Canadian Ethnic Press Federation, á stofnfundinum í Ottawa, en að þeim samtökum standa útgefendur og ritstjórar þeirra blaða í Canada, sem gefin eru út á öðrum tungumálum en ensku og frönsku.

14. marz — Jón Sigurdson félagið (I.O.D.E.) í Winnipeg efndi til samsætis til heiðurs frú J. B. Skaptason í tilefni af áttræðisafmæli hennar, en hún er stofnandi félagsins og var forseti þess í 17 ár.

Marz — Blaðafrétt greinir frá því, að félag bílaeigenda í Reykjavík hafi boðið þeim Sveini Oddsson,

prentara í Winnipeg, Páli Bjarnason, skáldi í Vancouver, B.C., og Jóni Sigmundsson, bílaviðgerðarmanni í Arlington, Virginia, til Íslands á komandi sumri, því að þá verða 45 ár liðin síðan þeir Sveinn og Jón komu með fyrsta Ford-bílinn til landsins, en Páll annaðist um bílakaupin. Þeir Sveinn og Páll, ásamt frú hins síðarnefnda, þágu boðið, en Jón gat eigi farið sökum heilsubilunar.

Marz — Í þeim mánuði heimsótti dr. Einar Ólafur Sveinsson, prófessor í íslenzkum bókmenntum við Háskóla Íslands, byggðir Íslendinga í Norður-Dakota og Manitoba og flutti fyrirlestra á háskólunum í N. Dakota og Manitoba, og einnig opinberan fyrirlestur í Winnipeg á vegum Þjóðræknisfélagsins. Var prófessorinn í fyrirlestrarferð um Bandaríkin í boði Utanríkisráðuneytis þeirra; í för með honum var kona hans, frú Kristjana Þorsteinsdóttir.

31. marz — Við sambandskosningarnar í Canada var Eric Stefánsson, kaupmaður á Gimli, kjörinn þingmaður Selkirk-kjördæmis, og William Benidicson endurkosinn þingmaður í Kenora Rainy-River kjördæminu í Ontario.

28. apríl — Þjóðræknisfélagið og The Icelandic Canadian Club héldu samsæti til heiðurs G. S. Thorvaldson og frú hans í tilefni þess, að hann hafði stuttu áður og fyrstur Íslendinga vestan hafs, verið skipaður þingmaður (Senator) í efri málstofu þjóðþingsins canadiska.

8.—11. maí — Aldarafmæli Minnesotaríkis minnst með virðulegum og fjölþættum hátíðahöldum. Fulltrúar Íslands voru þau Ambassador Thor Thors og frú Ágústa Thors, og í fylgd með þeim Stefán Hilmarsson, ritari íslenzka sendiráðsins í Washington. Íslendingar í Minnesota tóku með ýmsum hætti þátt í hátíðahöldunum, og komu þar mest við sögu þeir bræður, Valdimar Björnsson ríkisféhirðir og Björn Björnsson, ræðismaður Íslands í Minnesota. Meðal annarra Íslendinga, er tóku opinberan þátt í samkomuhöldunum voru Grettir L. Jóhannsson, ræðismaður Íslands í Sléttufylkjunum í Canada, og dr. Richard Beck, ræðismaður Íslands í Norður-Dakota og forseti Þjóðræknisfélagsins.

Maí — Á því vori lét séra Kolbeinn Sæmundsson í Seattle, Wash., af embætti eftir 30 ára starf sem prestur St. James lútersku kirkjunnar þar í borg við miklar vinsældir. Hélt söfnuðurinn honum veglegt kveðjusamsæti.

Maí — Séra Robert Jack, fyrrum prestur í Árborg, Man., sem verið hafði á fyrirlestrarferð um Bandaríkin í boði Utanríkisráðuneytis þeirra og annarra aðila, prédikaði og flutti erindi á ýmsum stöðum meðal Íslendinga í Manitoba.

Maí — Blöð flytja þá frétt, að H. Raymond Beck, sonur þeirra Jóhanns T. og Svanhvítar Beck í Winnipeg, hafi verið skipaður yfirverkfræðingur á sínu starfssviði (Acting Signal Engineer) fyrir allt Canadian National járnbrautarkerfið, með bækistöðvar í Montreal. Hann er raffræðingur að menntun og hefir verið í þjónustu umrædds félags síðan 1949.

16. maí — Eftirfarandi námsfólk

af íslenzkum ættum lauk prófi við Manitoba-háskóla (University of Manitoba):

**Master of Laws:**
Kristinn Holman Olson.

**Master of Social Work:**
Margaret (Pálsson) Ramsay, B.A., B.S.W.

**Bachelor of Arts:**
Guðmundur Kristján Breckman
Beverley May Peterson.

**Bachelor of Science in Pharmacy:**
Jacquelyn Eyríkson.

**Bachelor of Commerce:**
John Garth Árnason.

**Bachelor of Science (Honors Course):**
Wilbur Jacob Jónsson.

**Bachelor of Science in Engineering (Civil):**
Victor Mundy Austfjord
Siggi Goodbrandson
Eric Osborne Ísfeld
Barry Kent Stinson.

**Electrical Engineering:**
Brian Jónas Jóhannesson.

**Mechanical Engineering:**
Sigurður Baldwin Thorsteinson
John Ivan Jóhannson.

**Bachelor of Architecture:**
Harry Erickson
Terence Pjetur Júlíus Tergesen.

**Bachelor of Education:**
Eric Valgardur Hjartarson, B. Sc.
Jean Thórunn Law, B.A., B.Com. Honors).
Margaret Mary Page, B.A.
Haraldur Victor Vidal, M.A.

**Bachelor of Pedagogy:**
Wilfred Leonard Árnason, B.S.A.
Allen Michael Johnson, B.A.

**Law — First Year:**
Sveinn Albert Thorvaldson.

**Diploma in Agriculture:**
William Eiríksson
Donald Magnús Wilson.

**Diploma in Dairying:**
Theodor Erlendur Erlendson.

Maí — Jón Valdimar Eylands, sonur séra Valdimars J. og Lilju Eylands í Winnipeg, lauk læknisprófi með lofsamlegum vitnisburði frá McGill háskólanum í Montreal, Quebec.

Maí — Eftirfarandi námsfólk af íslenzkum ættum var brautskráð frá Saskatchewan-háskóla (University of Saskatchewan):

**Bachelor af Arts:**
Arthur Rodney Thorfinnson, Saskatoon.
John Leifur Bergsteinsson, Saskatoon.

**Bachelor of Science in Engineering:**
Donald Gene Ólafson, Windthorst.

**Hospital Laboratory Technician Diploma:**
Sharon Rose Björnsson, Smeaton
Ingibjörg Gíslason, Wynyard
Edna Shirley Grímson, Mozart
Eleanor Velma Paulson, Swift Current.

**Associate in Arts:**
Morine Barbara Baldwinson, Regina.

21. maí — Joseph T. Thorson, dómsforseti fjármálaréttarins í Canada (The Exchhequer Court of Canada) sæmdur heiðursdoktors nafnbót í lögum af Manitoba-háskóla.

8. júní — Við vorprófin á ríkisháskólanum í Norður-Dakota (University of North Dakota) luku prófi þessir stúdentar af íslenzkum stofni:

**Bachelor of Science in Education** — (and Bachelor's Diploma in Teaching):
Viola Katherine Halldórson, Mountain
Sharon Kay Stefánson, Grand Forks.

**Bachelor of Laws:**
A. E. Elroy Árnason, B.S.C., Grand Forks.

**Bachelor of Science**
(from the School of Medicine):
Robert Lee Gestson, Gardar (með háum heiðri).
R. S. Lyle Hillman, Mountain (með heiðri).
George Magnús Johnson, Bismarck.

**Bachelor of Science**
(in Business Administration):
Kenneth Franklin Jóhannson, Langdon (forystumaður í félagslífi stúdenta).

8. — 11. júní — Hið 74. ársþing Hins ev. lút. Kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Winnipeg. Séra Eric H. Sigmar var endurkosinn forseti. Á þinginu voru vígðir til prests guðfræðikandidatarnir Donald Olsen og Wallace Bergman; ennfremur var frú Laufey Olson, ekkja séra Carls C. Olson, vígð djáknavígslu.

16. júní — Við fylkiskosningar í Manitoba var Dr. George Johnson, spítala- og héraðslæknir á Gimli, kosinn þingmaður fyrir Gimli-kjördæmi og Elman Guttormson endurkosinn fyrir St. George kjördæmi.

17. júní — Lýðveldisdags Íslands minnst með hátíðahaldi þann dag eða um það leyti víðsvegar meðal Íslendinga vestan hafs.

Júní — Blaðafrétt frá Grand Forks, N. Dakota, skýrir frá því, að dr. Richard Beck hafi verið kosinn vara-forseti skáldafélagsins "The American Poetry League," sem hefir bækistöðvar sínar í Kingsville, Texas, en hann hafði áður átt sæti í stjórnarnefnd félagsins.

18.—19. júní — Þrítugasta og annað ársþing Únítara kvennasambandsins (Sambands Frjálstrúar kvenfélaga) haldið í Winnipeg. Mrs. S. E. Björnsson var endurkosin forseti. Ræðumaður á aðalsamkomu þingsins var séra Friðrik A. Friðriksson prófastur á Húsavík.

Júní — Joseph T. Thorson, dómsforsti fjármálaréttarins í Canada og forseti Alþjóðaráðs lögfræðinga (International Commission of Jurists) og frú hans dvöldu vikutíma á Íslandi. Hann flutti fyrirlestur (á íslenzku) á vegum Lögfræðingafélags Íslands. Í Íslandsferðinni sæmdi forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson, dr. Thorson stórkrossi Hinnar íslenzku Fálkaorðu, og er hann fyrsti Vestur-Íslendingur, sem sá fágæti sómi hefir sýndur verið.

20.—22. júní — Þrítugasta og fjórða ársþing Bandalags lúterskra

kvenna haldið að Husavick, Manitoba. Miss Ingibjörg S. Bjarnason endurkosin forseti.

Júní —Tilkynnt, að séra Haraldur S. Sigmar, frá Kelso, Wash., sem kennir guðfræði við Háskóla Íslands, hafi verið veittur "Fullbright" námsstyrkur fyrir árið 1958—'59.

27.—30. júní — Ársþing "The Western Canada Unitarian Conference" (áður Hið Sameinaða Kirkjufélag Íslendinga) haldið í Edmonton, Alberta. Séra Philip M. Pétursson endurkosinn útbreiðslumálastjóri.

Júní — Laust fyrir lok þess mánaðar skipaði forsætisráðherrann í Manitoba, herra Dufferin Roblin, dr. George Johnson fylkisþingmann heilbrigðis- og velferðarmálaráðherra í hinu nýja ráðuneyti sínu. Hinn nýi ráðherra er fæddur í Winnipeg og íslenzkur í báðar ættir, sonur Johns Johnson (látinn), fyrrum deildarstjóra hjá T. Eaton félaginu, og konu hans Laufeyjar Johnson.

29. júní — Séra Donald Olsen settur í embætti sem sóknarprestur íslenzka prestakallsins í Argyle í Manitoba við fjölsótta messu að Grundarkirkju þar í byggð. Séra Eric H. Sigmar, forseti Kirkjufélagsins lúterska, framkvæmdi innsetninguna með aðstoð dr. Valdimars J. Eylands, fyrrv. forseta félagsins.

Júní — Í fegurðarsamkeppni, sem fram fór í Winnipeg í sambandi við stórbrotna Red River sýningu þar í borg, og tuttugu blómarósir víðsvegar tóku þátt í, varð Miss Heather Sigurdson hlutskörpust og hlaut titilinn "Miss Manitoba." Seinna á sumrinu (í ágústmánuði) varð hún önnur í röðinni í samkeppni milli 24 stúlkna úr öllum fylkjum landsins um Miss Canada titilinn og hlaut $500.00 námsverðlaun. Hún er dóttir þeirra Jóhanns Sigurdson í Winnipeg og konu hans, og dótturdóttir þeirra Guttorms skálds og Jensínu Guttormsson.

Júlí — Í byrjun júlí komu vestur um haf til þess að vinna að skráningu vestur-íslenzkra ævisagna: Árni Bjarnarson, bókaútgefandi á Akureyri, ásamt frú sinni, Steindór Steindórsson, yfirkennari á Akureyri, og Gísli Ólafsson, lögregluþjónn sama staðar. Í ágústbyrjun kom séra Benjamín Kristjánsson á Laugalandi vestur um haf í sömu erindum. Dvaldi hópur þessi vestan hafs fram í september og unnu þeir félagar að söfnun og skráningu ævisagna víðsvegar í byggðum Íslendinga.

Júlí — Blöð á Íslandi fluttu þá frétt, að vestur-íslenzki iðjuhöldurinn Soffonías Þorkelsson, sem þá dvaldi á Íslandi ásamt konu sinni, hefði ákveðið að gefa 100 þúsund krónur til skógræktar í Dalvíkurhreppi. Soffonías er fæddur og uppalinn í Svarfaðardal og hefir áður sýnt fæðingarsveit sinni mikla ræktarsemi.

28. júlí — Árlegur Íslendingadagur haldinn við Friðarbogann (Peace Arch Park) í Blaine, Washington. Um helgina næstu á undan héldu Íslendingar í Seattle Íslendingadag sinn að Martha Lake í nágrenni borgarinnar.

4. ágúst — Hinn sextugasti og níundi Íslendingadagur haldinn að Gimli, Man. Aðalræðuna á íslenzku flutti Steindór Steindórsson yfirkennari frá Akureyri.

Sept. — Senator G. S. Thorvaldson skipaður fulltrúi efri málstofu Canadiska þjóðþingsins (Senatsins) á þingi Sameinuðu þjóðanna.

17. sept. — Þann dag átti frú Margrét Ólafsson í Selkirk, Manitoba, hundrað og fimm ára afmæli. Hún er talin elzt af íbúum Manitobafylkis og vafalaust elzt allra Íslendinga vestan hafs; er hún enn mjög ern eftir aldri.

Sept. — Vestur-íslenzk blöð flytja þá frétt, að fyrr á sumrinu hafi herra Thor Thors, ambassador Íslands í Canada, borist tilkynning um það, að stofnunin Canada Council hafi veitt íslenzkum námsmanni styrk, og hafi Gunnar Ragnarsson frá Reykjavík orðið fyrir valinu.

Október — Rétt fyrir miðjan þann mánuð kom söngkonan Guðrún Á. Símonar til Winnipeg á vegum Þjóðræknisfélagsins og Canada-Iceland Foundation. Hélt hún söngsamkomur á ýmsum stöðum í Manitoba og einnig vestur á Kyrrahafsströnd beggja megin landamæranna, en aðalsamkomu sína hélt hún í Playhouse leikhúsinu í Winnipeg 5. nóvember við góða aðsókn. Þar sem annars staðar var söng hennar tekið með mikilli hrifningu og fóru söngdómarar stórblaðanna um hana miklum lofsyrðum.

Okt. — Á ársþingi Læknafélagsins í Manitoba (Manitoba Medical Association), sem haldið var í Winnipeg, var dr. Edward Johnson, Selkirk, kosinn forseti félagsins fyrir næstkomandi ár. Á félagið sér nú hálfrar aldar sögu að baki.

24. okt. — Þann dag átti skáldkonan, frú Jakobína Johnson, í Seattle, Wash., 75 ára afmæli, og var hún af því tilefni heiðruð með fjölmennu samsæti, sem íslenzk og önnur norræn félög þar í borg efndu til.

Okt. — Blaðafrétt skýrir frá því, að dr. Thorvaldur Johnson, sem er víkunnur vísindamaður á sínu sviði, hafi hlotið styrk til grasfræðilegra rannsókna frá stofnuninni "The Agricultural Institute of Canada."

4. nóv. — Við almennar kosningar í Bandaríkjunum var Valdimar Björnsson, Minneapolis, endurkosinn ríkisféhirðir í Minnesota.

Nóv. — Dr. Vilhjálmur Stefánsson landkönnuður flutti fyrirlestra í boði ríkisháskólans í Norður-Dakota og fylkisháskólans í Manitoba, í samsæti, sem Þjóðræknisfélagið hélt honum til heiðurs í Winnipeg, og einnig ræður á samkomum á æskustöðvum sínum á Mountain, N. Dakota, og í Árborg, Manitoba. Frú Evelyn Stefánsson, sem einnig er kunnur rithöfundur, var í för með manni sínum.

21. nóv. — Þann dag varð Guttormur J. Guttormsson, skáld á Víðivöllum í Nýja Íslandi, áttræður, og var honum margvíslegur sómi sýndur beggja megin hafsins. Þ. 6. desember hélt Þjóðræknisfélagið samsæti í Winnipeg til heiðurs honum og frú Jensínu konu hans. Aðalræðuna flutti prófessor Haraldur Bessason.

Des. — Í lok ársins lét Guðmundur Grímson dómari, forseti hæstaréttar Norður-Dakota ríkis, af embætti fyrir aldurs sakir, en hann átti áttræðisafmæli 20. nóvember. Á hann sér að baki mjög merkan starfsferil og farsælan að sama skapi.

# Mannalát

## OKTÓBER 1957

24. Páll Thomasson, lengi bóndi í Mozart, Sask., á sjúkrahúsi í Wadena, Sask. Fæddur 1. febr. 1876 í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar: Tómas Jóhannsson og Guðrún Árnadóttir. Kom vestur um haf til Norður-Dakota 1888. Forystumaður í sveitarmálum.

28. Magnús Jónsson Skardal, í Baldur, Man. Fæddur 20. jan. 1870 að Breiðstöðum í Gönguskörðum í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar: Jón Jónsson og Björg Bjarnadóttir. Kom til Ameríku 1902 og settist þá þegar að í Argyle-byggðinni í Manitoba.

## DESEMBER 1957

3. Alexandra Margrét Erickson, kona Bergsveins Erickson, í Mary Hill, Man., á sjúkrahúsi í Eriksdale, Man. Fædd að Gimli 1902. Foreldrar: Halldór og Rósa Brynjólfsson. Kennari um langt skeið.

5. Petrún Kristjánsson, ekkja Kristjáns Kristjánssonar landnámsmanns, í Bredenbury, Sask., hnigin að aldri. Fluttist vestur um haf til Canada aldamótaárið.

17. Halldóra Geirsdóttir Helgason, kona Þórðar Helgasonar, í Vancouver, B.C. Fædd 15. des. 1875 á Raufarhöfn í N.-Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Geir Finnur Gunnarsson og Valgerður Jónsdóttir. Kom til Vesturheims árið 1890.

## JANÚAR 1958

2. Sólveig Bjarnarson, ekkja Árna Bjarnarsonar, á elliheimilinu „Betel,“ Gimli, Man. Fædd 9. ágúst 1871. Foreldrar: Jón Jónsson frá Skútustöðum við Mývatn og María Gísladóttir skálds í Skörðum. Kom vestur um haf til Selkirk 1892.

2. Kristján (Chris) Goodman, í Vancouver, B.C. Sjötugur að aldri, fyrrum bústtur í Winnipeg.

3. Selma Audrey Wade, kona Thomas Warner Wade, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 23 ára að aldri. Foreldrar: Ingi og Kristín Benson, sem lengi hafa átt heima í Winnipeg.

5. Bjarni Valtýr Johnson, að heimili sínu í Sacramento, Calif. Fæddur 28. júlí í Íslendingabyggðinni í N. Dakota. Foreldrar: Guðmundur smiður Johnson og Sigríður Bjarnadóttir. Fyrrum landnámsmaður í Gull Lake byggð í Saskatchewan.

6. Hannes Pálmason yfirskoðunarmaður í Winnipeg, rúmlega sjötugur að aldri. Fæddur að Parry Sound, Ontario, en alinn upp í Keewatin, Ont.

8. Guðrún Steingrímsdóttir Guðmundsson, ekkja Guðmundar Elíasar Guðmundssonar, í Point Roberts, Wash. Hún var fædd að Kópareykjum í Borgarfirði syðra 5. okt. 1870. Foreldrar: Steingrímur Grímsson og Guðrún Jónsdóttir. Kom til Ameríku með manni sínum aldamótaárið. Alsystir Guðmundar Grímssonar hæstaréttardómara í N. Dakota.

12. Aðalrós Hólm, ekkja Egils Hólm, frá Víðir, Man., á sjúkrahúsi í Árborg, Man. 71 árs að aldri.

19. Kristján Árnason, einn af frumherjum þeirrar byggðar, á sjúkrahúsi í Foam Lake, Sask. Fæddur 30. maí 1887 í Neshjáleigu í Loðmundarfirði. Foreldrar: Bjarni og Ástríður Árnason; fluttist með þeim 16 ára gamall vestur um haf til N. Dakota.

21. Thordís Kristine Markússon, kona Ólafs Markússon, frá Gimli (fyrrum að Árnesi), á sjúkrahúsi í Winnipeg. Sextug að aldri; fædd á Íslandi, en fluttist til Canada á barnsaldri.

23. Sigurður Hnappdal, á hjúkrunarhæli í Winnipeg, 77 ára gamall. Fæddur á Íslandi, en kom til Winnipeg 6 ára að aldri.

25. Hreiðar Skaftfeld múrhúðari, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur að Hátúni í Vestur-Skaftafellssýslu 27. jan. 1873. Foreldrar: Hreiðar Bjarnason og Júlíana Magnúsdóttir. Kom til Canada aldamótaárið. Forystumaður í félagsmálum vesturíslenzkra Góðtemplara.

26. Jón Gunnlaugur Snidal tannlæknir, í Winnipeg, 78 ára að aldri. Fæddur að Húsavík, Man., en búsettur í Winnipeg síðastliðin 53 ár.

29. Soffía (Ragnheiður Guðmundsdóttir) Goodwin hjúkrunarkona, á Deer Lodge sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd 7. marz 1894 að Geysir, Man. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson og Margrét Jónsdóttir, bæði húnvetnsk, er bjuggu um langt skeið að Geysir.

30. Sesselja Halldórsson, kona Halldórs J. Halldórsson, í Burnaby, B.C. Fædd í Haukadal í Dalasýslu 11. okt. 1873. Foreldrar: Oddur Magnússon og Margrét Ólafsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf til N. Dakota árið 1886.

30. Bjarni Ingimundson, á heimili sínu í Langruth, Man., 98 ára gamall. Kom til Canada frá Íslandi fyrir 72 árum. Nam fyrst land í Churhbridge, Sask., en í Langruth árið 1894.

31. Ólafur Ólafsson bílasali frá Birtle, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur í Saltcoats, Sask., 61 árs að aldri, en átti lengst af heima í Manitoba.

### FEBRÚAR 1958

2. Baldwin Vigfússon frá Árborg, Man., í bílslysi í grennd við Lockport, Man., 18 ára að aldri.

3. Gunnar Thorláksson frá Winnipeg, á sjúkrahúsi í Morden, Man. Fæddur að Mountain, N. Dakota, 12. sept. 1890, en lengstum búsettur í Winnipeg, starfsmaður hjá T. Eaton félaginu í 30 ár.

4. Finnbogi Guðmundsson frá Mozart, Sask., á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask., 87 ára að aldri. Foreldrar: Guðmundur Finnbogason og Guðlaug Eiríksdóttir, sem bjuggu að Þorgrímsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Fluttist með þeim til Akra-byggðar í N. Dakota árið 1887, en settist að í Mozart-byggð 1917.

5. Jón Pétur Bergþórsson frá Lundar, Man., í Ashern, Man. Fæddur 23. marz 1885. Foreldrar: Bergþór Jónsson og Vilhelmína Eyjólfsdóttir frá Möðrudal á Fjöllum. Kom með þeim til Manitoba sex ára gamall.

6. Lára Johnson Burns, ekkja William John Burns, í Winnipeg. Fædd í Selkirk, Man., 1883. Foreldrar: Jón Sigurjónsson frá Einarsstöðum í N. Þingeyjarsýslu og Sigurveig Gísladóttir.

7. Clifford Paul Hjaltalín rafmagnsverkfræðingur, lengi starfsmaður Winnipeg Electric Railway félagsins, á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man. Hann var sonur Guðjóns Hjaltalín skósmíðameistara í Winnipeg, sem látinn er fyrir mörgum árum.

10. Kristín Pottruff, á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man., 69 ára að aldri. Fædd í Winnipeg, dóttir Kristjáns Ólafssonar og fyrri konu hans.

11. Ásta Júlíana Magnússon, ekkja Helga Magnússon, í Selkirk, Man., 81 árs að aldri. Hafði verið búsett í Selkirk í 55 ár.

16. Aðalheiður Johnson Winsauer, í Bellingham, Wash. Fædd í Blaine, Wash., 12. júlí 1913. Foreldrar: Mikael Guðjón Jónsson (Johnson) og Ástríður Jónsdóttir.

19. Þórunn Vigfúsína Beck, ekkja Hans K. Beck (d. 1907) í Litlu-Breiðuvík í Reyðarfirði, á elliheimilinu „Betel," Gimli, Man. Fædd í Litlu-Breiðuvík 29. júní 1870. Foreldrar: Vigfús Eiríksson og Valgerður Þórólfsdóttir. Kom vestur um haf til Winnipeg með Richard syni sínum síðla sumars 1921 og hafði lengstum átt heima þar í borg.

21. Thorbergur Thorbergsson, starfsmaður hjá Canadian National járnbrautarfélaginu, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 65 ára gamall. Fæddur í Churchbridge, Sask., en ættaður úr Skagafirði.

23. Sigurður S. Anderson, á ellihæli í Winnipeg. Fæddur 22. júní 1870 á Stóru-Vatnsleiðslu í Gullbringusýslu. Foreldrar: Sigurður (Andrésson) Anderson, frá Hemlu, og Guðrún Eiríksdóttir, af Birtingaholtsætt. Kom vestur um haf 1887 til Hallson-byggðar í N. Dakota, en gerðist seinna landnámsmaður í Piney, Man., og bjó þar um langt skeið. Áhugamaður um sveitarmál.

24. Sveinn Ernest Brynjólfsson, í Lombard, Illinois. Fæddur í Winnipeg 12. apríl 1914. Foreldrar: Ingi og Susy Brynjólfson.

25. Ingibjörg Hóseasdóttir, í Mozart, Sask. Fædd 24. nóv. 1867 í Jórvík í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Foreldrar: Hóseas Björnsson frá Meiðavöllum í Kelduhverfi og Guðbjörg Gísladóttir bónda á Höskuldsstöðum. Kom vestur um haf með ættfólki sínu 1903, fyrst til Argyle-byggðar í Manitoba, en nam tveim árum síðar land í grennd við Mozart. Annáluð hannyrðakona.

Febr. — Seint í þeim mánuði, Theodore Vatnsdal, bóndi í Hensel-byggðinni í N. Dakota, nálega sextugur að aldri, sonur Elíasar E. Eggertsonar Vatnsdal (d. 1956), sem lengi bjó í grennd við Hensel.

### MARZ 1958

5. John Hendrickson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 66 ára gamall. Fæddur á Íslandi, en fluttist vestur um haf á unga aldri, og hafði átt heima í Winnipeg í 56 ár.

6. Guðrún Friðrika Bristow, að Gimli, Man., 86 ára að aldri, ein af frumherjum Gimli-byggðar.

10. Sigurjón Jóhannsson, á heimili sínu í grennd við Gimli, Man. Fæddur 6. jan. 1878 að Hamri í Húnavatnssýslu. For-

eldrar: Jóhann Thorláksson og Steinunn Jónsdóttir. Fluttist vestur um haf til Nýja Íslands fimm ára gamall.

10. Benjamín Magnússon, í Selkirk, Man., 73 ára að aldri.

14. Sigfús Franklin Pétursson, frá Víðir, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur í Riverton 1. febrúar 1885. Foreldrar: Sigfús Pétursson og Guðrún Gróa Sveinsdóttir, bæði ættuð úr Norður-Múlasýslu. Komu til Canada 1878 og settust að í grennd við Riverton, Man.

19. Christian Swanson, fyrrum að Glenboro, Man., á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man., 63 ára. Fæddur að Otto, Man., en hafði verið bóndi í Glenboro um 50 ár.

21. Jakob Kristinn Stephansson bóndi, á heimili sínu í grennd við Markerville, Alberta. Fæddur 8. júní 1887 að Garðar, N. Dakota. Foreldrar: Stephan G. Stephansson skáld og Helga Jónsdóttir. Fluttist með foreldrum sínum til Alberta árið 1889.

27. Stefán Gudjohnsen, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C., 78 ára að aldri. Búsettur í Vancouver um langt skeið.

30. Kristinn Pétursson húsamálari, að heimili sínu í Oak Point, Man. Fæddur 7. sept. 1888 á Neðri Hvestu í Selárdalssókn í Barðastrandarsýslu. Foreldrar: Pétur Björnsson skipstjóri og Jónína Kristjánsdóttir. Kom til Canada 1909 og átti lengstum heima í Winnipeg. Fróðleiksmaður mikill og kunnur fyrir ritstörf.

## APRÍL 1958

8. Bjarnthór Lífman umboðsmaður trygginga, að heimili sínu í Árborg, Man., 73 ára gamall. Kom af Íslandi til Nýja Íslands tveggja ára að aldri. Forystumaður í málum sveitar sinnar.

10. Elína Egilsson, á heimili sínu í Winnipeg, 69 ára gömul. Fædd í Calderbyggðinni í Saskatchewan; foreldrar: landnámshjónin Jóhannes Einarsson og Sigurlaug Þorsteinsdóttir.

11. Albert Júlíus Goodman, á sjúkrahúsi í Winniptg, áttræður að aldri. Skagfirðingur að ætt, en kom til Manitoba fyrir 68 árum. Lengi umsjónarmaður með fiskveiðum fyrir hönd fylkisstjórnarinnar í Manitoba.

16. Kristján Joseph Johnson fiskimaður, að heimili sínu á Gimli, Man. Fæddur í Húsavík, Man., og átti þar jafnan heima.

18. Ragnhildur Guðmundsson, kona Þorsteins Guðmundssonar, í Leslie, Sask. Fædd 27. apríl 1887. Foreldrar: Jón Jónsson alþingismaður frá Sleðbrjót í Norður-Múlasýslu og Guðrún Jónsdóttir. Kom vestur um haf með foreldrum sínum 1903.

25. Halldór Ólafur Magnússon, á heimili sínu að Lundar, Man. Fæddur 26. apríl 1865 á Höfða á Völlum, en ólst upp í Márseli í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu. Flutti Vestur um haf 1905 og stundaði búskap norður við Manitobavatn í meir en 30 ár.

29. Ágúst S. Árnason, landnámsmaður, í Glenboro, Man., 72 ára að aldri. Fæddur í Argyle-byggð. Forystumaður í safnaðar- og öðrum sveitarmálum.

Apríl — Í þeim mánuði lézt Gunnar Alexander á sjúkrahúsi að Gimli, Man., 40 ára að aldri. Fæddur í Árborg, Man., sonur Gunnars Alexanders og konu hans.

Apríl — Einar Anderson, í Toronto, Ont. 63 ára gamall. Fyrrum búsettur í Winnipeg.

## MAÍ 1958

11. Jóhann Elíasson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 47 ára gamall. Fæddur á Gimli, en hafði verið búsettur í Winnipeg í 23 ár.

14. Jóhann Bjarnason fiskimaður, á Gimli, þar sem hann var fæddur og uppalinn; 54 ára að aldri.

15. Sigurjón Thorkelsson, í Winnipeg, 68 ára gamall. Svarfdælingur að ætt.

18. Miss Lena (Ólína) Goodmanson, í Winnipeg, 61 árs að aldri. Fædd að Gardar, N. Dak. Foreldrar: Tímóteus og Thorbjörg Guðmundson, er lengi bjuggu í Elfros, Sask.

20. Jón Halldórsson smiður, á heimili sínu í Winnipeg, 83 ára. Kom vestur um haf 16 ára gamall, og var lengi búsettur að Lundar, Man., en seinni árin í Winniveg. Áhugamaður um félagsmál, einkum málefni Góðtemplara.

21. Hildur Friðleifsson, ekkja Halldórs Friðleifssonar, í Vancouver, B.C. Fædd 8. júní 1868 í Önundarholti á Skeiðum í Árnessýslu.

28. Axel L. Oddleifsson rafmagnsverkfræðingur, í Fort Garry, Man., 49 ára að aldri. Hann var fæddur í Winnipeg, sonur Sigurðar Oddleifssonar.

30. Ásgrímur Goodmanson, í Selkirk, Man., sjötugur að aldri.

31. Jón Magnússon, fyrrum að Gimli, Man., í Vancouver, B.C. Fæddur á Hafnar-

hólmi í Steingrímsfirði og kom vestur um haf fyrir 45 árum.

31. Alvin Zophanias Sigvaldason yfirstýrimaður, í Berens River, Man. Fæddur 19. des. 1916 í Riverton, Man. Foreldrar: Jón Sigvaldason og Sigrún Þorgrímsdóttir.

**JÚNÍ 1958**

1. Bergur Jónsson Hornfjörð landnámsmaður, að heimili sínu í Framnes-byggð í Nýja Íslandi. Fæddur 22. sept. 1878 að Hafnarnesi í Nesjasveit í Austur-Skaftafellssýslu. Foreldrar: Jón Einarsson og Guðrún Ófeigsdóttir. Fluttist vestur um haf til Winnipeg 1902 og síðar á árinu í Framnes-byggð. Kunnur fyrir skáldskap sinn.

5. Jón Halldór Jónsson, í Burnaby, B.C. Fæddur 10. ágúst 1873. Foreldrar Jón Jónsson frá Svarfhóli í Borgarfirði syðra og Sigríður Jónsdóttir. Kom sex ára gamall vestur um haf með þeim til Mikleyjar í Manitoba. Lengstum búsettur á ýmsum stöðum í Manitoba. Athafnamaður mikill.

5. John Walter Thorgrímson smiður, Kenora, Ont., 56 ára að aldri. Fæddur í Pembina, N. Dakota.

5. Ormur Sigurðsson byggingameistari, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 79 ára gamall. Kom vestur um haf fyrir 55 árum.

7. Kári Jakob Johnson, frá Oak Point, Man., á sjúkrahúsi í Eriksdale, Man., Fæddur 8. okt. 1897 við Otto, Man. Foreldrar: Jakob landnámsmaður Jónsson frá Breiðabólsstað í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu og Ingibjörg kona hans frá Hæli í sömu sveit.

8. Matilda Porter, kona Warren Porter, Lone Rock, Wisconsin. Fædd að Siglunesi, Man., dótti Johns Howardson, sem nú er búsettur í Vancouver, B.C.

11. Lt. Col. Hannes Marinó Hannesson, fyrrum lögfræðingur í Winnipeg, á sjúkrahúsi í Victoria, B.C. Fæddur 27. nóv. 1884 í Öxnadal í Eyjafirði. Foreldrar: Hannes Hannesson og Þórdís Anna Jóhannesdóttir. Fluttist með þeim til Winnipeg 1886. Tók mikinn þátt í opinberum málum í Manitoba og var fyrstur Íslendinga kosinn á sambandsþing Canada, fyrir Selkirk-kjördæmi haustið 1925.

12. Theodora (Ólafsson) Hergot, kona Harry Hergot, í Chilliwack, B.C., 58 ára. Uppeldisdóttir Tryggva og Jóhönnu Ólafsson, sem lengi áttu heima í Winnipeg.

16. Halldóra Gíslason, ekkja Gunnlaugs Gíslasonar, fyrrum í Wynyard, Sask., á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fædd að Hraunkoti í Aðaldal í Norður-Þingeyjarsýslu 21. febr. 1877. Foreldrar: Jónas Kristjánsson og Guðrún Þorsteinsdóttir.

18. Anna Jónsdóttir Johnson, kona Jóns Júlíusar Johnson, fyrrum í Tantallon (Hólabyggðinni) í Saskatchewan, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fædd að Dúkskoti í vesturbænum í Reykjavík 24. marz 1881. Foreldrar: Jón Jónsson frá Dúki í Skagafirði og Ragnheiður Vigfúsdóttir frá Suður-Reykjum í Mosfellssveit. Kom vestur um haf árið 1901.

20. Halldóra Kristín Björnsson, ekkja Jóhanns Óla Björnsson, í Wynyard, Sask. Fædd að Granastöðum í Suður-Þingeyjarsýslu 4. ágúst 1861. Foreldrar: Guðjón Halldórsson og Sigurveig kona hans. Fluttist vestur um haf með manni sínum 1890; framan af árum búsett á ýmsum stöðum, en lengstum í Wynyard og nágrenni.

24. Gertrude Johnson, ekkja Helga Johnson, í Winnipeg, 83 ára að aldri.

28. Jóhannes K. Benson, Gimli, Man., 76 ára gamall. Fæddur að Gimli og búsettur þar mestan hluta ævinnar.

30. Ingibjörg Jóhannesson, í Winnipeg. Fædd að Gardar, N. Dakota, 7. júní 1887.

**JÚLÍ 1958**

10. Paul Kristinn Olson fiskimaður, að heimili sínu á Gimli, Man., áttræður að aldri. Fæddur að Gimli og átti þar heima ævilangt.

12. Pétur Jón Norman, í Winnipegosis, Man., 87 ára gamall.

17. Thorey Rafnkelsson, kona Guðjóns Rafnkelssonar, á hjúkrunarheimili á Lundar, Man., 94 ára gömul. Fædd á Íslandi og voru þau hjónin meðal fyrstu landnema í Lundar-byggð.

24. María Jorgenson, kona Arvids Jorgenson, í Port Arthur, Ont., 34 ára að aldri, dóttir Jóns og Önnu Josephson á Gimli, Man.

25. Guðrún Rósa Johnson, í Winnipeg, 73 ára gömul. Fædd í N. Dakota, en búsett í Winnipeg í 61 ár.

Júlí — í þeim mánuði, Stefanía Sigurbjörg Pálmason, kona Jóns B. Pálmasonar, í Vancouver, B.C., 67 ára. Foreldrar: Gestur Oddleifsson landnámsmaður í Haga í Nýja Íslandi og kona hans.

### ÁGÚST 1958

7. Laurie Johnson, landnemi og kornkaupmaður í Mozart, Sask., á sjúkrahúsi í Wadena, Sask. Fæddur í Pembina, N. Dakota, 23. febr. 1884. Kom til Canada 1910 og settist þá þegar að í Mozartbyggð.

9. Ole Sigmar Jónasson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 58 ára að aldri. Foreldrar: Ármann og Ósk Jónasson, er lengi bjuggu í Ísafoldar-byggð í Nýja Íslandi.

18. Margrét Ólavía Ísberg, ekkja Guðmundar Arnbjörnssonar Ísberg, í Winnipeg. Fædd 6. ágúst 1867 að Haugahólum í Skriðdal í Suður-Múlasýslu. Foreldrar: Guðmundur Finnbogason og Guðlaug Eiríksdóttir. Fluttist vestur um haf með manni sínum til N. Dakota 1887, en voru búsett í Vogar, Man., í 35 ár.

19. Emil Tómas Ólafsson, af slysförum í Dawson Creek, B.C. Fæddur 13. maí 1934 við Wapah, Man. Foreldrar: Tómas Hjaltalín og Lovísa Erlendson Ólafsson, nú búsett í grennd við St. Rose, Man.

20. Miss Elizabeth Anderson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 85 ára. Fluttist vestur um haf ung að aldri og hafði átt heima í Winnipeg í 67 ár.

22. Hafliði Thorarinson, í Walkenbury, Man. Fæddur að Húsavík, Man., 68 ára að aldri.

22. Kristín Sigurdson, kona Sigurðar Sigurdsonar, í Elfros, Sask., 66 ára gömul.

24. Geir Björnsson, frá Vancouver, B.C., í Fort William, Ont. Fæddur 11. okt. 1880 á Grashóli á Melrakkasléttu í Núpasveit. Foreldrar: Björn Björnsson og Guðný Einarsdóttir. Fluttist með þeim tveggja ára gamall vestur um haf til Argyle, Man.

27. Arnold Eggertson, í Toronto, Ont., 52 ára. Sonur Ásbjörns Eggertssonar í Winnipeg.

28. Prófessor Halldór Hermannsson bókavörður, á sjúkrahúsi í Ithaca, N.Y. Fæddur 6. jan. 1878 að Velli í Rangárvallasýslu. Foreldrar: Hermannius E. Johnson sýslumaður og Ingunn Halldórsdóttir. Hafði verið búsettur í Ithaca nærri samfleytt síðan 1905. Víðkunnur fræðimaður og mikilvirkur rithöfundur.

29. Mgnús Hjaltson læknir, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur í Strandasýslu 1874. Foreldrar: Hjalti Hjaltason og Margrét Helgadóttir, er bjuggu að Gilsstöðum í Steingrímsfirði. Kom með þeim vestur um haf 1888. Hafði stundað lækningar á ýmsum stöðum í Manitoba, lengi í Glenboro, en búsettur síðasta áratuginn í Winnipeg.

Ágúst — Baldur Finnbogason, frá Jaroslaw, Man., í bílslysi nálægt Árnes, Man., 32 ára gamall. Fæddur að Geysir, Man. Foreldrar Andrew Finnbogason og kona hans, að Hnausum, Man.

Ágúst — Um síðustu helgi þess mánaðar, Kristrún Pétursson, ekkja Kristjóns Péturssonar, á heimili sínu í Haylandbyggð í Manitoba. Fædd 26. okt. 1877, ættuð frá Bjarnarstöðum í Blönduhlíð í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar: Sigurður Jónsson og Sigurlaug Sveinsdóttir. Kom vestur um haf 1903.

### SEPTEMBER 1958

5. Björn Magnússon póstmeistari og lögregludómari, í Piney, Man. Fæddur í Winnipeg 13. sept. 1894. Foreldrar: Sigurður J. Magnússon, frá Gilsbakka á Hvítársíðu, og Una Jónsdóttir, frá Valdalæk á Vatnsnesi.

6. Thorsteinn Ingvar Kristjánsson, á heimili sínu í Víðir-byggð í Manitoba, 80 ára að aldri. Hafði rekið búskap í þeirri byggð og nágrenni í nálega 40 ár.

7. Arthur Ólafur Sigurdson, skólastjóri a Neelin, Man., af völdum bílslyss. Fæddur í Árborg, Man. 13. sept. 1935. Foreldrar: Arthur og Magnea Sigurdson í Árborg.

13. Páll Friðriksson Vídalín, í Árborg, Man., 77 ára gamall. Fluttist með foreldrum sínum til Nýja Íslands fyrir 72 árum og hafði búið þar ávallt síðan.

24. Jón Sveinbjörnson kornkaupmaður, í Wynyard, Sask. Fæddur í Winnipeg 7. des. 1906, en fluttist barnungur með foreldrum sínum til Elfros, Sask. Tók mikinn þátt í sveitar- og bæjarmálum.

26. Hólmfríður Sigrún Backman, kona Daníels Baldwin Backman, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 56 ára að aldri. Fædd í Riverton, en búsett í Oak Point í 36 ár.

29. Friðfinnur Sigurdson smiður, í Winnipeg. Fæddur að Geysir, Man., 30. júní 1897. Foreldrar: John Sigurdson og Kristín Friðfinnsdóttir.

Sept. — Snemma í þeim mánuði, Einar Erlendsson, í Winnipeg. Fæddur 6. marz 1896 í Manitoba. Foreldrar: Ingimundur Erlendsson og Valgerður Einarsdóttir, bæði úr Biskupstungum.

**OKTÓBER 1958**

5. Lúðvík Kristjánsson múrari, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 71 árs að aldri. Fluttist vestur um haf frá Fáskrúðsfirði til Winnipeg árið 1903. Vinsælt kímniskáld.

5. Valgarður Oddsson húsamálari, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 82 ára. Kom vestur um haf frá Hellisfjörubökkum í Vopnafirði fyrir 53 árum.

6. Prófessor Ólafur T. Anderson, forseti (Dean) Arts og Science deildarinnar við United College í Winnipeg, í bílslysi í grennd við Clandeboy, Man. 67 ára að aldri. Fæddur og uppalinn í Selkirk, Man. Foreldrar: Sigurður Árnason (Anderson) frá Breiðavaði í Norður-Múlasýslu og Ólína Björg Ólafsdóttir. Snjall og mikilsmetinn stærðfræðikennari.

7. Sólrún Gwendolyn Bell, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C., hnigin að aldri. Kom vestur um haf 1902.

8. Ingibjörg Jónsdóttir, á elliheimilinu „Stafholt" í Blaine, Wash. Fædd 1871. Foreldrar: Jón (læknir) Jónasson, frá Syðstavatni í Skagafirði, og María Rögnvaldsdóttir, frá Skíðastöðum í Lýtingsstaðahreppi. Kom með foreldrum sínum til Vesturheims árið 1876, en þau voru meðal fyrstu landnema í Nýja Íslandi.

9. Gerða Ólafsson, ekkja Kristjáns Ólafssonar, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fædd 1881, ættuð frá Þórustöðum í Önundarfirði. Kom vestur um haf til Winnipeg fyrir 50 árum, og rak um all-langt skeið greiðasölu þar í borg.

9. Arnfríður Jóhannsson Anderson, ekkja Jóhanns Anderson, á sjúkrahúsi í Bellingham, Wash., 89 ára. Kom til Vesturheims 1876. Lengst af búsett í Seattle, Wash.

10. Oddur Oddsson, að heimili sínu í Langruth, Man. Fæddur 27. nóv. 1873 á Dagverðareyri við Eyjafjörð. Foreldrar: Jón Oddsson og Ingibjörg Ingjaldsdóttir. Fluttist með móður sinni og systkinum til Winnipeg 1888.

12. Jóhanna Björg Arngrímsdóttir, í Port Arthur, Ont. Átti fyrrum heima í Selkirk, Man.

12. Richard William Goodman, í Selkirk, Man., 78 ára að aldri.

18. Kristján Alfred, lengi bóndi í Lonely Lake-byggð við Manitoba-vatn, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur í Winnipeg 3. jan. 1897. Foreldrar: Alfred Jónasson frá Reykjavík og Rannveig Þórðardóttir frá Stafholtsey í Bæjarsveit í Borgarfjarðarsýslu.

21. Bertha (Una Kristbjörg) Beck, kona dr. Richards Beck, á sjúkrahúsi í Grand Forks, N. Dakota. Fædd í Pembina-héraði í N. Dakota 19. nóv. 1893. Foreldrar: Jón Samson (stjúpfaðir hennar) Jónasson, frá Keldudal í Hegranesi í Skagafirði, og Guðbjörg Ólafsdóttir, frá Búð í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu. Hjúkrunarkona að menntun og forystukona í félags- og velferðarmálum.

24. Hjálmar E. Björnson ritstjóri, að heimili sínu í Minneapolis, Minn., 54 ára að aldri. Fæddur og uppalinn í Minneota, Minn. Foreldrar: Gunnar B. Björnson, ritstjóri og lengi skattstjóri Minnesota-ríkis, og Ingibjörg Björnson. Nafnkunnur blaðamaður.

26. Guðrún B. Johnson, ekkja Stefáns Johnson, í Detroit, Michigan. Fædd 4. júlí 1876 á Úlfsstöðum í Blönduhlíð í Skagafirði. Foreldrar: Guðmundur Gíslason og Sigurrós Caroline Jasonsdóttir. Kom til Ameríku með manni sínum 1904, og bjuggu þau lengi í Wynyard, Sask., en síðan í Bellingham, Wash.

**NÓVEMBER 1958**

1. Séra Stephen M. Paulson, dr. theol., að heimili sínu í Englewood, New Jersey. Fæddur 6. des. 1875. Foreldrar: Páll Erlendsson og kona hans, er lengst bjuggu að Hofi í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu. Fluttist ungur að aldri vestur um haf. Mikilsmetinn klerkur og víðkunnur fyrir prédikanir, sem hann samdi fyrir ameríska tímaritið **Grit** í 52 ár samfleytt.

1. Helga Jónsson, kona Stefáns Jónssonar, á heimili sínu í Glenboro, Man., áttræð að aldri. Kom vestur um haf til Argyle-byggðar með manni sínum 1906.

2. Anna Vatnsdal, ekkja Þórðar Vatnsdals kaupmanns í Wadena, Sask., á heimili sínu í Ballard, Wash. Fædd á Gimli, Man., 7. jan. 1879. Foreldrar: Jón Jónsson frá Munkaþverá í Eyjafirði og Guðný Eiríksdóttir frá Einarsstöðum í Reykjadal.

2. Jón Trausti Líndal, af slysförum í Edmonton, Alberta, 37 ára gamall. Fæddur að Lundar, Man. Foreldrar: Daníel og Margrét Líndal.

9. Sigurður Helgason tónskáld, í Bellingham, Wash. Fæddur í Reykjavík 12. febr. 1872. Foreldrar: Helgi tónskáld Helgason og Guðrún Sigurðardóttir frá Þerney. Kom vestur um haf 1890 og dvaldi framan af árum í Winnipgg og N. Dakota, en síðan á Kyrrahafsströndinni. Kunnur bæði fyrr tónsmíðar sínar og söngstjórastarf.

15. Elinborg Hallgrímson, kona T. L. Hallgrímssonar fiskikaupmanns, að heimili sínu í Winnipeg, 64 ára að aldri. Fædd á Íslandi, en fluttist barnung vestur um haf með foreldrum sínum, Jóni Hoffman og Sólveigu Grímólfsdóttur Hoffman í Mikley, Man.

15. Gyðríður Anderson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 85 ára gömul. Hafði lengst af verið búsett að Gimli.

18. Ingibjörg Inge Scyrup, á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man. Fædd 7. ágúst 1897 í Foam Lake, Sask. Foreldrar: Ingimundur Eiríksson og Steinunn Jónsdóttir Inge.

18. Guðný Tómasson, ekkja Einars Tómassonar, að Beaver, Man. Fædd í Gjáhúsi í Grindavík 23. marz 1864. Foreldrar: Þorsteinn Þorkelsson og Ragnhildur Sigurðardóttir. Kom vestur um haf með manni sínum aldamótaárið og settust að í Big-Point byggð við Manitoba-vatn, en áttu lengstum heima í Westbourne, Man.

18. Einar Sigurðsson, að heimili sínu í Winnipeg, sjötugur að aldri. Fæddur að Raufarholti í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Sigurður Einarsson og Sigurbjörg kona hans. Fluttist til Canada 1914 og var lengstum búsettur í Churchbridge, Sask. Áhugamður um félagsmál.

19. Kristín S. Olson, ekkja Þórarins Olson, á sjúkrahúsi að Gimli, Man. Fædd 14. maí 1870 í Mýrdal. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og Elín Gísladóttir. Kom vestur um haf til Winnipeg með manni sínum 1903.

27. Jón Magnússon Austman, fyrrum landnámsmaður í Hóla-byggðinni í Saskatchewan, á sjúkrahúsi í Saskatoon, Sask., 88 ára að aldri. Fæddur á Norðfirði og fluttist þaðan til Canada 1902.

28. Solveig Thordarson, ekkja Ármanns Thordarson, á elliheimili í Selkirk, Man. Fædd 2. júní 1870, en kom til Canada 1897, lengstum búsett að Lundar, Man.

Nóv. — Wilhelm Bernhöft, í Californíu, 64 ára að aldri. Ættaður frá Cavalier, N. Dakota.

## DESEMBER 1958

3. Níels (Nels) G. Johnson, hæstaréttardómari í N. Dakota, á sjúkrahúsi í Bismarck, N. Dak. Fæddur á Akranesi 30. apríl 1896. Foreldrar: Guðbjartur Jónsson og Guðrún Ólafsdóttir, landnemar í Mouse River-byggðinni í N. Dakota, og fluttist Níels þangað með þeim frá Íslandi aldamótaárið. Fyrrv. dómsmálaráðherra í N. Dakota og hafði skipað aðrar opinberar stöður.

4. Þorsteinn Brynjólfur Helgason, að Hecla, Man., 86 ára að aldri. Foreldrar: Landnámshjónin Helgi Sigurðsson og Valgerður Brynjólfsdóttir. Kom með foreldrum sínum frá Kirkjubæ í Húnavatnssýslu til Vesturheims 1893.

8. Björn J. Hallson tinsmiður, fyrrum í Winnipeg, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 79 ára að aldri. Ættaður úr Norður-Múlasýslu, en fluttist til Manitoba fyrir 65 árum.

8. Ásmundur Bjarnason trésmíðameistari, í Minneapolis, Minn., 85 ára. Ættaður úr Reyðarfirði, en kom til Ameríku 1910 og hafði lengstum átt heima í Minneapolis.

14. Carl Finnbogason byggingameistari, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C., 56 ára að aldri. Fyrrum búsettur í Winnipeg.

15. Hannes Jónasson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., áttræður.

21. Sigríður Simundson, á heimili sínu í Mapleton, Man., 75 ára gömul.

22. Sigurbjörn Kristjánsson, landnámsmaður að Otto, Man., að heimili sínu á Lundar, Man., 89 ára að aldri. Fluttist til Canada af Íslandi 1889.

25. Hjálmar Eiríkur Vigfússon, frá Selkirk, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg, 61 árs gamall. Bjó fyrrum að Oak View, Man.

Des. — Snemma í þeim mánuði, Alfred Thorwaldson, lögfræðingur, að heimili sínu í Elmhurst, Ill., 59 ára. Sonur Elísar kaupmanns Thorwaldson að Mountain, N. Dakota.

# Þrítugasta og níunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var sett í góðtemplarahúsinu við Sargent götu kl. 10 f. h. þann 24. febr. 1958 af forseta félagsins, dr. Richard Beck. Fundarsókn var sæmileg.

Áður en fundarstörf hæfust, flutti dr. Vildimar J. Eylands bæn og sungnir voru sálmarnir, „Þú guð ríkir hátt yfir hverfleikans straum“ og „Faðir andanna.“

Þá las ritari áætlaða dagskrá þingsins, og að því búnu flutti forseti, dr. Richard Beck ársskýrslu sína, sem bæði var ýtarleg og vel samin, eins og vænta mátti:

Góðir Íslendingar, fulltrúar og gestir!

Síðastliðið haust minntumst vér Íslendingar beggja megin hafsins, eins og vera bar, 150 ára afmælis vorskáldsins Jónasar Hallgrímssonar, er með fögrum ljóðum sínum söng inn í hjörtu þjóðar vorrar ást á fegurð og frelsi, ættjarðarást og framtíðartrú. Mörg eru þau snilldarkvæðin, sem hann gaf oss í arf og lifa í hjörtum og á vörum þjóðarinnar, en eitt hið allra glæsilegasta þeirra er kvæðið „Gunnarshólmi.“ Eins og fjölmörgum öðrum hefir mér verið þetta svipmikla kvæði sérstaklega kært síðan ég lærði það á yngri árum, og með vaxandi bókmenntaþekkingu hefi ég lært að meta snilld þess í ríkari mæli. Samt var það ekki fyrri en sumarið 1954, þegar við hjónin komum að Hlíðarenda í Fljótshlíð og renndum sjónum yfir þær söguslóðir, sem kvæðið lýsir, að mér skildist til fullnustu, hversu frábært málverk það er í ljóði, og hver litorðameistari Jónas er, eins og hann hefir réttilega nefndur verið. Þetta var seint á sumardegi, og það, meðal annars, gerði það að vrkum, að snilldarlýsing skáldsins á umhverfinu varð svo lifandi fyrir augum mínum og að hreimfögur upphafsorð kvæðisins dundu mér í eyrum með seiðandi hljómi:

Skein yfir landi sól á sumarvegi
og silfurbláan Eyjafjallatind
gullrauðum loga glæsti seint á degi.
Við austur gnæfir sú hin mikla mynd
hátt yfir sveit og höfði björtu svalar
í himinblámans fagurtærri lind.

Enginn, sem kunnugur er **Njáls sögu**, kemur heldur svo að Hlíðarenda, sögufrægum bústað Gunnars, að hann sjái eigi í anda hetjuna prúðu og renni eigi til rifja örlög Gunnars. Saga hans varð mér þá, að vonum, ofarlega í huga þessa síðdegisstund, ekki sízt eins og hún er túlkuð í fleygum orðum Jónasar í kvæðinu fagra, og lokaorð þess sóttu sérstaklega fast á hug minn:

Þar sem að áður akrar huldu völl,
ólgandi Þverá veltur yfir sanda;
sólroðinn líta enn hin öldnu fjöll
árstrauminn harða fögrum dali granda;

---

en lágum hlífir hulinn verndarkraftur
hólmanum, þar sem Gunnar sneri aftur.

Og þá kem ég að því, hvrs vegna ég hefi valið mér kvæðið „Gunnarshólma“ að efni upphafsorða þessarar ársskýrslu minnar. Þegar ég stóð á Hlíðarenda umræddan sumardag, heyrði sögunnar þyt yfir höfði mér og sá litbrigðaríka lýsingu skáldsins gæðast nýju lífi, varð Gunnarshólmi, eins og skáldið lýsir honum í kvæðinu, mér annað og meira. Hann varð mér áhrifamikil táknmynd hins íslenzka þjóðbrots vors í Vesturheimi, sem líkja má við lítið eyland í hinu mikla þjóðahafi í þessari víðlendu álfu, og stendur áveðurs gegn brimi og brotsjóum margvíslegra afla og áhrifa, sem ógna tilveru þess litla eylands og færa vilja það í kaf í þjóðsæinn. En þó að mikið hafi molast of þessum landskika vorum, rís hann eigi að síður úr sævi, og ég hefi þá óbifanlegu trú, að svo megi enn um hríð verða, ef vér Íslendingar höldum hópinn og neytum þeirra félagslegu og menningarlegu varnarvopna, sem vér eigum yfir að ráða, vel og viturlega. Með Jónasi Hallgrímssyni er ég einnig fasttrúaður á það, að æðri máttarvöld líti með velþóknun á trúnað við göfugan og góðan málstað, og reynist þeim öllum hliðholl, sem honum vinna af einlægni og drengskap. Eiga hér við áminningarorð annars íslenzks skálds, Guðmundar Guðmundssonar, sem andlega var skyldur Jónasi Hallgrímssyni:

Það fylgir sigur sverði göfugs manns,
er sannleiksþráin undir rendur gelur
og frelsisást í djarfri drenglund elur,
það drepur enginn beztu vonir hans:
hann veit, þótt sjálfur hnigi hann í val,
að hugsjónin hans fagra lifa skal.

Og þá liggur sporið beint til þeirra samherja vorra, karla og kvenna, sem látizt hafa á árinu, en samkvæmt upplýsingum, sem fjármálaritari hefir góðfúslega látið mér í té, eru þau félagssystkini vor þessi:

Gunnar B. Björnsson, Minneapolis, heiðursfélagi; G. J. Oleson, Glenboro, heiðursfélagi; Jón Ásgeirsson, fyrrverandi forseti „Fróns“, Mrs. S. M. Lawson, Stefanía Pálsson, Halldór Gíslason, Guðrún Hafliðason, Helgi Johnson, Hreiðar Skaftfeld, Gunnar Thorláksson, Thorbergur Thorbergsson og Sigurður Anderson, öll í Winnipeg; Kristín Ólafsson, Jón Hinriksson, Sigþrúður Stefánsson og Ágúst (Gústi) Sæmundsson, Selkirk; Magnús S. Magnússon, Hallgrímur S. Sigurðsson og Mrs. Vigfúsína Beck, Gimli; Mrs. Bergsveinn Eiríksson, Lundar; Guðni Davíðsson, Guðmundur Guðbrandsson og Sigurður Arngrímsson, Blaine; Mrs. J. Sigmundsson, Arlington, Virginia, og Jóhannes Anderson (féhirðir „Bárunnar“ frá stofnun hennar), Mountain.

Með saknaðarhuga minnumst vér allra þessara félagssystkina og þökkum þeim samfylgdina og samstarfið, „trúmennsku í verki“ við ætt og erfðir. Samtímis minnumst vér spakra orða norska skáldsins Per Sivle (í þýðingu séra Matthíasar Jochumssonar):

Ef bila hendur,
er bættur galli:
Ef **merkið** stendur,
þótt **maðurinn** falli.

Þannig mundu hin horfnu félagssystkini vor hafa hugsað, því að það er íslenzkur hugsunarháttur að fornu og nýju. Þeim mundi hafa verið það bezt að skapi, að vér, sem enn stöndum ofan moldar, höldum félagsmerkinu sem hæzt á lofti og vinnum áfram sem trúlegast að sameiginlegum málstað. Með það í huga, skal nú lýst starfinu á liðnu ári.

Eins og að undanförnu hefir stjórnarnefnd félagsins haldið allmarga fundi á árinu, og eftir beztu getu og öðrum aðstæðum leitazt við að ráða fram úr þeim málum, sem henni voru falin til afgreiðslu á síðasta þjóðræknisþingi, og öðrum þeim málum, sem komið hafa til hennar kasta. Þakka ég samnefndarfólki mínu ágæta samvinnu; og þó að engin stórvirki hafi verið unnin, vona ég, að svo reynist, að sæmilega hafi verið haldið í horfinu á starfsárinu, en betur má vitanlega, ef duga skal.

**Útbreiðslumál**

Þar sem félagið er þess eigi umkomið fjárhagslega að hafa sérstakan útbreiðslumálastjóra, hafa þau mál á liðnu ári, eins og löngum áður, aðallega hvílt á herðum stjórnarnefndarinnar, að ógleymdum góðum skerf fyrrv. embættismanna félagsins og annarra velunnara þess til þeirra mála.

Þannig hefir fyrrv. forseti, dr. Valdimar J. Eylands, sýnt í verki framhaldandi áhuga sinn á málum félagsins með ýmsum hætti. Meðal annars hélt hann aðalræðuna á Lýðveldishátíð deildarinnar „Fróns“ í Winnipeg og flutti einnig erindi og sýndi myndir úr Íslandsferð sinni á lýðveldishátíð deildarinnar „Bárunnar“ að Mountain; ennfremur var hann í nefnd þeirri í Winnipeg, sem undirbjó heimsókn biskups Íslands og föruneytis hans og **stjórnaði** samsæti því, er haldið var þeim til heiðurs.

Sama máli gegnir um frú Ingibjörgu Jónsson, fyrrv. ritara félagsins; hefir hún með blaðagreinum sínum og félagslegri starfsemi sýnt trúnað sinn við félagið og málstað þess, ekki sízt með prýðilegum greinum sínum „Hvað hefir Þjóðræknisfélagið gert?“, sem vafalaust hafa glöggvað ýmsum lesendum skilning á starfsemi félagsins í liðinni tíð og því hlutverki, sem það á enn að gegna í menningarlífi vor Íslendinga vestan hafs. Í nafni félagsins vil ég þakka frú Ingibjörgu drengileg ummæli í garð þess með orðum þjóðskáldsins, þótt mælt væru undir öðrum kringumstæðum: „Þökk fyrir handslagið hlýja!“

Fyrrv. vara-forseti félagsins, dr. Tryggvi J. Oleson, hefir einnig, síðan hann kom heim úr námsdvöl sinni í Norðurálfunni og aBndaríkjunum, flutt erindi um ferð sína og íslenzk menningarmál á samkomum hér í borg, og bjóðum vér hann velkominn í hóp vorn á ný.

Skal þá horfið að útbreiðslustarfi núverandi stjórnarnefndar. — Vara-forseti, séra Philip M. Pétursson flutti kveðjur félagsins og hélt aðalræðuna á Íslendingadeginum í Blaine; einnig flutti hann erindi og sýndi kvikmynd af Íslandi á tveim samkomum í Vancouver og síðar á árinu á fundi deildarinnar „Fróns“ í Winnipeg; ennfremur var hann fulltrúi félagsins og flutti ávarp af hálfu þess við vígslu nýbyggingar ellireimilisins „Betel“ að Gimli, og í ársveizlu Icelandic Canadian Club, og átti einnig sæti í nefnd þeirri, er undirbjó heimsókn biskups Íslands til Winnipeg.

Ritari, prófessor Haraldur Bessason, flutti ræður um þjóðræknismál á sumarmálasamkomum beggja íslenzku kirknanna í Winnipeg, ennfremur á samkomum Lestrarfélagsins að Gimli og Þjóðræknisdeildarinnar „Esjunnar“ í Árborg, og á Lýðveldishátíð deildarinnar „Bárunnar“ að Mountain. Ásamt þeim vara-féhirði, frú Hólmfríði Danielson, og frú J. B. Skaptason, tók hann einnig þátt í sjónvarpi frá Winnipeg, svaraði spurningum um íslenzkar bókmenntir og menningu og um kennarastólinn í íslenzku við Manitobaháskóla.

Vara-ritari, Walter J. Lindal dómari, hefir flutt ávörp varðandi íslenzk menningar- og þjóðræknismál á ýmsum samkomum og ritað um þau mál vor í **Ice-**

**landic Canadian,** en aðallega unnið að stofnun félagsskaparins "The Canada-Iceland Foundation," er getið verður nánar í sambandi við samvinnumál við Ísland.

Féhirðir, Grettir L. Jóhannson ræðismaður, hefir átt sæti í ýmsum nefndum af hálfu stjórnarnefndar, svo sem til undirbúnings komu biskups Íslands og föruneytis, og einnig flutt, í embættisnafni, ávörp á Íslendingadeginum að Gimli, Lýðveldishátíðinni í Winnipeg, í veizlunni til heiðurs biskupi, og víðar, er öll hafa fjallað um þjóðræknismál vor, og þá einkum um sambandið og samskiptin við heimaþjóðina.

Vara-féhirðir, frú Hólmfríður Danielson, hefir flutt erindi um Ísland á ensku og ritað greinar um íslenzk fál; hún las einnig upp úr kvæðum Jónasar Hallgrímssonar á minningarsamkomunni um skáldið, er síðar verður getið, og tók, eins og fyrr segir, þátt í sjónvarpinu frá Winnipeg um Ísland og Íslendinga, með samtalsþætti um íslenzka landnema vestan hafs. Vakti sjónvarp þetta í heild sinni athygli og mæltist vel fyrir. Þá hefir frú Hólmfríður annast útgáfu nýútkominna minninga landnámsmannsins Magnúsar G. Guðlaugson, en þakkarverð er öll sú viðleitni, sem miðar að verndun slíks sögulegs fróðleiks vor á meðal.

Fjármálaritari, Guðmann Levy, hefir eins og áður í kyrrþey unnið að útbreiðslumálum með bréflegu sambandi við gamla og nýja félagsmenn, og einnig átt sæti í nefndum af hálfu stjórnarnefndar. Ólafur Hallsson, vara-fjármálaritari, hefir, jafnframt því og hann skipar forsetasess í deildinni að Lundar, lagt lið útbreiðslumálunum með ýmsum hætti. Ragnar Stefánsson, skjalavörður, skemmti með upplestri íslenzkra ljóða á Lestrarfélagssamkomunni að Gimli og á „Fróns"-fundi í Winnipeg.

Þrátt fyrir andvígar aðstæður mikinn hluta sumarsins, er hindruðu það, að hann gæti heimsótt eins margar deildir félagsins og hann hafði ætlað sér, hefir forseti eftir föngum unnið að útbreiðslumálunum. Hann flutti kveðjur félagsins og ávörp á eftirfarandi samkomum: Lýðveldishátíðunum í Winnipeg og á Mountain, Íslendingadeginum að Gimli og í 15 ára afmælisfagnaði Viking Club í Winnipeg; ennfremur við guðsþjónustu Ásmundar biskups að Mountain og í veizlunni í Winnipeg honum til heiðurs. Erindi um Jónas Hallgrímsson flutti forseti á minningarsamkomu um hann í Winnipeg og á fundi þjóðræknisdeildarinnar að Gimli; einnig heimsótti hann félagsfólk í deildinni í Árborg, er hann dvaldi daglangt á þeim slóðum. Eins og að undanförnu hélt hann á árinu ræður um íslenzk efni á ensku á ýmsum stöðum í Bandaríkjunum, meðal annars í útvarp frá ríkisháskólanum í Grand Forks, og hefir með blaðagreinum og bréfum til þjóðræknisdeilda og annarra Íslendingafélaga vestan hafs, leitazt við að efla samheldni þeirra á meðal og glæða áhugann á sameiginlegum menningarmálum.

Margar af ofannefndum ræðum stjórnarnefndarmanna hafa verið birtar í vestur-íslenzku vikublöðunum og með þeim hætti náð til Íslendinga víðsvegar, og væntanlega orðið málstaðnum að því skapi að auknu gagni.

Um kvikmyndina af Íslandi, sem varaforseti sýndi á Vesturströndinni og víðar, og enn er í umferð, skal þess getið, að hún fékkst til afnota fyrir milligöngu ritara og ágæta samvinnu sendiráðs Íslands í Washington, og sé þeim öllum þökk, sem þar eiga hlut að máli; jafnframt má á það minna, hvern hauk félagið hefir lengi átt í horni, þar sem er heiðursfélagi þess, Ambassador Thor Thors í Washington.

Í sambandi við útbreiðslumálin skal þess að lokum getið, að forseti hefir í félagsins nafni minnzt með símkveðjum eða bréfum merkistímamóta í ævi þriggja heiðursfélaga vorra, þeirra próf. Halldórs Hermannssonor og séra Alberts Kristjánssonar, fyrrv. forseta félags vors, er þeir urðu áttræðir, og dr. Stefáns Einarssonar, er hann varð sextugur; einnig Walters J. Lindals dómara á sjötugsafmæli hans. Ennfremur hefir forseti af félagsins hálfu sent heillaóskir ýmsum þeim, er standa nærri félaginu og hafa unnið sér sérstakan frama á árinu, svo sem frú Björgu V. Ísfeld, er hún var endurkosin forseti Bandalags Hljómlistarkennarafélaganna í Canada, G. S. Thorvaldson lögfræðingi, er hann var af forsætisráðherra skipaður fyrstur Senator af íslenzkri ætt í Canada. Margir úr vorum hópi hafa með ýmsum öðrum hætti unnið sér frama og frægðarorð, er allt eykur á hróður þjóðstofns vors hér í álfu, en þeirra er getið í skrá þeirri yfir helztu viðburði ársins vor á meðal, sem birt er í **Tímariti** félags vors.

### Fræðslumál

Útbreiðslumálin og fræðslumálin eru náskyld og samofin, og segja má, að þau falli ósjaldan í einn farveg, en hér verður stuttlega vikið að þeirri hlið fræðslumálanna, sem snýr að íslenzkukennslu og að einhverju leyti snertir félag vort. Ber þá fyrst að geta þess, að ritari, próf. Haraldur Bessason hefir í vetur haldið kvöldnámskeið í íslenzku, og hefir sú kennsla farið fram í fundarherbergi stjórnarnefndar félagsins í húsi þess á Home Street, og fer próf. Haraldur þessum orðum um kennsluna í bréfi til mín: „Í vetur hefi ég að jafnaði lesið íslenzku með fólki, sem vill leggja það á sig, einu sinni í viku. Eru það

tveir flokkar, sem ég les með, fullorðið fólk, sem kann íslenzku fullum fetum, og yngra fólk, sem skemmra er á veg komið. Undirtektir hafa verið betri nú í ár en í fyrra." Þökk sé prófessor Haraldi fyrir þessa þörfu viðleitni sína, og ættu sem flestir að notfæra sér það ágæta tækifæri, sem þar gefst til íslenzkunáms.

Þá hefir félagsfólk í Þjóðræknisdeildinni „Esjunni" í Árborg sýnt í verki frábæra ræktarsemi við íslenzka tungu og aðrar menningarerfðir vorar með því að kenna börnum og unglingum íslenzka söngva og ljóð. Efndi deildin til alíslenzkrar samkomu í samkomuhúsi Geysisbyggðar 17. maí, þar sem fjöldi barna skemmti með söng og upplestri íslenzkra ljóða, og þótti takast með afbrigðum vel. Var samkoma þessi endurtekin stuttu síðar. En áhrif þessarar menningarstarfsemi hafa náð langt út fyrir takmörk heimabyggðarinnar. Síðastliðið haust stóðu Íslendingar frá Árborg og nágrenni fyrir skemmtuninni á hinni árlegu og fjölsóttu menningarsamkomu ("Rural Folk Festival"), sem Manitoba Pool Elevators félagið efnir til. Komu þar fram tveir barnakórar og ýmsir smærri hópar barna, er sungu íslenzka söngva bæði á íslenzku og í enskum þýðingum, en önnur börn lásu upp enskar þýðingar íslenzkra ljóða. Höfðu þau systkinin Jóhannes Pálsson söngstjóri og Mrs. Lilja Martin æft söngflokkana, en það var fyrir atbeina Gunnars Sæmundssonar, að íslenzku börnin önnuðust skemmtiskrána á þessari fjölmennu samkomu. Eins og vera bar, var hennar getið í báðum vesturíslenzku vikublöðunum, og fór frú Ingibjörg Jónsson meðal annars um hana svofelldum orðum í grein sinni „Eftirminnileg íslenzk skemmtun" á kvennasíðunni í Lögbergi:

„Þetta er ein sú íslenzkasta samkoma, sem ég hefi verið viðstödd í lengri tíð; hér kenndi ekki afsökunar heldur réttmæts metnaðar yfir því að kynna meðborgurum okkar íslenzkar ljóðperlur og söngva. Samkomugestir, sem flestir voru annarra þjóða, kunnu líka vel að meta þessa skemmtun, svo sem dynjandi lófatak þeirra gaf til kynna hvað eftir annað."

En því hefi ég fjölyrt um þessi samkomuhöld félagsfólks vors í Árborg og nágrenni, að þar er um að ræða starfsemi í þjóðræknisáttina, sem bæði verðskuldar það, a henni sé sérstakur gaumur gefinn, og getur um leið verið öðrum til áminningar og fyrirmyndar.

Skylt er jafnframt að geta þess, að deildin að Gimli hefir hafið starfsemi í sömu átt, því að þar hefir Mrs. L. Stevens kennt stórum hóp barna að syngja íslenzka söngva; hefir barnasöngflokkur þessi þegar látið til sín heyra á fundum deildarinnar. Einnig má vel vera, að aðrar deildir hafi svipaða starfsemi með höndum, og ber þeim þökk fyrir þá viðleitni.

Í þessu sambandi vil ég einnig láta þess getið, að samkvæmt bendingu, sem fram kom á síðasta þingi, fól stjórnarnefndin frú Hólmfríði Danielson að athuga möguleika á því, að kenna börnum hér íslenzka þjóðdansa (vikivaka), og er hún að kynna sér það mál af bókum um það efni, sem fengnar hafa verið heiman um haf.

**Samvinnumál við Ísland**

Þau hafa verið fjölbreytt á árinu, enda er það önnur meginhliðin á starfi Þjóðræknisfélagsins, sem að ættjörðinni snýr, því að þar standa þjóðernis- og menningarrræturnar djúpt í mold og draga þaðan næringu sína.

Það er fagnaðarefni, að óvenjulega margir Vestur-Íslendingar heimsóttu Ísland á síðastliðnu sumri, meðal þeirra stór hópur héðan úr Winnipeg og nágrenni, en ekkert treystir betur ættarböndin og menningartengslin milli vor Íslendinga yfir hafið heldur en gagnkvæmar reimsóknir. Sérstaklega er það ánægjulegt, að þeim sýnist fara fjölgandi úr flokki yngri kynslóðar vorrar, er fara í pílagrímsför til ættlandsins, en það er grundvallaratriði í þjóðræknisviðleitni vorri, og kem ég að því síðar. Síðan heim kom úr Íslandsferðinni hafa sumir, sem tóku þátt í henni, svo sem þau frú Kristín Johnson og Jakob Kristjánsson ,flutt erindi með myndasýningum um ferðina, og með þeim hætti innt af hendi þakkarvert kynningar- og útbreiðslustarf.

Kærkomnir gestir heiman um haf komu einnig hingað vestur um haf á liðnu starfsári. Ber þar hæst sögulega heimsókn herra Ásmundar Guðmundssonar biskups, en í för með honum voru þeir séra Benjamín Kristjánsson, séra Friðrik A. Friðriksson prófastur og séra Pétur Sigurgeirsson, ásamt frúm tveggja hinna síðastnefndu. Eftir að hafa tekið þátt í alþjóðaþingi lúterskra manna í Minneapolis og notið gestrisni Íslendinga þar í borg, heimsótti biskupinn og föruneyti hans Íslendinga í Norður-Dakota, hér í Winnipeg og víðar í Manitoba, og prédikaði biskup og flutti ræður á öllum þeim stöðum; klerkarnir í för með honum tóku einnig þátt í mörgum þeim guðsþjónustum og ræðuhöldum á samkomum beggja megin landamæranna. Séra Benjamín ferðaðist síðan vestur á Kyrrahafsströnd og flutti þar ræður meðal Íslendinga, en séra Friðrik og frú hans dvelja enn vor á meðal; hefir hann um skeið gegnt prestsstörfum í Wynyard, en nú dvelja þau hjónin vestur á Kyrrahafsströnd. Er óþarft að fjölyrða um hið mikla þjóðernislega gildi slíkra heimsókna.

Af öðrum góðum gestum heiman af ættjörðinni síðastliðið sumar má geta

þeirra Magnúsar Jochumssonar póstmeistara í Reykjavík og frúar hans, er dvöldu nokkra daga í Winnipeg í heimsókn hjá bróður hans, Jochum Ásgeirssyni og konu hans, félagssystkinum vorum, en ferðuðust síðan til Californíu áður en þau hurfu heimleiðis.

Í ræðu sinni á Íslendingadeginum að Gimli í sumar ræddi séra Benjamín Kristjánsson um gagnkvæmar heimsóknir Íslendinga yfir hafið og sérstaklega um nauðsyn aukinna heimsókna yngra fólksins héðan heim um haf, og kom fram með mjög athyglisverðar tillögur þar að lútandi, og þar sem hann beindi þeim sérstaklega til Þjóðræknisfélagsins, væri annað með öllu ósæmandi, en að taka þær til greina. Þar sem ræða hans hefir þegar verið birt í báðum vestur-íslenzku vikublöðunum, verða tillögur hans eigi endurteknar hér, en lagðar fyrir þingið, og vil ég mælast til þess, að væntanleg þingnefnd í samvinnumálum við Ísland taki umræddar bendingar séra Benjamíns til alvarlegrar athugunar.

Og fyrst hér er um að ræða heimsóknir og mannaskipti yfir hafið, vil ég í félagsins nafni, láta í ljósi ánægju mína yfir því, að nú dvelur á Íslandi, sem kennari í guðfræði, einn af vorum yngri prestum, séra Harald S. Sigmar, ásamt fjölskyldu sinni; veit ég, að þeim mun verða dvölin á ættjörðinni ánægjuleg og lærdómsrík og jafnframt reynast oss Vestur-Íslendingum ágætir fulltrúar.

Í fyrrnefndri ræðu sinni lagði séra Benjamín einnig áherzlu á nauðsyn söfnunar og varðveizlu íslenzkra sögulegra gagna vestan hafs og einkum þó það, hver þörf bæri til að ljósmynda (míkrófilma) kirkjubækur íslenzkra presta hér í álfu; ræddi hann það mál einnig við stjórnarnefndarmenn félags vors, og sér í lagi við Harald prófessor Bessason, er hefir það með höndum af vorri hálfu.

Því næst vil ég víkja að öðru máli, er snertir ættar- og menningartengsl vor við Ísland á alveg sérstakan hátt. Stuttu fyrir þjóðræknisþingið barst forseta bréf frá tveim góðkunnum vinum vor Vestur-Íslendinga heima á ættjörðinni, þeim Árna Bjarnarsyni bókaútgefanda og Steindóri Steindórssyni yfirkennara Menntaskólans á Akureyri, þess efnis, að þeir hafi í huga að safna til ævisagna Vestur-Íslendinga, svo margra, sem til næst, og hafa þeir þegar ráðið för sína vestur um haf í þeim tilgangi á komandi sumri. Leita þeir liðsinnis Þjóðræknisfélagsins um það mál. Var það rætt að nokkuru á fundi stjórnarnefndar, og ákveðið að leggja það fyrir þingið til rækilegrar athugunar. Verður bréf þeirra félaga því lesið síðar og síðan vafalaust vísað til þingnefndarinnar í samvinnumálum, og fjölyrði ég því eigi frekar um það á þessu stigi málsins, að því viðbættu, að ég tel, að hér sé um að ræða mjög merkilegt mál.

En samvinnumálin við Ísland eru enn fleiri þáttum ofin. Eitt af þeim velferðarmálum, sem ættjörðina varða og Þjóðræknisfélagið hefir lengi haft á dagskrá sinni er **skógræktarmálið**, og það á marga unnendur hérna megin hafsins. Milliþinganefnd er starfandi í því máli undir forustu frú Marju Björnsson, sem flutt refir erindi um það á fundi þjóðræknisdeildarinnar að Lundar og víðar á samkomum á árinu, og mun hún flytja skýrslu um málið hér á þinginu. En til frekari áréttingar vil ég taka hér upp kafla úr bréfi, sem mér barst nýlega (dags. 7. des. 1957) frá Hákoni Bjarnasyni skógræktarstjóra í Reykjavík, og varpar ljósi á þá hlið málsins, sem að okkur snýr Íslendingum hér í landi, en þau orð hans eru á þessa leið:

„Ég má til að segja þér frá því, að í fyrradag var ég austur á Þingvelli í dæmalaust góðu veðri og var meðal annars að skoða ungviðið í Vestur-Íslendinga reitnum. Ég var mjög ánægður með árangurinn, þótt plönturnar séu enn ekki háar í loftinu. En þær standa þétt og vanhöld eru sama og engin. Eftir tvö til þrjú ár fer að grænka undir birkikjarrinu á þessum stað. En staðurinn er í hallinu upp af Vellankötlu, þar sem gamli vegurinn lá upp að Gjábakka úr vatnsvikinu. Eru um 500 metrar af bílvegi og upp í hallið, en við vildum heldur vera þar en við veginn af tvennum ástæðum. Þar eru skilyrðin betri en við veginn, og þar er ekki eins mikill átroðningur af fólki. Í vor ætlum við að taka þessum stað röskleg tak og merkja vel, svo að Vestur-Íslendingar, er hingað koma, geti fundið staðinn. Þá gaf ein vestur-íslenzk kona 100 dali hingað til skógræktar og fékk ég leyfi hennar til að nota féð á þessum stað. Það er unnt að setja margar plöntur niður fyrir þá upphæð. — Þessi kona heitir Mary Starmer og býr í Minnesota."

Vil ég bæta því við, að Mrs. Starmer, sem er eyfirzk að uppruna, er búsett í Minneapolis. Ber fyrrnefnd gjöf hennar til skógræktar á Íslandi sannarlega fagurt vitni ræktarsemi í garð ættjarðarinnar, og það því fremur, þegar tekið er til greina, að hin aldurhnigna sómakona mun takmörkuðum efnum búin, en þeim mun þakkarverðari er slíkur ræktarhugur og til fyrirmyndar.

Annað menningarmál heima á ættörðinni, sem margir innan þessa félagsskapar og aðrir Íslendingar hérlendis hafa stutt með ýmsum hætti, er endurreisn Skálholtsstaðar. Í ferð sinni heim til Íslands síðastliðið sumar afhenti hinn gamli og

góði félagsbróðir vor, Páll Guðmundsson í Leslie, Sask., formanni Skálholtsfélagsins, prófessor Sigurbirni Einarssyni í Reykjavík, peningagjöf að upphæð 10,000 krónur til styrktar endurreisn Skálholts. Fæ ég eigi farið um þessa gjöf Páls maklegri viðurkenningarorðum en þeim, er Sigurbjörn prófessor viðhafði í tilkynningu sinni: „Þessi rausnarlega gjöf til Skálholts ber glöggt vitni þjóðhollustu hans og drengskap."

Á þjóðræknisþinginu í hitteðfyrra hreyfði féhirðir vor, Grettir L. Jóhannson ræðismaður, því máli, að ánægjllegt væri, ef Vestur-Íslendingar stæðu straum af kostnaðinum við einn hinna fyrirhuguðu skrautglugga í Bessastaðakirkju; lýsti þingið fylgi sínu við málið og var samþykkt 5,000 króna fjárveiting í því skyni úr sjóði félagsins á Íslandi. Er þessi sögufræga kirkja nú prýdd átta steindum gluggum, og voru þeir vígðir síðastliðinn hvítasunnudag. Forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson, sem beitt hefir sér sérstaklega fyrir fegrun kirkjunnar, flutti við vígsluna merkilega ræðu, þar sem hann gat þess, er hann taldi upp fjárgjafir til kirkjunnar, að ofannefnd upphæð hefði borizt frá Þjóðræknisfélaginu og „20 þúsund krónur frá Gretti L. Jóhannssyni, ræðismanni Íslands í Winnipeg." Má ekki minna vera, en að Gretti ræðismanni sé opinberlega vottuð þökk fyrir þennan höfðingskap sinn, og þann meginþátt, sem hann hefir með þeim hætti átt í því, að einn skrautgluigginn er sérstaklega helgaður Vestur-Íslendingum; en myndina á glugganum teiknaði Guðmundur Einarsson frá Miðdal og er hún af skáldinu og frelsishetjunni Jóni biskupi Arasyni; erum vér Íslendingar vestan hafs sannarlega vel sæmdir af slíkum fulltrúa á þeim sögulega stað.

En þær eru fleiri kirkjurnar heima á Íslandi, sem sæmdar hafa verið góðum gjöfum vestan um haf. Á sunnudaginn 21. júní síðastliðinn vígði biskupinn yfir Íslandi, herra Ásmundur Guðmundsson, nýja kirkju á Hvammstanga. Þar, og í nágrenninu, liggja bernsku- og æskuslóðir fyrrv. forseta félags vors, dr. Valdimars J. Eylands. Í tilefni af kirkjuvígslunni sendi hann kirkjunni Kristslíkan að gjöf, — hinn fegursta grip. Gjöfina afhenti séra Bragi Friðriksson og fór um leið nokkrum orðum um starfsemi sína vestan hafs. Í vígsluræðu sinni minntist biskup gefanda sérstaklega, og fór mjög vingjarnlegum og hlýlegum orðum um Vestur-Íslendinga yfirleitt. Dr. Valdimar hafa að verðleikum borizt þakkir fyrir hina fögru gjöf frá biskupi, sóknarprestinum séra Gísla Kolbeins á Melstað, og formanni sóknarnefndar Kirkjuhvammssóknar, hr. Sigurði Tryggvasyni á Hvammstanga. En vissulega er það ágæt þjóðrækni í verki að minnast með þeim hætti kirkju og kristni heimaþjóðarinnar og átthaganna.

Í sambandi við samvinnumálin við Ísland vil ég ennfremur sérstaklega geta félagsskapar, sem nýlega hefir verið stofnaður í Winnipeg og nefnist "The Canada-Iceland Foundation." Markmið hans er að vinna að eflingu menningarlegra samskipta milli Canada og Íslands á breiðum grundvelli, meðal annars með því að veita efnilegu námsfólki frá Íslandi og Canada fjárstyrk til náms í hvoru landinu um sig, með námsstyrkjum til stúdenta, er leggja stund á íslenzkunám við kanadiska háskóla, og með gagnkvæmum heimsóknum listafólks, háskólakennara og annarra kennara, og fyrirlesara frá Íslandi og Canada. Starfssvið félagsskaparins er miklu víðtækara, en þessi dæmi nægja til þess að sýna, hvert stefnt er með stofnun þessa félagsskapar, en formaður stjórnarnefndar hans er Walter J. Lindal dómari, vara-ritari félags vors. Hefir hann manna mest unnið að stofnun félagsskaparins og gríp ég því tækifærið til þess að þakka honum opinberlega forgöngu hans og dugnað í þessu máli og samstarfsmönnum hans, en meðal þeirra eru vara-forseti og féhirðir félags vors, sem báðir eiga sæti í stjórnarnefndinni; einnig hefir ritari verið þar með í ráðum og forseti ennfremur fylgzt með málinu frá byrjun. Er félagsskapur þessi hinn athyglisverðasti, og vonandi, að hann nái lofsverðum tilgangi sínum í ríkum mæli.

**Veizlu- og samkomuhöld**

Þjóðræknisfélagið og vestur-íslenzku kirkjufélögin efndu í sameiningu til samsætis í heiðursskyni við Ásmund biskup og föruneyti hans, eins og ítarlega hefir verið skýrt frá í vikublöðum vorum. Var samsætið fjölsótt og þótti bæði virðulegt og hið ánægjulegasta.

Þjóðræknisdeildin „Frón" og Þjóðræknisfélagið stóðu einnig sameiginlega að minningarhátíð í tilefni af 150 ára afmæli Jónasar Hallgrímssonar skálds á síðastliðnu hausti. Hafði forseti „Fróns," Jón Jónsson, samkomustjórn með höndum, en ræðumanna og upplesara er áður getið; ennfremur söng Miss Ingibjörg S. Bjarnason nokkur lög, sem samin hafa verið við ljóð listaskáldsins. Var samkoman vel sótt og mál manna, að hún hefði tekizt að sama skapi.

Loks vil ég opinberlega þakka hjartanlega hið fallega samsæti, sem stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hélt mér, í tilefni af sextugsafmæli mínu, sér í lagi hlýyrtar ræður fyrrv. forseta, dr. Valdimars J. Eylands; núverandi vara-forseta, er stýrði hófinu, ritara og féhirðis, og hina fögru minjagjöf, ritfangasamstæðuna vönduðu, sem mér var afhent frá félaginu við það tækifæri. Er sú gjöf mér ævarandi

áminning um góðhug ykkar allra í minn garð og jafnframt hvatning til framhaldandi trúnaðar við málstað vorn og eggjan til dáða í þágu hans.

**Útgáfumál**

TÍMARIT félagsins kemur út með sama hætti og áður, nema hvað það hefir dálítið verið minnkað að stærð í samræmi við samþykkt síðasta þings. Gísli Jónsson varð við tilmælum stjórnarnefndarinnar um að taka að sér ritstjórnina enn eitt árið, og megum vér vera honum þakklát fyrir það, því að vitað er, að ritið er í ágætum höndum meðan hans nýtur við í því starfi. Páll S. Pálsson tók a sér söfnun auglýsinga, og munu auglýsingar í ár vera í góðu meðallagi eftir því, sem um er að gera í þeim efnum. Bera honum þakkir fyrir þann árangur viðleitni sinnar í félagsins þágu.

Ekki er því að neita, að ritið er mjög dýrt í rekstri, því að allur prentkostnaður hefir stórhækkað á síðari árum, en hins er jafnframt að minnast, hve lengi ritið var „bæði lífæð og fjársjóður félagsins," eins og réttilega var komist að orði um það á sínum tíma af einum forseta þess. Og enn mun ritið eiga sinn fulla þátt í því, að margir eru í félaginu, einkum fjarri höfuðstöðvunum í byggðum vorum, sem eigi myndu annars vera á félagaskránni. Loks ber það að muna, að þó Þjóðræknisfélagið hafi margt gott og merkilegt unnið, sem átt hefir og á enn meir en stundargildi, þá er ég ekki í neinum vafa um það, að útgáfa **Tímaritsins** er það verk þess, sem varanlegast reynist og lengst heldur nafni þess á lofti. Skáldið mikla hafði laukrétt að mæla, er hann sagði: „**Myndasmíðar andans skulu** standa." Allt hið ofanskráða skulum við hafa í huga, er vér ræðum um framtíðarútgáfu ársrits félags vors.

Þá hefir félagið í ár, eins og að undanförnu, styrkt útgáfu vestur-íslenzku vikublaðanna með nokkru fjárframlagi, og er því fé vissulega vel varið. Eins og kunnugt er, átti **Lögberg** 70 ára afmæli núna um áramótin, en stuttu áður steig **Heimskringla** inn yfir þröskuld 72. árs síns. Í tilefni þessara merkistímamóta í sögu blaðanna sendi stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins þeim kveðjur og velfarnaðaróskir með þökkum fyrir margháttaðan stuðning við þjóðræknismálin, þar sem jafnframt var lögð áherzla á það, hvert sameiningarafl blöðin eru oss Íslendingum innbyrðis hér í álfu og yfir hafið. Er óþarft að endurtaka það á þessum stað, en ég vík að þessu grundvallaratriði í félagsmálum vorum með það fyrir augum, að minna félagsfólk vort og Íslendinga almennt í landi hér á það, að sýna í verki verðugan stuðning við vikublöð vor. Þau eru oss ómissandi, eigi félagslíf vort ekki að fara í mola.

**Milliþinganefndir**

Auk milliþinganefndarinnar í **skógræktarmálinu**, eru starfandi **minjasafnsnefnd** og **húsbyggingarnefnd**; er frú Marja Björnsson formaður hinnar fyrrnefndu en frú Björg V. Ísfeld hinnar síðarnefndu, og gera þær grein fyrir störfum nefnda sinna síðar á þinginu. Ennfremur hefir **Leifs styttu** málið lengi verið í höndum nefndar af félagsins hálfu, og er Guðmundur Grímson, hæstaréttardómari í Bismarck, N. Dakota, formaður hennar. En þar sem tími virðist löngu kominn til þess að ráða því máli til lykta, leggur stjórnarnefnd fyrir þingið ákveðnar tillögur um ráðstöfun Leifs styttunnar.

**Skýrslur embættismanna og deilda**

Féhirðir, fjármálaritari og skjalavörður gera venju samkvæmt grein fyrir fjárhag félagsins og eignum í rinum prentuðu skýrslum sínum, en skýrslur deilda greina frá starfi þeirra á árinu. Þarf ekki að fjölyrða um það, hverjir hornsteinar deildirnar eru starfsemi félagsins og allri tilveru þess; ber oss, eftir því sem þörf krefur, að hlynna að starfi þeirra af fremsta megni og með hverjum þeim hætti, er helzt má þeim að gagni koma.

**Ný mál**

Auk nýmælanna varðandi samvinnumálin við Ísland, skal athygli dregin að einu máli, sem er algerlega nýtt af nálinni. Stjórnarnefndin leggur til, með rökstuddri greinargerð, að Þjóðræknisfélagið beiti sér fyrir því, að stofnuð verði í íslenzka bókasafninu í Manitobaháskóla sérstök deild, er saman standi af bókum og ritgerðum eftir dr. Vilhjálm Stefánsson og um hann. Er dr. Vilhjálmur samþykkur þessari hugmynd og hefir heitið málinu stuðningi sínum, og hið sama hafa nákomnir vinir hans gert. Vænti ég þess einnig, að mál þetta fái góðan byr á þinginu, en það verður skýrt nánar í fyrrnefndri greinargerð stjórnarnefndar.

**Fjörutíu ára afmæli félagsins**

Félag vort á fertugsafmæli næsta ár. Verður þeirra merku tímamóta í sögu þess væntanlega minnzt á verðugan og virðulegan hátt, og þá um annað fram stofnenda félagsins, lífs og liðinna, en góðu heilli er nokkur hópur þeirra Birkibeina enn ofan moldar og starfandi í félaginu, og þeim ber oss sérstaklega að sýna einhvern sóma, því að sannleiksgildi eftirfarandi orða Einars Benediktssonar stendur enn óhaggað:

Það fagra, sem var, skal ei lastað og lýtt,
en lypt upp í framför, hafið og prýtt.

Að fortíð skal hyggja, ef frumlegt skal byggja,
án fræðslu þess liðna sést ei hvað er nýtt.

Hér dregur skáldið réttilega athyglina að þeim sannindum, að oss beri að læra af fortíðinni og reynslu hennar, og síðan að byggja betur og traustar fyrir samtíð og framtíð á þeim grundvelli. Forseti Íslands og heiðursverndari félags vors, herra Ásgeir Ásgeirsson, hafði svipað í huga, er hann komst svo að orði í útvarpsávarpi sínu til þjóðarinnar síðastliðinn nýársdag: „Hin forna frægð kemur þá fyrst að notum, ef það sýnir sig, að atorkan lifir enn í kynstofninum, og vitsmunir og skapsmunir hrökkva til að mæta nýjum viðhorfum.“

Með fertugsafmælis í huga skulum vér beita því viðhorfi til félagsmála vorra og sterngja þess heit, hvert í sínu lagi, að afla félaginu sem flestra nýrra félaga á því afmælisári þess, sem nú fer í hönd. Jafnframt ættum vér að safna fé í myndarlegan afmælissjóð, svo að félagið hafi nokkurt fjármagn til þess að vinna öfluglegar að þeim menningarmálum, sem við leitni þess er sérstaklega helguð: — félagslegrar samhaldni vor á meðal og varðveizlu tiginnar tungu vorrar og annarra íslenzkra menningarverðmæta.

Ársþing vor eru „góðra vina fundur“ og í táknrænum skilningi „sólskinsblettur í heiði,“ svo að tekin séu að láni alkunn orð listaskáldsins góða, sem vitnað var til í byrjun þessa máls. Og vér skulum gleðjast í góðum hópi, því að slíkar samvistir verma hugann og styrkja bræðrabandið. En gleymum því eigi, að vér erum einnig hingað komin til þess að vinna að félagsmálum vorum og vér skulum horfast hreinskilnislega í augu við vandamál vor og taka þau sem föstustum tökum.

Um leið og ég, að málslokum, býð yður öll hjartanlega velkomin á þetta 39. ársþing Þjóðræknisfélagsins, kveð ég yður til dáða með eggjandi ljóðlínum Einars P. Jónssonar úr kvæðinu, sem hann orti til félags vors á 25 ára afmæli þess:

Glímt þó sé við ofurefli
aldrei siglir neinn í strand,
sem með hetjutápi treystir
trúna á guð og föðurland.

Í þeim anda skulum vér ganga til þingstarfa, og ég trúi því, að blessun fylgi heilhuga viðleitni vorri að góðum málum.

Dr. Valdimar J. Eylands lagði til, að fundargestir risu úr sætum sínum og vottuðu forseta þakkir fyrir skýrsluna. Var það þegar gert. Dr. Eylands lagði ennfremur til, að forseta yrði falið að skipa í nefndir. Var sú tillaga þegar samþykkt, og fóru síðan fram útnefningar.

Þessi voru skipuð í dagskrárnefnd:
Dr. Valdimar J. Eylands,
Elín Hall,
Frú Kristín Þorsteinsson.
Í kjörbréfanefnd:
Guðmann Levy,
Frú Herdís Eiríksson,
Frú Rósa Jóhannsson.
Þá flutti féhirðir, G. L. Jóhannson fjárhagsskýrlu Þjóðræknisfélagsins og skýrslu um húseign þess á Home Street.

**Fjárhagsskýrsla féhirðis**

Tekjur og útgjöld yfir tímabilið
7. febr. 1957 til 10. febr. 1958.

TEKJUR:

| | | |
|---|---|---|
| 7. febr 1957, Á Royal Bank of Canada | | $2,654.36 |
| 7. fegr. 1957, Á Royal Bank of Canada, innstæða | | $ 829.41 |
| Frá fjármálaritara fyrir meðlimagjöld | $ 558.02 | |
| Tillög styrktarmeðlima | 111.00 | |
| Fyrir auglýsingar, 38. árg. Tímaritsins | 1,664.00 | |
| Fyrir auglýsingar, 39. árg. Tímaritsins | 128.00 | |
| 652 Home Street, Winnipeg | 1,505.72 | |
| Banka- og aðrir vextir | 97.12 | $4,063.86 |
| Samtals | | $7,547.63 |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Ársþingskostnaður | $ 172.76 | |
| Ágóði af samkomu | 80.50 | $ 92.26 |
| **Tímarit, 38. árgangur:** | | |
| Ritstjórn og ritlaun | $ 275.50 | |
| Prentun (áður borgað $1,000) | 871.65 | |
| Auglýsingasöfnun | 416.00 | $1,563.15 |
| **Tímarit, 39. árgangur:** | | |
| Prentun | $1.000.00 | |
| Auglýsingasöfnun | 32.00 | $1,032.00 |
| Ríkisgjöld | $ 4.00 | |
| Bankagjöld | 10.99 | |
| Risna | 186.10 | |
| Símskeyti og frímerki | 14.94 | |
| Ýmislegt | 69.50 | |
| Prentun | 14.85 | |
| Þóknun fjármálaritara | 59.00 | |
| Ferðakostnaður | 51.00 | $ 410.02 |
| Styrkur til vikublaðanna: | | |
| Heimskringlu | $ 250.00 | |
| Lögbergs | 250.00 | $ 500.00 |
| Öll útgjöld á árinu | | $3,597.43 |
| 1957 fyrning á 652 Home Street | $ 600.00 | |
| Fyrningarsjóður | 2,654.36 | |

| | | |
|---|---|---|
| 10. febr. 1958, Á Royal Bank of Canada, fyrningarsjóður | | $3,254.36 |
| 10. febr. 1958, Á Royal Bank of Canada, innstæða | | $ 695.84 |
| | Samtals | $7,547.63 |

**Grettir Leo Johannson,** féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann at athuga.

Winnipeg, Canada, 18. febrúar 1958.

**Davíð Björnsson — Jóhann Th. Beck,**

Endurskoðendur.

**652 HOME STREET
STATEMENT FOR 1957**

| | | |
|---|---|---|
| **Total Receipts for 1957** | | $3,290.50 |
| **Total Disbursements for 1957:** | | |
| Taxes | $ 501.37 | |
| Water Works | 84.11 | |
| Fuel | 487.32 | |
| Management | 120.00 | |
| Light & Power | 208.97 | |
| Sundries | 11.70 | |
| Plumbing | 96.30 | |
| Supplies & Repairs | 108.27 | |
| Electrical Repairs | 57.35 | |
| Stoker Repairs | 12.89 | |
| Decorating | 178.50 | |
| Chimney Cleaners | 8.50 | |
| Boiler Insptction Fee | 3.00 | |
| | $1,878.28 | |
| Dec. 31, Credit Balance | $1,505.72 | |
| Totals | $3,290.50 | $3,290.00 |

Framanritaða reikninga höfum við endurskoðað og höfum ekert við þá að athuga.

Winnipeg, Canada, 18. febrúar 1958.

**Davíð Björnsson — Jóhann Th. Beck,**

Endurskoðendur.

Gerði féhirðir það að tillögu sinni, að báðum skýrslunum yrði vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Dr. V. J. Eylands studdi, og var tillagan viðtekin og samþykkt.

Þá flutti fjármálaritari, Guðmann Levy, skýrslu sína. Var sú skýrsla viðtekin og samþykkt.

**Skýrsla fjármálaritara**

yfir árið 1957

| | | |
|---|---|---|
| INNTEKTIR: | | |
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 77.00 | |
| Frá deildum | 513.00 | |
| ÚTGJÖLD: | | |
| Burðargjöld undir bréf og Tímarit | | $ 31.98 |
| Afhent féhirði | | 558.02 |
| Alls | $590.00 | $590.00 |

**Guðmann Levy,** fjármálaritari

Þá tók til máls formaður dagskrárnefndar, dr. V. J. Eylands og gerði tillögur um skipan dagskrár.

Lagði formaður til að skýrsla sín yrði viðtekin, Elín Hall studdi og var skýrslan síðan samþykkt.

Forseti, dr. Richard Beck, flutti því næst kveðjur til þjóðræknisþingsins frá Sr. Benjamín Kristjánssyni á Íslandi, "The Society for the Advancement of Scandinavian Studies," en dr. Beck er formaður þess félagskapar. Þá flutti og dr. Beck kveðjur frá forseta ríkisháskólans í Norður Dakota. Einnig barst kveðja frá séra Ólafi Skúlasyni á Mountain.

Dr. V. J. Eylands lagði til, að væntanlegri allsherjarnefnd yrði falið að svara kveðjunum, ef þurfa þætti.

Þá var tekið fyrir næsta mál á dagskrá, þ. e. skýrslur deilda.

Forseti „Fróns" í Winnipeg las skýrlu félags síns.

Winnipeg, Manitoba, 22. febrúar 1958.

**DEILDIN „FRÓN"**

**Ársskýrsla ritara**

Síðastliðið starfsár hefir borið því ljóst vitni, að deildin hefir enn mikið verk að vinna á sviði þjóðrækninnar hér í borg. Samkomur okkar og fundir hafa verið betur sótt en undanfarið, enda hefir verið vandað til þeirra eftir föngum. Tvær meiriháttar skemmtanir voru haldnar og sex skemmtifundir.

Frónsmótið tókst ágætlega og það sama má segja um samkomuna, sem haldin var 17. júní. Var hún sú þriðja í röðinni, sem deildin hefir staðið fyrir, og verður þeim sið eflaust haldið áfram í framtíðinni. Meðal aðsókn að fundum hefir verið 70 manns.

Margir hafa orðið til þess að styrkja deildina með því að skemmta á fundum. Má þar nefna þá séra Ólaf Skúlason, séra Valdimar J. Eylands, séra Phillip M. Pétursson, dr. Richard Beck, prófessor Harald Bessason og prófessor Tryggva J. Oleson, sem allir hafa flutt erindi á fundum. Þá

hafa fleiri en hér er hægt að telja skemmt með söng og hljóðfæraslætti, og enn aðrir með því að sýna og skýra myndir teknar í Íslandsferðum. Í seinni hópnum má nefna Ingibjörgu Bjarnason, Helen Josephson, Jakob Kristjánsson og Dr. Lárus A. Sigurdson, sem nýverið sýndi kvikmyndir, sem hann hefir tekið á Íslendingadögum síðan 1944. Öllu þessu fólki, nefndu og ónefndu, er hér með innilega þakkað.

Þann 11. nóvember s.l. stofnaði deildin í samráði við stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins til samkomu í minningu um 150 ára fæðingarafmæli Jónasar Hallgrímssonar og þótti hún takast hið bezta. Ræðu flutti Dr. Richard Beck, en Hólmfríður Danielson og Ingibjörg Bjarnason skemmtu með upplestri og söng. Þá tóku félagsmenn virkan þátt í þeim hátíðahöldum, sem efnt var til í sambandi við komu biskups Íslands og föruneytis hans síðastliðið sumar.

Fjárhagur deildarinnar stendur föstum fótum og átti hún um áramót yfir $300.00 í sjóði, þó að $500.00 hafi verið gefnir til Betel síðustu tvö árin. Þess má líka geta, að öðrum $400.00 hefir verið lofað til þessarar stofnunar og mun sú upphæð greidd á næstunni.

Bókasafnið hefir verið starfrækt á svipaðan hátt og undanfarið og hefir bókakostur aukizt nokkuð aðallega af gjöfum sveitasafna, sem smám saman eru að týna tölunni og taka þennan kost til að bjarga bókum sínum frá glötun.

Meðlimir deildarinnar eru nú 224 og er sú tala örlítið lægri en í fyrra. Við þessu er illmögulegt að sjá, sakir þess hvað margir af hinum eldri falla frá á hverju ári, en tiltölulega fáir koma í staðinn, að minnsta kosti af sjálfsdáðum. Samt hefir forseta með herkjubrögðum tekizt að halda nokkurn veginn í horfi.

Á síðasta ársfundi var stjórnarnefndin endurkosin og er hún nú skipuð sem hér segir:

Forseti—Jón Johnson,
V.-forseti—Steindór Jakobsson,
Ritari—Heimir Thorgrimson,
V.-ritari—Ingi Swainson,
Gjaldkeri—Jochum Ásgeirsson,
V.-gjaldkeri—Gunnar Baldwinson,
Fjármálaritari—Benedikt Ólafsson,
V.-fjármálaritari—Einar Sigurdson.

Frón mun eins og að undanförnu fylgja Aðalfélaginu í öllum þeim málum, sem til góðs horfa í þjóðræknisefnum og óskar að starfs þingsins, sem í hönd fer, megi bera sem mestan árangur.

Virðingarfyllst,
**Heimir Thorgrímsson,** ritari

Lagði Jón til að skýrslan yrði viðtekin. Frú Kristín Johnson studdi, og var skýrslan samþykkt.

Ritari, H. Bessason, las skýrslu Þjóðræknisdeildarinnar „Aldan" í Blaine.

Deildin Aldan í Blaine, Wash., sendir hinu þrítugasta og níunda ársþingi Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga alúðarkveðju og einlæga ósk um að öll mál verði sem heppilegast til lykta leidd og þingið sem ánægjulegast í alla staði.

**A. E. Kristjánsson,** forseti
**Mrs. Dagbjört Vopnfjörð,** ritari

**Skýrsla „Öldunnar**
yfir árið 1957

Árið 1957 hefir Þjóðræknisdeildin „Aldan" í Blaine, Wash., haft fjóra almenna fundi og tvo stjórnarnefndarfundi. Til minningar um frelsi og fullveldi Íslands var 17. júní haldinn hátíðlegur með almennri skemmtisamkomu, sem vel var sótt og vel af látið.

Kveðjusamsæti fyrir Dr. og Mrs. H. S. Sigmar, í samfélagi við Lestrarfélagið „Jón Trausta" hafði Aldan í apríl, í tilefni af brottflutningi þeirra frá Blaine til Kelso, Wash., og í sama mánuði minntist deildin, ásamt Lestrarfélaginu, 80 ára afmælis forseta deildarinnar, séra Alberts Kristjánssonar, með samsæti honum til heiðurs.

Í desember voru sýndar íslenzkar Hal Linker kvikmyndir, sem eru eign Þjóðræknisfélagsins og forseti Öldu fékk lánaðar fyrir deildina.

Eins og nokkur undanfarin ár sér Aldan um kosningu Íslendingadagsnefndar fyrir þetta byggðarlag.

Tvennt er efst á dagskrá Öldu, íslenzk áhugamál og elliheimilið Stafholt hér í Blaine, sem deildin hefir þetta ár sem fyrr gefið $100.00. Aldan á á bak að sjá þremur meðlimum, sem látizt hafa á árinu: Guðna Davíðsson, Guðmundi Guðbrandsson og Sigurði Arngrímsson.

Meðlimatala um þessi áramót 31.

**A. E .Kristjánsson,** forseti
**Mrs. Dagbjört Vopnfjörð,** ritari

Ritari lagði til, að skýrslan yrði viðtekin. Dr. V. J. Eylands studdi, og var skýrslan síðan samþykkt.

Gestur Jóhannsson las ársskýrslu Þjóðræknisdeildarinnar „Brúin" í Selkirk.

**Ársskýrsla Deildarinnar „Brúin" 1957**
Selkirk, Manitoba.

Deildin hefir haldið sjö starfsfundi á þessu liðna ári. Einnig hefir deildin komið á fjórum arðberandi samkomum.

Félaginu hafa hlotnazt um 90 bækur þetta ár bæði nýjar og gamlar, flestar af þeim gefnar, og er deildin mjög þakklát þeim, sem gáfu bækurnar. Nokkrar af þessum bókum hafa nú verið bundnar í nýtt band og bókasafnið flutt á nýjan og betri stað.

Þann 7. júní hafði deildin kveðjumót fyrir séra Sigurð Ólafsson og frú hans í tilefni af burtför þeirra frá Selkirk. Séra Sigurður hefir veðir meðlimur deildarinnar í mörg ár og þótt félagsmönnum mjög fyrir að sjá þau góðu hjón flytja burt.

Þrír meðlimir hafa dáið á árinu: Kristín K. Ólafsson, Jón Hinriksson og Sigþrúður Stefánsson. — Tveir nýir meðlimir hafa bætzt í hópinn.

Með hughlýjum óskum til Þjóðræknisfélagsins og ársþings þess.

**E. Vigfússon**, forseti
**Ásta Sveinsson**, ritari

Lagði flutningsmaður til, að skýrslan yrði viðtekin. Ingibjörg Jónsson studdi, og var skýrslan síðan samþykkt.

Stefán Eymundsson flutti ársskýrslu Þjóðræknisdeildarinnar „Ströndin" í Vancouver, svo og fjárhagsskýrslu deildarinnar.

**Ársskýrsla Deildarinnar „Ströndin,"**
Vancouver, B.C., 1957.

Ársskýrsla deildarinnar er ekki að miklu leyti frábrugðin því, sem hún hefir verið að undanförnu. Á árinu voru haldnir þrír almennir fundir, auk nefndarfunda. Urðu talsverðar umræður um að reyna að fjölga fundum, en sakir misjafns áhuga fólks að sækja fundi hefir enn ekki verið reynt að koma því í framkvæmd. Aftur á móti hefir deildin haldið sex skemmtisamkomur á árinu. Samkoma 5. marz 1957. Voru gestir á þeirri samkomu Dr. Sveinn Björnsson og frú Marja. Flutti frúin fróðlegt erindi, en Dr. Björnsson frumsamið kvæði. Einnig söngur og píanóspil.

Þann 25. apríl fjölmenn sumarmálasamkoma. Var góð skemmtiskrá og góðar veitingar.

Þann 17. júní vel sótt samkoma og góð skemmtiskrá.

Þann 1. ágúst sýndi séra Phillip M. Pétursson fallegar íslenzkar kvikmyndir (Hal Linker) við góða aðsókn og naut fólk skemmtunar og veitinga á eftir.

Þann 1. september hélt Ströndin sína árlegu hlutaveltu. Heppnaðist hún ágætlega.

Þann 6. desembre sýndi Carl Finnbogason fallegar myndir frá Íslandi, Danmörku og víðar, er hann tók á ferð sinni til Íslands og Danmerkur síðastliðið sumar.

Allar hafa þessar samkomur verið haldnar í samkomusal íslenzku lútersku kirkjunnar á 41st Ave. Bókasafn Strandar hefir verið notað nokkuð á árinu, eða meira en verið hefir. Um 85 félagsmenn eru í deildinni.

Þessir skipa stjórnarnefnd Strandar fyrir árið 1958:
Forseti—Stefán Eymundsson,
V.-forseti—Carl Finnbogason,
Skrifari—Séra Eiríkur Brynjólsson,
V.-skrifari—G. Stefánsson,
Féhirðir og auglýsingastjóri — Chr. Ísfjord,
V.-féhirðir—Sig. Johnson.
Í Cntral Scandinavian Committee: — Dr. Júlíus Friðleifsson og Carl Finnbogason.
Í Elliheimilisnefnd „Hafnar": — Fred Lyngdal.
Endurskoðunarmenn: Óli Anderson og Fred Lyngdal.

Vancouver, B.C., í janúar 1958.

Virðingarfyllzt,
**G. Stefánsson**, vara-ritari

**„STRÓNDIN"**
Þjóðræknisdeild Íslendinga í Vancouver
**Fjárhagsskýrsla yfir árið 1957**

Samkvæmt boði forsetans hef ég samið fjárhagsskýrslu yfir bankaeign, inntektir og útgjöld deildarinnar fyrir árið 1957.

**Bankaeign og inntektir, 1957:**

| | |
|---|---|
| Bankaeign 1. janúar, 1957 | $ 40.91 |
| Allar inntektir, 1957 | 564.14 |
| Peningar alls, 1957 | $605.05 |

**Útgjöld alls 1957:**

| | |
|---|---|
| Borgað úr sjóði 1957 | $521.48 |
| Bankaeign 31. des. 1957 | 83.57 |
| Alls 1957 | $605.05 |

Virðingarfyllzt,
**C. H. Ísfjörð**, féhirðir

Yfirskoðað og rétt fundið.
**F. O. Lyngdal** og **O. Anderson**, yfirskoðunarmenn.

Báðar skýrslurnar voru viðteknar og samþykktar.

Forseti, dr. Beck, mælti nokkur þakkarorð til Íslendinga í Vancouver og til Þjóðræknisdeildarinnar þar.

Guðmann Levy las skýrslu kjörbréfanefndar:

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

Fulltrúar frá eftirtöldum deildum fari með atkvæði sem hér segir:

| **Frón, Winnipeg, Man.** | Atkvæði |
|---|---|
| Soffía Benjanmínsson | 15 |
| Sigríður Jakobsson | 15 |
| Hlaðgerður Kristjánsson | 15 |
| Oddný Ásgeirsson | 15 |
| Elín Hall | 15 |

| | |
|---|---|
| Jakobína Nordal | 15 |
| Jóhanna Jónasson | 15 |
| Rósa Jóhannsson | 15 |
| Jón Jónsson | 15 |
| Marja Björnsson | 15 |

| **Deildin „Gimli,“ Gimli** | Atkvæði |
|---|---|
| Mrs. Kristín Thorsteinsson | 20 |
| Guðmundur B. Magnússon | 20 |
| Mrs. Emma Von Renesse | 20 |
| Mrs. Elín Sigurðsson | 6 |

| **„Brúin,“ Selkirk** | Atkvæði |
|---|---|
| Gestur Jóhannsson | 9 |
| Mrs. Þórunn Jóhannsson | 9 |
| Kristinn Goodman | 9 |
| Mrs. Margrét Goodman | 9 |

| **„Ströndin,“ Vancouver** | Atkvæði |
|---|---|
| Stefán Eymundsson | 20 |

| **Deildin „Esjan,“ Árborg** | Atkvæði |
|---|---|
| Herdís Eiríksson | 16 |
| Tímótheus Böðvarsson | 16 |
| Halldór A. Austman | 16 |
| Anna Austman | 16 |

| **Deildin „Lundar,“ Lundar** | Atkvæði |
|---|---|
| Kári Byron | 20 |
| Gísli Gíslason | 20 |

Auk ofangreindra fulltrúa hafa allir skuldlausir meðlimir aðalfélagsins atkvæðisrétt. Sömuleiðis 50 einstakir meðlimir deildarinnar Frón.

Winnipeg, 24. febr., 1958,

**Guðmann Levy**
**Herdís Eiríksson**
**Rósa Jóhannsson.**

Lagði flutningsmalur til, að skýrslan yrði viðtekin sem bráðabirgðaskýrsla. Var það stutt og skýrslan viðtekin, síðan var fundi frestað til kl. 2 e. h.

**2. FUNDUR**
**kl. 2 e. h. mánud. 24. febr.**

Lesin var fundargerð síðasta fundar og hún samþykkt.

Frú Herdís Eiríksson flutti skýrslu Þjóðræknisdeildarinnar „Esjan“ í Árborg:

**Skýrsla Þjóðræknisdeildarinnar „Esjan“**
í Árborg fyrir árið 1957

Esjan telur 64 meðlimi.

Alíslenzk samkoma var haldin í samkomuhúsi Geysisbyggðar 17. maí s.l. Var samkoma þessi afar fjölbreytt og vel sótt. Próf. Haraldur Bessason flutti fróðlegt og skemmtilegt erindi. Þökkum við próf. Haraldi innilega fyrir komuna. Sýndur var stuttur leikþáttur „Lási trúlofast.“ Börn skemmtu með upplestri, píanóleik, þrísöng og fjórsöng. Tveir söngflokkar sungu undir stjórn þeirra systkinanna Jóhannesar Pálsson og Lilju Martin, um 70 börn alls. Þessir söngflokkar hafa áður sungið við ýms tækifæri, þar á meðal á Pool Elevator samkomu, er haldin var í Winnipeg 22. okt. s.l. Ætlazt er til, að þessir söngflokkar haldi áfram að starfa í framtíðinni.

Dr. Richard Beck kom í skyndiheimsókn til Árborgar og á síðastliðnu hausti, heimsótti hann deildarfólk og ræddi þjóðræknismál. Þökkum við dr. Beck kærlega fyrir komuna.

Bókasafn deildarinnar hefir verið starfrækt með líkum hætti og að undanförnu. Útlán á bókum jókst að mun síðastliðið ár. Bókaherbergið, sem safnið var flutt í fyrir tveimur árum, reyndist ófullnægjandi. Í sumar, sem leið voru því bækur deildarinn fluttar í annað herbergi, stærra og hentugra að öllu leyti. Mikið af bókum hefir verið bundið og lagað.

Á Esjufundi, er haldinn var um miðjan febrúar var ákveðið að gefa $100.00 til Betel. Tuttugu dollurum var bætt við sérstakan sjóð, er samkomunefnd deildarinnar hefir umráð yfir, er notaður verður í þágu söngmála.

**Fjármálaskýrsla**

| | |
|---|---|
| Á banka í janúar 1957 | $147.20 |
| Inntektir á árinu | 635.21 |
| Tekjur alls | 775.41 |
| Útgjöld á árinu | 442.65 |
| Í sjóði um áramót 1957-'8 | $332.76 |

**Herdís Eiríksson,** ffhirðir

Lagði frúin til, að skýrslan yrði viðtekin. Tímóteus Böðvarsson studdi, og var skýrslan að því búnu viðtekin og samþykkt.

Frú Kristín Þorsteinsson las ársskýrslu Þjóðræknisdeildarinnar Gimli:

**Skýrsla**
**Þjóðræknisdeildarinnar Gimli 1957**

Á síðastliðnu ári hafa verið haldnir fjórir starfs- og skemmtifundir. Þessir fundir hafa verið allvel sóttir. Það hefir verið reynt að halda uppi íslenzku starfi með því að kenna unglingum íslenzka söngva, og gengur það eftir öllum vonum. Meðlimatala deildarinnar er 65.

Við nutum þeirrar ánægju, að forseti Þjóðræknisfélagsins, dr. Rishard Beck, heimsótti deildina 9. nóvember s.l. Las hann fyrst margar kímnisögur, og síðan flutti hann fróðlegt og skemmtilegt erindi um Jónas Hallgrímsson skáld. Það er alltaf hressandi að sjá og heyra dr. Beck. Fundarfólk hafði mjög mikla ánægju af heimsókn hans.

Deildin átti í sjóði um áramót $124.23.

Á ársfundi 30. janúar voru kosin í stjórnarnefnd deildarinnar:

Forseti, Mrs. Kristín Thorsteinsson
Vara-farseti, Mrs. Elín Sigurðsson
Ritari, I. N. Bjarnason
Vara-ritari, Mrs. I. N. Bjarnason
Féhirðir, W. J. Árnason
Vara-féhirðir, Mrs. W. J. Árnasan
Fjármálaritari, Hjálmur Thorsteinsson
Vara-fjármálaritari,
Mrs. Ragnhildur Stevens
Skjalavörður, Mrs. Guðrún Stevens.

Með innilegri kveðju til þingsins, megi allt ganga að óskum.

**Ingólfur N. Bjarnason**, ritari

Gimli deildin hafði samkomu 7. október. Þar skemmti Mrs. Kristín Johnson frá Winnipeg með ágætri litmyndasýningu frá ferðalagi sínu um Ísland. Samkoman var vel sótt og allir skemmtu sér vel. — Einnig heimsótti deildin Betel 27. desember; konurnar komu með góðar veitingar; skemmt var með söng og upplestri.

Tveir samverkamenn okkar létuzt á árinu þeir Magnús S. Magnússon og Hallgrímur G. Sigurðsson.

**Mrs. Kristín Thorsteinsson**, forseti

Lagði frúin að því búnu skýrsluna undir samþykki. Stutt af mörgum og skýrslan samþykkt .

Frú María Björnsson flutti skýrslu milliþinganefndar í skógræktarmálinu.

**Skýrsla skógræktarnefndar**

Ýmissa orsaka vegna hefir nefnd þessi ekki haft neinn fund á liðnu ári, en þó hefir málinu verið haldið vakandi með bréfaviðskiptum við framkvæmdarstjóra skógræktar ríkisins á Íslandi, Hákon Bjarnason, og ýms félög hér viðvíkjandi fræsöfnun. Hákon Bjarnason segir í bréfi til mín 20. sept. frá Vestur-íslendingareitnum á Þingvöllum, að búið sé að planta í einn hektara lands. „Og við munum halda áfram með gróðursetningu í hann á næstu árum. Reiturinn er um 600 metra frá bílvegi, og er beint austur frá Vellankötlu. Við getum haft hann frá 5 og upp í 10 hektara með tímanum, allt eftir því, sem við viljum. Ég hefi hugsað mér að taka reitnum dálítið tak á næsta vori af því við höfum svo ágætar plöntur, bæði stórar og sérlega fallegar, og þar að auki eru þær af ágætum stofni, en það er fyrir mestu. Reiturinn er í hallanum niður frá Hrafnagjá, rétt við gamla veginn að Gjábakka á skýldum og góðum stað."

Þá getur hann þess að hafa fengið bréf frá Mrs. Mary Sturner í Minneapolis með $100.00 gjöf til skógræktar á Íslandi. „Ég þakkaði henni hina góðu gjög og sagðist mundi láta planta 3000 plöntum a. m. k. fyrir þetta á næsta vori í þennan reit."

Ennfremur segir hann í þessu bréfi: — „Okkur hér þykir vænt um að þið hafið stofnað með ykkur skógræktarnefnd. Hér verður fundur í Skógræktarfélagi Íslands á þriðjudag, fyrsti fundur eftir sumarið, og mun ég skýra frá þessu þar. Við höfum látið gera litla kvikmynd 16 mm. með magnetísku tali af starfsemi okkar. Líklega gæti ég sent ykkur hana að láni þegar líður að vetri og við höfum notað hana á fáeinum stöðum. Þú lætur mig vita ef þið hafið áhuga fyrir þessu.

Okkur langar alltaf í fræ frá British Columbia, en það er sannarlega erfitt að ná í það frá þeim stöðum, sem koma til greina handa okkur. Má vera að þið séuð kunnugri þessu af því þið búið nær."

Í bréfi dagsettu 1. desember skrifar Hákon meðal annars þetta:

„Eitt af því, sem ég hefi mikinn áhuga fyrir, er að ná í Douglas Fir (Oregon Pine) frá nyrztu og samtímis hæstu vaxtarstöðum hennar, en því miður ber þetta tré ekki árlega fræ við norðurmörkin. En þessi tré eru í héruðunum rétt við landamæri Alaska. Þau eru svo sunnarlega að okkur dugir ekki annað en taka fræ við efstu mörk tegundarinnar, þar sem sumarhiti er minni en niður við sjó . . .

En við getum líka notað fræ frá suðlægari stöðum, ef hins er ekki kostur, en þá er það alveg skilyrðislaus nauðsyn, að fræið sé tekið við efstu mörk tegundarinnar í fjöllum. Og slíkt getur líka verið erfitt. Í B.C. eru líka ýmsar aðrar trjátegundir, sem okkur langar til að ná í t. d. Engelmann Spruce, Alpine Fir, Lodgepole Pine, Limber Pine, Whitebark Pine, Western White Pine og jafnvel nokkrar fleiri."

Á árinu liðna skrifaði ég til Vancouver eftir upplýsingum viðvíkjandi trjáfræi og fékk það svar frá V. Johnson of Layritz Nurseries Limited, að Roche Tree Seeds 875 General Currie Rd., Lulu Island, Vancouver, hefði til sölu Douglas Fir fræ frá háum stöðum og köldu loftslagi. Þá hefði einnig The Research Dept. Forest Service in Victoria, B.C. fræ af ýmsum tegundum, sem ef til vill væri hægt að nota á Íslandi. —

Þá skrifaði H. H. Austmann fyrir mig til Mr. Shoemacker of Sandvick, Mass. viðvíkjandi frætegund, sem heitir Picea Asperata, og sem Hákon hafði áður sagt, að sig langaði til að reyna á Íslandi. Reyndist fræ af þessari tegund ekki fáanlegt. En Mr. Shoemacker benti á aðra tegund, sem er Picea Abies, og sagði að hún væri að mörgu leyti lík þeirri fyrrnefndu. Skrifaði ég svo Hákoni um þetta og á von á svari frá honum bráðlega.

Annað sem gert hefir verið er, eins og kunnugt er, grein um skógræktarmálið frá dr. R. Beck, þar sem hann hvetur bæði einstaklinga og deildir Þjóðræknisfélagsins til þess að gjörast meðlimir Skógræktar-

félags Íslands. Minntist ég einnig á það mál á ársfundi deildarinnar á Lundar og gjörðist sú deild meðlimur í Skógræktarfélaginu á þeim fundi.

Nú virðist mér liggja fyrir þessu þingi að gera ráðstafanir fyrir áframhaldandi samvinnu við Skógræktarfélag Íslands. Öllum kemur víst saman um, að þetta sé nauðsynjamál, og í því að safna fræi standa Vestur-Íslendingar betur að vígi en heimaþjóðin. Væri því ekki vansalaust af okkur hér að láta málið falla í gleymsku. Vill því nefndin mælast til þess að Þjóðræknisfélagið leggi fram nokkurt fé til frækaupa, eða þá krónur til framhaldsstarfs við reit Vestur-Íslendinga á Þingvöllum.

Á þjóðræknisþingi Vestur-Íslendinga 1958.

Virðingarfyllst,

**Marja Björnsson**
**Haraldur Bessason**

Þá flutti frú Marja skýrslu milliþinganefndar í minjasafnsmálinu.

**Skýrsla fornminjasafnsnefndar**

Um þetta mál hafði nefndin einn samtalsfund á árinu. Hefir formaður nefndarinnar einnig minnzt á þetta mál við ýms tækifæri og ennfremur minnt á það í Lögbergi og Heimskringlu. Undirtektir fólks hafa verið góðar, en það hefir látið í ljós þá skoðun, að hlutirnir væru bezt geymdir þar sem þeir eru þangað til Þjóðræknisfélagið hefir gert ráðstafanir fyrir betri geymslustað. Einungis þrír hlutir voru látnir af hendi, og er það bíldur, sem notaður var við blóðtökur á fyrri árum. Bíldurinn var gefinn af Daníel Péturssyni á Gimli, og er í góðu standi og merkilegt söguríkt áhald. Ennfremur kaffikvörn og brauðkefli, búið til af Trausta Vigfússyni.

Nefndin vill leggja til að áframhald verði á þessari viðleitni Þjóðræknisfélagsins, því það virðist augljóst, að hér sé um að ræða þarft fyrirtæki, sem vert sé að hlynna að. Nefndin álítur að enn sé tími til framkvæmda í málinu og fer fram á, að það sé íhugað og rætt á þessu þingi.

Á þjóðræknisþingi Vestur-Íslendinga 24. febrúar 1958.

Virðingarfyllst,

**Marja Björnsson**
**Herdís Eiríksson**

Skýrslan hlaut stuðning og samþykki.

Ritari, Haraldur Bessason, gerði tillögu þess efnis, að forseti skipaði þriggja manna nefnd í minjasafnsmálið. Var sú tillaga studd og samþykkt. Útnefning í téða nefnd fór að því búnu fram og útnefningu hlutu:

Frú Marja Björnsson,
Frú Herdís Eiríksson,
Frú Kristín Johnson.

Forseti þakkaði frú Ingibjörgu Jónsson gott starf í nefndinni, en hún hafði beiðzt undan endurkosningu.

Féhirðir, G. L. Johannson, las kveðju frá Thor Thors ambassador Íslands í Washington:

19. febrúar, 1958.

Hr. ræðismaður
Grettir L. Johannson
76 Middle Gate,
Winnipeg, Manitoba.

Kæri herra ræðismaður:

Ég vil hér með biðja þig að flytja ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, er kemur saman í Winnipeg, hinn 24. þ. m., alúðarkveðjur mínar og allar góðar óskir um áframhaldandi gifturíkan árangur í hinu veglega starfi Þjóðræknisfélagsins að efla samúð, skilning og samband Íslendinga vestan hafs og austan.

Það er nú orðið langt síðan, að mér hefir unnizt tími til að heimsækja byggðir Íslendinga í Kanada, því að leið mín sem sendiherra Íslands í Kanada liggur oftast nær til höfuðborgarinnar, því að þangað ber mér að leita í erindum ríkisstjórnar Íslands. Þau erindi sækjast jafnan greiðlega vegna hins vinsamlega sambands milli landanna og velvildar og skilnings stjórnar Kanada á sameiginlegum hagsmunamálum. Margt bendir til þess, að sambandið milli landanna fari vaxandi; nýjar stofnanir á sviði stjórnmála, viðskiptamála og menningar, hafa verið settar upp, heimsóknum fjölgað, svo og íslenzkum námsmönnum í Kanada, og leiðin milli landanna verður stöðugt styttri og auðsóttari. Öll slík mál láta Vestur-Íslendingar og Þjóðræknisfélagið til sín taka, og sé þeim mikil þökk fyrir.

Eigi skal gleymt hinum stórmerka þætti íslenzku blaðanna, Heimskringlu og Lögbergs, í því að tryggja tryggðaböndin.

Með innilegum kveðjum.

**Thor Thors.**

Gerði flutningsmaður það að tillögu sinni, að kveðju ambassadorsins yrði vísað til væntanlegrar allsherjarnefndar.

Að því búnu skipaði forseti í þingnefnd í skógræktarmálinu. Þessi urðu fyrir valinu:

Frú Marja Björnsson,
Kári Byron,
Frú Emma von Renesse.

Gísli Gíslason las skýrslu þjóðræknisdeildarinnar á Lundar:

**Skýrsla**
**Þjóðræknisdeildarinnar „Lundar"**

Þjóðræknisdeildin „Lundar" hefir verið fremur athafnalítil á árinu 1957. Fimm fundir voru haldnir, allir á heimilum félagsmanna, en engar samkomur né almennir fundir.

Tombóla var haldin til arðs fyrir bókasafn deildarinnar, verður ágóðanum varið til að borga fyrir bókband og bækur, sem bættust við bókasafnið. Deildin gaf $50.00

til elliheimilisins „Betel“ að Gimli og $25.00 til styrktar heimili fyrir aldrað fólk, sem Mrs. Margrét Björnsson starfrækir hér í bænum. Einnig sendi deildin $20.00 til skógræktar á Íslandi.

Nefnd sú, sem stóð fyrir því að landnemaminnisvarðinn væri reistur hér á Lundar, áleit að störfum hennar væri lokið og sagði af sér; tók þá deildin að sér að sjá um viðhald og eftirlit með varðanum. — Dr. og Mrs. Sveinn Björnsson voru viðstödd einn fund deildarinnar og skemmtu með því, að hann las upp nokkur kvæði eftir sjálfan sig og aðra, en frúin sagði frá ferðalagi þeirra hjóna um Bandaríkin.

Einn meðlimur deildarinnar, Mrs. Bergsveinn Eiríksson, lézt á árinu. Deildin telur nú 44 meðlimi. Stjórnarnefnd deildarinnar var endurkosin til næsta árs, en hana skipa:

Forseti, Ólafur Hallsson,
Vara-forseti, Kári Byron,
Féhirðir, Dan. J. Líndal,
Vara-féhrðir, Ásgeir Jörundsson
Ritari, Thomas Guðmundsson,
Vara-ritari, Gísli Gíslason.
Bókavörður, Mrs. Guðrún Eyjólfsson,
Féhirðir bókasafnsins, Ágúst Eyjólfsson.

**Thomas Guðmundsson,** ritari

Þáskipaði forseti í allsherjarnefnd sem hér segir:

Sr. P. M. Pétursson,
Frú Anna Austmann,
Gestur Jóhannsson.

Þá voru gerðar tillögur um, að forseta yrði falið að skipa í eftirtaldar nefndir: fjármálanefnd, útbreiðslumálanefnd, fræðslumálanefnd, nefnd í samvinnumálum við Ísland og útgáfumálanefnd.

Voru tillögur þessar allar samþykktar.

## 3. FUNDUR

Þriðji fundur hófst kl. 10 f. h. þriðjud. 25 febr. Fundargerð síðasta fundar var lesin upp og samþykkt.

Þá skýrði forseti, dr. R. Beck, fundargestum frá því, að um þessar mundir ætti ríkisháskólinn í Norður Dakota 75 ára afmæli. Ritari, Haraldur Bessason, gerði þá tillögu, að þjóðræknisþingið sendi forseta áðurnefnds háskóla heillaóskir vegna afmælisins. Sú tillaga var samþykkt.

Forseti skipaði í nefndir sem hér segir:

**Útbreiðslumálanefnd:**
Sr. P. M. Pétursson
Stefán Eymundsson
Guðmundur B. Magnússon
Margrét Goodman
Gísli Gíslason.

**Fjármálanefnd:**
Guðmann Levy
Jón Jónsson
Halldór Austmann.

**Fræðslumálanefnd:**
Hólmfríður Danielson
Herdís Eiríksson
Elín Sigurðsson
Þórunn Jóhannsson
Soffía Benjamínsson.

**Samvinnumálanefnd:**
Dr. V. J. Eylands
W. J. Lindal, dómari
Frú Kristín Johnson
Páll Guðmundsson.

**Útgáfumálanefnd:**
Davíð Björnsson
Tímóteus Böðvarsson
Kristinn Goodman.

Þessu næst ræddi forseti nokkuð Leifsstyttumálið og las upp eftirfarandi álitsgjörð, undirritaða af forseta og ritara:

Álitsgjörðin var borin undir atkvæði og samþykkt.

Þá var tekinn fyrir dagskrárliðurinn: **„Ný mál.“**

Voru þar til umræðu tillögur sr. Benjamíns Kristjánssonar, sem hann hafði komið á framfæri í Íslendingadagsræðu sinni frá sumrinu áður og varða samvinnumál við Ísland.

Dr. V. J. Eylands, formaður samvinnumálanefndar, kvað nefnd sína mundu taka þessar tillögur til nánari athugunar.

Frú Björg Ísfeld flutti skýrslu byggingamálanefndar. Sú skýrsla hefir því miður ekki fundizt í fórum ritara.

Gísli Jónsson gerði að tillögu sinni, að þingheimur fæli forseta að skipa þingnefnd í húsbyggingarmálinu. Var sú tillaga samþykkt. Þessi voru skipuð í nefndina:

Dr. T. J. Oleson
Dr. Valdimar J. Eylands
Frú Björg Ísfeld
Stefán Eymundsson
Kári Byron.

## 4. FUNDUR

Fjórði fundur hófst kl. 2 e. h., þriðjud. 25. febr., kl. 2 e. h.

Fundargerð síðasta fundar var lesin upp og samþykkt.

Forseti las heillaóskaskeyti til Þjóðræknisfélagsins frá biskupi Íslands, hr. Ásmundi Guðmundssyni. Samkvæmt tillögu frá dr. Valdimar J. Eylands var skeytinu vísað til allsherjarnefndar.

Þá var lesið bréf frá þeim Árna Bjarnarsyni og Steindóri Steindórssyni, þar sem lýst var fyrirhugaðri söfnun efnis í „Ævi-

skrár Vestur-Íslendinga. Nokkrar umræður urðu um málið, en endanlega var því vísað til samvinnumálanefndar.

Þá var lesið upp heillaóskaskeyti frá Árna G. Eylands og frú .Var því skeyti vísað til allsherjarnefndar.

Ritari las upp ársskýrslu Þjóðræknisdeildarinnar „Báran“ á Mountain.

**Skýrsla Deildarinnar „Báran“**
fyrir árið 1957

Á ársfundi Báru 1. febrúar 1957 voru þessir kosnir í embætti fyrir árið 1958:

Forseti, H. B. Grímson
Vara-forseti, S. A. Björnsson
Skrifari, V. A. Björnsson
Varar-skrifari, A. M. Ásgrímsson
Féhirðir, Joseph Anderson
Vara-féhirðir, Hannes J. Björnsson
Fjármálaritari, O. G. Johnson
Vara-fjármálaritari, P. B. Ólafsson
Skjalavörður, H. T. Hjaltalín.

Það hafa verið haldnir tveir almennir fundir og fjórir nefndarfundir á árinu.

Deildin hafði eina samkomu á árinu, 17. júní 1957. Var hún haldin í samkomuhúsinu á Mountain kl. 8 að kveldi. Var það ágæt skemmtun. Séra Valdimar J. Eylands sýndi litmyndir frá Íslandi og próf. Haraldur Bessason og dr. Richard Beck héldu ágætis ræður; svo var mikill söngur .Þessi samkoma var ágætlega sótt og þótti mikið til hennar koma.

Þrír meðlimir Báru létust á árinu, þeir B. S. Guðmundsson, Hermann Bjarnason og Jóhannes Anderson.

Með þakklæti og beztu óskum til Þjóðræknisfélagsins og ársþings þess.

**S. A. Bjarnson**, vara-forseti
**Josep Anderson**, vara-skrifari

Flutningsmaður lagði til að skýrslan yrði viðtekin, og var það þegar gert.

Þá tók til máls Mrs. Thomasson frá Brown og skýrði frá starfsemi þjóðræknisdeildarinnar þar.

Ritari gerði tillögu um, að frásögn Mrs. Thomasson yrði viðtekin sem ársskýrsla. Var sú tillaga studd og samþykkt.

Þá flutti Tímóteus Böðvarsson nefndarálit útgáfumálanefndar:

**Álit útgáfumálanefndar**

Útgáfumálanefnd leggur til að 39. þing Þjóðræknisfélagsins samþykki eftirfarandi tillögur:

1. Að þar sem ritstjóri Tímaritsins, hr. Gísli Jónsson, hefir, eins og að undanförnu, leyst starf sitt af hendi með ágætum, þá vottar þingið honum þakkir og vonar að hann haldi áfram því verki.

2. Að þingið votti Páli S. Pálssyni þakkir fyrir starf hans við auglýsingasöfnun í ritið.

3. Að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd að sjá um útgáfu Tímaritsins á komandi ári og ráði ritstjóra.

4. Að þingið skori á alla, sem áhuga hafa fyrir starfi Þjóðræknisfélagsins, að leggja hug og hönd að verki, gefa góðar upplýsingar og ábendingar um allt það, sem verða má útgáfumálum vorum til stuðnings og ávinnings á komandi ári.

**Davíð Björnsson**
**Tímóteus Böðvarsson**
**Kristinn Goodman**

Jón Jónsson lagði til, að nefndarálitið yrði borið undir atkvæði lið fyrir lið. Var svo gjört og allir liðir samþykktir, svo og nefndarálitið í heild.

Forseti, dr. Beck, las að því búnu bréf til þingsins frá biskupi Íslands, hr. Ásmundi Guðmundssyni, og frá Félagi Íslendinga í Norður California.

Frú Hólmfríður Daníelsson flutti skýrslu þingnefndar í fræðslumálum:

**Nefndarálit í fræðslumálum**

Nefndin lætur í ljósi ánægju sína yfir endurnýjuðum tilraunum, sem gerðar hafa verið með stofnun barna- og unglingasöngflokka, og þeim ágæta árangi sem orðið hefir t. d. í Árborgar-deildinni „Esjan“ í því starfi; og einnig hefir íslenzkur barnasöngflokkur verið stofnaður á Gimli af hálfu deildarinnar þar. Þetta ætti að geta veitt uppörfun og styrk þeim deildum, sem lengi hafa haft áhuga á sams konar starfsemi. — Einnig er það ánægjuefni, að í sumum byggðum, t. d. í Árborg, hafa íslenzku kennslubækurnar frá Þjóðræknisfélaginu verið mikið notaðar á ýmsum heimilum til þess að kenna börnum íslenzku. — Ennfremur er gott að frétta, að bækur til kennslu í vikivakadönsunum gömlu hafa verið fengnar frá Íslandi, og ætti það að geta orðið skemmtilegur liður í þjóðræknisstarfinu að kenna börnum og unglingum íslenzka þjóðdansa.

Nefndin leggur til:

1. Að deildirnar, hver í sinni byggð, geri enn á ný gangskör að því að stofna slíka barna- og unglingasöngflokka.

2. Að foreldrar, sem kenna börnum sínum íslenzku á heimili sínu, reyni að ná til barna í nágrenninu og lofa þeim að vera með í þessum kennslustundum.

3. Að deildirnar reyni að stofna til kennslu í íslenzkum þjóðdönsum heima fyrir, og mættu þær leita til stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins um verklega aðstoð í þeirri viðleitni.

**Hólmfríður Danielson**
**Herdís Eriíksson**
**Soffía Benjamínsson**
**Elín Sigurdson**
**Thorunn Johannson.**

Frúin lagði til, að nefndarálitið yrði borið upp lið fyrir lið. Var svo gjört og allir liðir samþykktir og nefndarálitið í heild.

### 5. FUNDUR

Fimmti fundur hófst kl. 10 f. h., miðvikud. 26. febr.

Frú Marja Björnsson las nefndarálit þingnefndar í skógræktarmálum:

Skógræktarfélagsnefndin leggur til að Þjóðræknisfélagið leggi fram 2000 krónur úr sjóði félagsins á Íslandi til styrktar Skógræktarfélagi Íslands.

Ennfremur er það tillaga nefndarinnar, að þjóðræknisdeildirnar styrki þetta fyrirtæki eftir mætti.

**Marja Björnsson**
**Emma von Renesse**
**Kári Byron.**

Nokkrar umræður urðu um skýrslu frúarinnar, en síðan var nefndarálitið borið undir atkvæði og samþykkt.

Elín Hall bar fram þá tillögu, að forseta, dr. Beck, yrði falið að skipa þriggja manna milliþinganefnd í skógræktarmálum. Tillagan var studd og samþykkt.

Dr. T. J. Oleson las álitsgjörð þingnefndar í byggingarmálum.

**Nefndarálit í byggingarmálinu**

1. Þingnefndin í húsbyggingarmálinu telur, að bygging félagsheimilis fyrir Íslendinga í Winnipeg, ætti að vera Þjóðræknisfélaginu metnaðarmál, og aðkallandi nauðsyn vegna samtaka og framtíðarstarfs meðal æskulýðsins.

2. Nefndin leggur til að þjóðræknisþingið kjósi fimm manna milliþinganefnd í húsbyggingarmálinu og sé henni veittur allt að 200 dollara styrkur úr félagssjóði til að afla sér álits sérfróðra manna í sambandi við breytingu á, eða viðbótarbyggingu við húseign félagsins á Home St. hér í borginni.

27. fbr. '58.

**Tryggvi J. Oleson**
**Valdimar J. Eylands**
**Björg V. Ísfeld**
**Stefán Eymundsson**
**Kári Byron.**

Nefndarálitið var borið upp lið fyrir lið og samþykkt.

Dr. V. J. Eylands las upp álitsgjörð þingnefndar í samvinnumálum við Ísland:

**Samvinnumál við Ísland** (Nefndarálit)

1. Þinginu er það ljóst, að tilvera Þjóðræknisfélagsins byggist að miklu leyti á sambandi og samvinnu við Ísland, og að framtíð félagsins er undir því komin, að þessu sambandi verði haldið við.

2. Þingið fagnar því, að með vaxandi tækni, aukast samskipti vor Vestur-Íslendinga við stofnþjóðina, og að gagnkvæmur hlýhugur og samvinna eflast með ári hverju.

3. Þingið þakkar Þjóðræknisfélagi Íslendinga á Íslandi á árinu, og forseta þess, hr. Árna G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúa, alla fyrirgreiðslu og frábæra gestrisni auðsýnda þeim Vestur-Íslendingum, sem heimsóttu ættjörðina á síðastliðnu sumri.

4. Þingið minnist með þakklæti heimsókna góðra gesta frá Íslandi á árinu, einkum þeirra herra Ásmundar Guðmundssonar biskups, séra Friðriks A. Friðrikssonar prófasts og konu hans, séra Benjamíns Kristjánssonar prests að Grundarþingum, og séra Péturs Sigurgeirssonar prests á Akureyri og konu hans.

5. Þingið telur mjög athyglisverðar þær bendingar um samvinnu, sem koma fram í Íslendingadagsræðu þeirri, er séra Benjamín Kristjánsson flutti á Gimli s.l. sumar, og felur væntanlegri stjórnarnefnd að athuga möguleikana á framkvæmdum í þeim efnum.

6. Þingið lýsir ánægju sinni í tilefni af þeirri frétt, að forsætisráðherra Íslands, Hermann Jónasson, er væntanlegur vestur um haf á komandi sumri til þátttöku í hátíðahöldum Minnesotaríkis; telur þingið mjög æskilegt, að forsætisráðherra heimsæki Íslendinga hér á norðurslóðum. Ef um slíka heimsókn verður að ræða, felur þingið væntanlegri stjórnarnefnd að annast um allan undirbúning og móttöku hins tigna gests.

7. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd að eiga samvinnu við málsaðila um ljósmyndun kirkjubóka og annarra sögulegra gagna, sem talið er æskilegt að varðveita á söfnum austan hafs og vestan.

8. Þingið telur sér ljúft og skylt að veita þeim Hr. Árna Bjarnarsyni útgáfustjóra, Hr. Steindóri yfirkennara Steindórssyni frá Akureyri hverja þá aðstoð, sem unnt er, á fyrirhugaðri ferð þeirra hingað vestur á sumri komanda til að safna efni fyrir Ævisögur Vestur-Íslendinga, og felur væntanlegri stjórnarnefnd að leitast við að útvega þeim aðstoðarmenn í þessu efni í hinum ýmsu byggðum vorum, samkvæmt tilmælum þeirra í bréfi, sem lagt hefir verið fram á þessu þingi.

9. Þingið lýsir ánægju sinni yfir stofnun Canada-Iceland Foundation, sem á Íslandi nefnist Ísland-Kanada ráð, sem er viðleitni til að efla menningarsamtökin á milli Íslands og Canada með fjárveitingum til náms við æðri skóla, til heimsókna, fyrirlestrahalda og á annan hátt.

10. Þjóðræknisfélagið samfagnar forseta sínum, prófessor Richard Beck í tilefni af þeim sóma, er honum var sýndu rá árinu,

er nokkrir af vinum hans og aðdáendum á Íslandi beittu sér fyrir útgáfu af safni af nokkrum ræðum hans, ritgerðum og fyrirlestrum, í mjög vandaðri bók, er nefnist Í átthagana andinn leitar. Tilefnið var sextugsafmæli forseta vors, og eru honum þannig vottaðar verðugar þakkir fyrir sötrf hans í þágu íslenzkrar menningar og þjóðernis, og um leið hugheilar árnaðaróskir.

**Valdimar J. Eylands**
**Kristín Johnson**
**Kristín Thorsteinsson**
**Páll Guðmundsson**
**W. J. Lindal.**

Nefndarálitið var borið upp lið fyrir lið og samþykkt.

Guðmann Levy, formaður fjármálanefndar, ræddi að því búnu þann lið úr álitsgjörð þingnefndar í byggingarmálum, sem vísað hafði verið til nefndarinnar. Kvaðst formaður fjármálanefndar því fylgjandi ,að liðurinn yrði viðtekinn, og var það þegar gjört. Þá var kosið í milliþinganefnd í byggingarmálinu. Þessi hlutu kosningu:

Frú Björg Ísfeld
Dr. T. J. Oleson
Frú Hólmfríður Daníelsson
Guðmann Levy.

## 6. FUNDUR

Sjötti fundur hófst kl. 2 e. h., miðvikud. 26. febr.

Fyrsti liður á dagskrá var kosning embættismanna Þjóðræknisfélagsins. Úrslit kosninganna voru sem hér segir:

Forseti, dr. Richard Beck
Vara-forseti, sr. Philip M. Pétursson
Ritari, Haraldur Bessason
Vara-ritari, Walter J. Lindal, dómari
Féhirðir, Grettir L. Johannson, ræðismaður
Fjármálaritari, Guðmann Levy
Vara-fjármálaritari, Ólafur Hallsson
Skjalavörður, Ragnar Stefánsson.

Endurskoðendur voru þeir kjörnir Davíð Bjönsson og Jóhann Th. Beck.

Frú Rósa Jóhannsson gerði að tillögu sinni, að stjórnarnefnd yrði þakkað starf hennar á síðastlinu ári. Samþykktu fundargestir þá tillögu með lófataki.

Forseti, dr. Beck, skipaði í milliþinganefnd í skógræktarmálum sem hér segir:

Frú Marja Björnsson
Haraldur Bessason
Jakob Kristjánsson
Kári Byron
Emma von Renesse.

Sr. Philip M. Pétursson flutti álitsgjörð allsherjarnefndar:

**Álit allsherjarnefndar**

Kveðjur hafa komið frá þessum. Dr. Ásmundi Guðmundssyni, biskupi Íslands; Ambassador Thor Thors, Washington; séra Benjamín Kristjánssyni, Eyjafirði; Árna G. Eylands og frú, Reykjavík; og séra Ólafi Skúlasyni að Mountain. Nefndin leggur til að ritara verði falið að svara þessum kveðjum með þökkum.

Einnig flutti forseti munnlegar kveðjur frá forseta ríkisháskólans í N. D. og frá The Society for the Advancement of Scandinnavian Study, en hann er forseti þess. — Nefndin leggur til að forseta verði falið að svara þessum kveðjum með þökkum.

Einnig leggur nefndin til, að væntanlegri stjórnarnefnd verði falið að svara öðruf kveðjum, sem kunna að berast þinginu.

**Philip M .Pétursson**
**Anna Austman**
**Gestur Johannson.**

Nefndarálitið var borið upp lið fyrir lið og samþykkt.

## NÝ MÁL

Forseti, dr. Beck, ræddi um stofnun sérstakrar bókadeildar í íslenzka bókasafninu við Manitobaháskóla, er hefði eingöngu að greyma rit um og eftir dr. Vilhjálm Stefánsson. Lagði forseti fram álitsgjörð um þetta mál fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins. Var sú álitsgjörð undirrituð af forseta og ritara.

**Deild ritverka dr. Vilhjálms Stefánssonar í íslenzka bókasafninu við Manitobaháskóla**

Dr. Vilhjálmur Stefánsson er löngu heimsfrægur bæði sem landkönnuður og mikilvirkur rithöfundur, en eftir hann hafa komið út meir en tveir tugir bóka, og sumar mjög umfangsmiklar, svo sem **My Life With The Eskimo** og **The Friendly Arctic.** Hafa bækur hans verið þýddar á 10 tungumál og aðrar þeirra eru í þýðingu, t.d. er nú verið að snúa bók hans **TheFriendly Arctic** á japönsku. Fyrirlestrar og ritgerðir eftir hann, sem birtzt hafa í ýmsum tímaritum, skipta hundruðum; auk þess hefir hann samið formála og inngangsritgerðir við bækur eftir fjölmarga aðra. Þá kemur hann einnig við sögu í bókum margra annarra heimskautafara, og um sjálfan hann hafa verið ritaðar heilar bækur og fjöldi blaðagreina og tímarita. Vinnur hann nú að sjálfsævisögu sinni og flytur fyrirlestra við Dartmouth College í Hannover, New Hampshire, í Bandaríkjunum, þar sem hann er búsettur, þótt kominn sé hátt á áttræðisaldur.

Með víðtækum rannsókna- og ritstörfum sínum hefir hann borið hróður Íslands og Íslendinga víðsvegar um lönd, enda hafa margir háskólar gert hann að heiðursdoktor sínum, að Háskóla Íslands og Háskóla Manitabafylkis meðtöldum; ríkisstjórn Canada vottaði honum fyrir mörgum árum opinbera þökk sína fyrir ferðir hans og rannsóknir á Norðurslóðum, og ríkisstjórn Íslands hefir sæmt hann Stórriddarakrossi hinnar íslenzku Fálkaorðu með stjörnu, og margvíslegur annar sómi hefir honum fallið í skaut, og höfum vér Íslendingar því ástæðu til að virða hann og meta, enda var hann að sjálfsögðu einn af þeim allra fyrstu, sem Þjóðræknisfélagið gerði að heiðursfélaga sínum.

Með hin mörgu og miklu afrek hans í huga, og minnug þess einnig, að hann er fæddur hér í Nýja Íslandi, gerir stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins það að tillögu sinni, að félagið gangist fyrir því, að stofnuð verði í íslenzka bókasafninu við Manitobaháskóla sérstök deild ritverka dr. Vilhjálms Stefánssonar, bóka hans og sérprentaðra ritgerða, ásamt bókum og ritgerðum um hann, og að þjóðræknisþingið veiti allt að $200.00 fjárupphæð til bókakaupa fyrir slíkt safn á komandi ári, og að þingið feli jafnframt væntanlegum forseta að skipa fimm manna nefnd til þess að hafa forgöngu um þetta mál, með það fyrir augum, að unnt verði að afhenda slíkt safn formlega og með virðulegum hætti í sambandi við áttræðisafmæli dr. Vilhjálms þ. 3. nóv. 1959.

Þess skal að lokum getið, að hann hefir eigi aðeins lýst yfir bréflega samþykki sínu við slíka hugmynd, heldur einnig boðist til að gefa eintök af bókum sínum, bæði þeim, sem eru á prenti, og einnig ýmsum hinna, sem ekki eru lengur fáanlegar, í umrætt safn, en það bæri vitanlega nafn hans og gæti kallazt **Stefana Shelf** eða **Section,** eða hverju því öðru nafni, sem bezt væri sæmandi.

Winnipeg, 23. febrúar 1958.
Í umboði stjórnarnefndar.

**Richard Beck,** forseti
**Haraldur Bessason,** ritari

Nokkrar umræður urðu um það, hvort ekki væri rétt að Þjóðræknisfélagið gengist fyrir því, að á fæðingarstað Vilhjálms Stefánssonar í Nýja Íslandi yrði gerður sérstakur lundur, er bæri nafn þessa merka landkönnuðar og fræðimanns. Árni Sigurðsson var upphafsmaður þessa máls. Var samþykkt að fela stjórnarnefnd málið til athugunar.

Því næst var áðurnefnd álitsgjörð stjórnarnefndar um bókadeildina borin undir atkvæði og samþykkt.

Formaður fjármálanefndar, Guðmann Levy, las álitsgjörð þingnefndar sinnar:

**Nefndarálit fjármálanefndar**

1. Nefndin hefir yfirfarið skýrslur embættismanna og leggur til að þær verði samþykktar eins og þær liggja fyrir.

2. Nefndin leggur til að íslenzku blöðunum, Heimskringlu og Lögbergi, verði veittur sami styrkur og síðastliðið, ár $250.00 til hvors blaðs.

3. Nefndin leggur til, að milliþinganefndinni í húsbyggingamálinu sé veittur allt að 200 dollara styrkur til að afla sér álits sérfróðra manna í sambandi við húsbyggingamálið.

4. Nefndin leggur til, að stjórnarnefnd sé heimilað að leggja allt að 200 dollara fram til stofnunar Stefánssonar deild við íslenzka bókasafnið við Manitobaháskóla.

Winnipeg, 26. febr. 1958.

**Gumann Levy**
**Jón Jónsson**
**H. A. Austman.**

Nefndarálitið var borið upp lið fyrir lið og samþykkt.

Sr. Philip M. Pétursson las álitsgjörð útbreiðslumálanefndar:

**Skýrsla útbreiðslumálanefndar**

1. Nefndin leggur til að þingið votti öllum þeim þakklæti, sem á einn eða annan hátt hafa unnið að útbreiðslumálum á síðastliðnu starfsári Þjóðræknisfélagsins.

2. Nefndin vill vekja athygli á því, að á liðnu ári hafa einstaklingar sýnd myndir, sem teknar hafa verið á ferðalögum um Ísland, á samkomum og opinberum fundum, auk hreyfimynda, sem sendar hafa verið vestur, og leggur til að það starf haldist við og aukist, eins út um byggðir og í Winnipeg — meðal deilda þess — og þar að auki, að komizt verði í samband við ríkisstjórn Íslands eða Þjóðræknisfélagið á Íslandi til þess að fá upplýsingar um möguleika á að fá viðeigandi myndir af landi og atvinnuvegum til að sýna hér vestra til að efla áhuga og þekkingu á landi og þjóð.

3. Nefndin tekur undir álit fræðslumálanefndar um kennslu á íslenzkum þjóðdönsum og sönglögum og leggur til, að það mál njóti fullrar aðstoðar allra Þjóðrænksifélagsmanna.

4. Nefndin vill hér endurtaka 5. liðinn úr útbreiðslumálanefndarálitinu frá í fyrra. (Samanber „Tímarit“ 39. árg. bls. 111).

5. Þar sem íslenzku blöðin hafa átt mikinn þátt í því að halda íslenzku máli við meðal Vestur-Íslendinga, auk þess að tryggja böndin milli Íslendinga austanhafs og vestan. Leggur nefndin til að unnið

verði af kappi meðal allra þjóðræknismanna og annara til að auka áskrifendafjölda og útbreiðslu á blöðunum, og að Þjóðræknisfélagið styðji blöðin á sama hátt og að undanförnu eða jafnvel betur. Til eru líka aðrar íslenzkar stofnanir og félög, sem vert er að styðja með vinnu og áhuga, og mælist nefndin til þess að það verði fyllilega tekið til greina til eflingar þjóðræknismálunum.

**Philip M. Pétursson**
**Stefán Eymundsson**
**Guðmundur Magnússon**
**Margrét Goodman**
**Gísli Gíslason.**

Álitsgjörðin var borin undir atkvæði lið fyrir lið og samþykkt.

Við lok fundarins ræddi forseti, dr. Beck, nokkuð um fertugsafmæli Þjóðræknisfélagsins 1959 og ræddi sérstaklega um það, hvort ekki væri rétt að gefin yrðu út sérstök merki, sem mættu verða eins konar sýnileg tákn afmælishátíðarinnar.

Guðmann Levy lagði til, að tillögunni yrði vísað til stjórnarnefndar. Var það samþykkt.

**7. FUNDUR**

Sjöundi fundur hófst kl. 9 síðdegis, miðvikud. 28. febrúar. Var hann haldinn í Sambandskirkjunni á Banning stræti. Fyrir fundinum lá eitt mál, þ. e. kosning heiðurfélaga.

Ritari, Haraldur Bessason, kvaddi sér hljóðs og bar fram þá tillögu fyrir hönd stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins, að Guðmann Levy yrði kjörinn heiðursfélagi að þessu sinni. Kvað flutningsmaður Guðmann hafa átt sæti í stjórnarnefnd félagsins fullan aldarfjórðung og væri það mál allra, sem til þekktu, að Guðmann hefði ætíð reynzt einn af traustustu mönnum félagsins og unnið því af mikilli alúð og óeigingirni þau 25 ár, sem hann hefði setið í stjórnarnefnd.

Grettir L. Johannson féhirðir studdi tillöguna og var hún samþykkt með dynjandi lófataki.

Forseti afhenti síðan hinum nýkjörna heiðursfélaga skrautritað skjal frá Þjóðræknisfélaginu.

Fundi lauk með ræðu Guðmanns Levy, þar sem hann þakkaði þann heiður, sem honum hafði verið sýndur. Minntist ræðumaður þeirra forvígismanna Þjóðræknisfélagsins, sem hann hafði kynnzt á löngum starfsferli. Kvaðst hann æ minnast þeirra með þökk og virðingu. Ræðumaður árnaði og Þjóðræknisfélaginu allra heilla um ókomin ár.

**Richard Beck,** forseti
**Haraldur Bessason,** ritari

---

# Tvær nýar ljóðabækur

Löngu eftir að þetta rit var svo barmafult, að útaf flóði, bárust mér þessi dásamlegu kvæðakver. Ég hefði feginn viljað skeggræða um þau, en því er nú ekki að heilsa. En sú er þó bótin, að annað þeirra, **Kanadaþistill,** eftir G. J. Guttormsson, er tekið til rækilegrar meðferðar í inngangsgrein þessa heftis, svo ef til vill er það happ, að mér gefst ekki rúm til frekari íhugana. Höf. stendur nú á áttræðu. Sagt er einhversstaðar um Göthe, sem orti síðasta kaflann af Faust á líkum aldri, að þar kenni dofnunar, eldurinn hafi verið fölskaður. Hér er ekki um neitt slíkt að ræða. Guttormur hefir aldrei séð dýpra inn í og inn á bakvið efni kvæða sinna en einmitt í þessari bók, og snildin í orðum og formi hefir sjaldan verið meiri.

Hin bókin nefnist **Gróður** og er eftir Árna G. Eylands. Mætti vel kalla hana áframhald af fyrri bók hans, **Mold.** Eins og hin fyrri bókin er þessi einkum helguð einni hugsjón — þeirri, að elska og klæða landið. Hér kennir að vísu nokkuð jarðlægra og óskáldlegra orða, svo sem plógur, herfi, skurðgröfur og traktor. Hefði að líkum biskupinn, sem fyrir löngu síðan skrifaði um aðra kvæðabók, sagt að sumt af þessum kvæðum hefðu verið betur sögð í blaðagrein. Svo þarf þó ekki að vera. Sama efni getur verið höndlað á ólíkan hátt í blaðagrein og kvæði. Og vel ort kvæði festir dýpri rætur í huga manns en blaðagrein. En eitt orð er hér að ófyrirsynju, og reyndar hjá fleiri yngri skáldunum, og það er þetta ópersónulega **það,** þessi óskilgetna eftirlegukind dönskunnar. Dæmi:

Það kemur aldrei aftur vor
eftir þenna vetur.

Mun betra hefði verið og sléttara rím um leið: Aldrei kemur aftur vor, o. s. frv. Sama kemur fyrir í næstu vísu, að óþörfu.

Árni er einn þeirra fáu, sem fann upp á því um eða eftir miðjan aldur, að verða skáld, og honum tókst það. Báðar bækur hans bera því ljóst vitni. —**G. J.**

**Stjórnarnefnd**
**Þjóðræknisdeildarinnar**
**Frón fyrir 1959**

Forseti,
Heimir Thorgrímsson,
627 Agnes St.
Vara-forseti,
Steindór Jakobsson,
800 Banning St.
Ritari,
Haraldur Bessason
145 Fort Garry Manor
Vara-ritari,
Lárus Valdimarsson
Gjaldkeri,
Jochum Ásgeirsson,
127 Lodge Ave.
Varagjaldkeri,
Þór Víkingur,
515 Simcoe St.
Fjármálaritari,
Gunnar Baldvinsson,
980 Dominion St.
Vara-fjármálaritari,
Gestur Davidson,
627 Home St.
Bókavörður,
J. Johnson,
735 Home St.
Sími SP. 4-5185.

**Þjóðræknisdeildin „Gimli“**
Gimli, Man., 1958

Mrs. Kristín Thorsteinsson
forseti
Mrs. Elín Sigurðsson,
vara-forseti
Ingólfur N. Bjarnason,
skrifari
Mrs. I. N. Bjarnason,
vara-skrifari
W. J. Árnason,
gjaldkeri
Mrs. W. J. Árnason,
vara-gjaldkeri
Hjálmur V. Thorsteinsson,
fjármálaritari
Mrs. John Stevens,
vara-fjármálaritari
Mrs. Guðrún Stevens,
skjalavörður.

**Meðlimaskrá:**

Guðjón W. Árnason
Ted K. Árnason
Miss Sæunn Bjarnason
Helgi Benediktsson
Mrs. Harold Bjarnason
Óli Bjarnason
Sveinn Björnsson
Mrs. Helga Demedash
Pálmi F. Einarsson
Einar A. Einarsson
Barney Egilson
Harry Einasson
Einar S. Einarsson
Mrs. Ingi Einarsson
Mrs. Sigrún Gíslason
Mrs. Guðný Geirhólm
Mrs. Adolf Holm
Miss M. Halldórsson
Miss S. Hjartarson
J. V. Johnson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mrs. Elín Kristjánsson
Ólafur N. Kárdal
Mrs. Ó. N. Kárdal

Ted Kristjánsson
Kristján N. Kárason
Lestrarfélagið „Gimli“
G. B. Magnússon
G. E. Narfason
Mr. B. Frank Olson
Mrs. Baldur Peterson
Guðmundur Peterson
Dóri Peterson
P. S. Pálsson
Mrs. Lauga Peterson
Mrs. Emma Von Renessee
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Mrs. Margrét Sigurðsson
Björn Sigurðsson
Sam Sigurðsson
Jóhann Sæmundsson
Miss Guðrún Sigurðsson
Mrs. Ingibjörg Sveinsson
Mr. S. Th. Sveinsson
Mrs. L. Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Valdimar Stefánsson
Óli Thorsteinsson
Mrs. Guðrún Thompson
Mrs. Lára Tergesen.

**Meðlimaskrá**
**Þjóðræknisdeildarinnar**
**„Esjan“, Árborg, Man.**

við árslok 1958:

Tímóteus Böðvarsson
T. O. Anderson
S. Sigvaldason
Jakob Björnsson
Hallur Johnson
Kr. A. Kristinsson
W. S. Eyjólfsson
K. N. S. Friðfinnsson
Björgvin Hólm
Helgi Johnson
Þórunn Vigfússon
Þorbjörg Jónasson
Anna Austman
Kristveig Jóhannesson
Guðrún Magnússon
S. I. Sigvaldason
Bjarni Sigvaldason
Guðrún Borgfjörð
Rikka Johnson
Jón Gunnarsson
Elín Einarsson
S. A. Sigurðsson
Þorbjörg Sigurðsson
Herdís Eiríksson
Lára Sigvaldason
B. J. Lífman
Sigurlín Johnson
Samúel Guðmundsson
Þórarinn Gíslason
Helgi Jakobsson
Kristjón Sigurðsson
Páll Th. Stefánsson
Guðjón Stefánsson
Þorsteinn Kristjánsson
Ragnar Guðmundsson
Kristján Jónasson
Elín Floyed
Björn Árnason
Guðný Eyjólfsson
Magnús Gíslason
Rikka Magnússon
Stella Einarsson
Siggi Pálsson
Bergur Vigfússon
B. J. Hornfjörð
Árni Brandsson
Jón Baldvinsson

Gestur Vídal
Sigurrós Vídal
E. M. G. Martinson
Helgi G. Helgason
Th. G. Björnsson
Valdi Benediktsson
Kristján Thorarinson
Óli Ólafsson
Ragnar Karvelson
Sigurður Vopnfjörð
Jón Pálsson
Kr. Th. Johnson
J. G. Skúlason
S. S. Johnson
Gunnar Sæmundsson
Emily Vigfússon
Andrés Johnson
Guðmundur Sigvaldason
Guðni Th. Sigvaldason
Þorgrímur Pálsson
Sigurlaug Eyjólfsson
Olga Anderson
Emilía Oddson
G. J. Magnússon
Björn Bjarnason
Sveinn Eyjólfsson
Betrice Martin
Aðalbjörg Sigvaldason
Eiríkur Bjarnason
Jódís Brandson
Guðrún Gíslason
Andrés Guðbjartson

**Ströndin,**
Vancouver, B.C.
**Meðlimir, 1958:**

Óli Anderson
E. Árnason
Nói Bergman
Mrs. Nói Bergman
Th. Bergman
Mrs. Á. Björnsson
Bert J. Björnsson
B. Brynjólfsson
Séra E. S. Brynjólfsson
Frú E. S. Brynjólfsson
Mrs. Inga Egilsson
E. Elíasson
Mrs. G. Erickson
Mrs. Rúna Erickson
S. Eymundsson
Mrs. S. Eymundsson
Carl Finnbogason
Mrs. Carl Finnbogason
G. Friðrikson
Mrs. G. Friðrikson
Dr. E. J. Fridleifson
G. G. Gíslason
G. F. Gíslason
G. J. Guðmundson
J. Guðmundson
Snorri Gunnarsson
Mrs. Snorri Gunnarsson
Miss Bára Guðlaugsson
Miss Rósa Guðmundsson
Mrs. E. F. Hall
H. J. Halldórsson
Mrs. Anna Harvey
Geirjón Helgason
Mrs. Geirjón Helgason
Oscar Howardson
Th. Ísdal
C. H. Ísfjörð
Mrs. C. H. Ísfjörð
G. Jacobson
Mrs. G. Jacobson
Thorir Jacobson
Mrs. Thorir Jacobson

Egill Johnson
Mrs. Egill Johnson
Mrs. Helga Johnson
H. B. Johnson
Mrs. H. B. Johnson
J. S. Johnson
Sig. Johnson
Mrs. Sig. Johnson
Hákon Kristjánsson
Torfi Leóson
F. O. Lyngdal
Kr. Ólafsson
Mrs. Sigr. Olsen
Mrs. Sigr. Reykjalín
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Lóa Skúlason
Gunnbjörn Stefánsson
Sig. Stefánsson
Oscar Sveinsson
B. Thorlacius
L. H. Thorlaksson
Mrs. F. Thorsteinsson
O. B. Thornton.

**Stjórn:**

E. Eymundsson, forseti
E. S. Brynjólfsson, skrifari
C. H. Ísfjörð, féhirðir og auglýsingastjóri.

**Deildin „Báran",**
Mountain, N.D.
**Heiðursmeðlimir:**

Dr. Richard Beck
Gamalíel Thorleifsson
H. T. Hjaltalín.

**Meðlimir:**

S. A. Björnson
Josep Anderson
O. G. Johnson
Helgi Reykdal
Miss Kristbj. Kristjánsson
G. J. Jónasson
John J. Einarsson
Einar J. Einarsson
P. B. Ólafsson
H. B. Grimson
Haraldur Ólafsson
B. K. Anderson
G. Guðmundsson
John H. Askdal
A. M. Ásgrímsson
Matt. Björnson
J. J. Erlendsson
Elma Kristjánsson
Lena Stratton
Mrs. Fred Snowfeld
Óli G. Johnson
Gestur J. Gestsson
Mrs. Garðar Johnson
Jóhann Gestsson
Helgi Laxdal
Alvin Melsted
Steini Mýrdal
Steve Thordarson
John H. Johnson
H. S. Walters
Aðalsteinn Byron
Hannes Melsted
F. M. Einarsson
Sigm. Guðmundsson
H. M. Jónasson
Albert Bjarnason
Oddur Sveinsson
Leo J. Laxdal
Helgi Finnson
Barney Stevenson
William Sigurdson
Hannes Björnsson
Kenneth D. Indriðason
Steini Goodman
O. K. Thorsteinsson
Séra Ólafur Skúlason
Stefán Indriðason
Walter Johnson.

**Deildin „Lundar,"**
Lundar, Man.

A. M. Freeman
Gíslína Freeman
D. J. Líndal
Margaret Líndal
Kári Byron
Anna Byron
Ágúst Eyjólfsson
Guðrún Eyjólfsson
Skúli Sigfússon
Guðrún Sigfússon
Ragnheiður Magnússon
Ásta Sigurdson
Gísli Gíslason
Tómas Guðmundsson
Ásgeir Jörundsson
Dr. G. Paulson
B. Erickson
H. Hjartarson
E. Scheving
Margaret Bjornson
Kristín Pálsson
Steinunn Magnússon
G. J. Sigurdson
J. H. Thorgilson
M. Halldórsson
J. K. Jónasson
O. H. Oddson
Rannveig Guðmundsson
Sigrún Johnson
Svava Bonnell
K. V. Rafnkelsson
Ingibjörg Rafnkelsson
Ólafur Hallson
Guðrún Hallson
Björn Jónasson
Albert Thorgilson
Einar Jónasson
Verma Zaharodny
B. J. Eggertson
Margaret Johnson
J. A. Bjornson
Árni Bjarnason
Guðríður Bjarnarson
Gísli Ólafsson

**Embættismenn 1958**

Forseti, Ólafur Hallson
Vara-forseti, Kári Byron
Skrifari, Tómas Guðmundsson
Vara-skrifari, G. Gíslason
Féhirðir, Dan. Líndal
Vara-féhirðir, A. Jörundsson
Bókavörður, Guðrún Eyjólfsson
Eignavörður, Ágúst Eyjólfsson

**Deildin „Brúin"**
Selkirk, Man.
**Embættismenn:**

Eiríkur Vigfússon, forseti
Gestur Jóhannson, vara-forseti
Guðrún Vigfússon, skrifari
Vigdís Johnson, v.-skrifari
Einar Magnússon, féhirðir

Ólöf Magnússon, vara-féhirðir
Kristinn Goodman, fjármálaritari
Margrét Goodman, vara-fjármálaritari
Yfirskoðunarmenn:
Einar Thorvaldson
Marus Benson.

**Meðlimir:**

Thora Austman
Jón Anderson
Birgitta Björnson
Ásta Eiríksson
Jón Goodman
Jóhanna Goodman
Ollie Guðbrandson
Jóhannes Húnfjörð
Ingveldur Henry
Guðrún Ísfeld
Sigurbjörg Johnson
Dr. Óli Johnson
Valla Johnson
Fríða Lyons
Friðrik Nordal
Sr. Sig. Ólafsson
Ingibjörg Pálsson
Thorunn Johannson
Olgeir Jóhannson
Jafeta Skagfjörð
Rannveig Stefánsson
Ásta Sveinsson
Bill Thorsteinson
Veiga Jónasson
Pétur Thorsteinson

**Deildin „Aldan"**

Blaine Wash. U.S.A.

**Embættismenn:**

Sr. Albert E. Kristjánsson forseti
Anna Kristjánsson, vara-forseti
Dagbjört Vopnfjörð, skrifari
Herdís Stephanson, vara-skrifari
Jóhann J. Straumfjörð, féhirðir og skjalavörður
Jón Laxdal, vara-féhirðir.

**Meðlimir:**

Elísabet Arngrímson
Sigurjón Björnsson
Ágúst G. Breiðfjörð
Rósa Cooper
Bertha Danielson
Elín Guðbrandson
Guðmundur Guðmundson
Gísli Guðjónsson
Hólmfríður Guðjónson
Magnús Guðlaugson
Solveig Jóhannson
Sr. Guðm. P. Johnson
Margrét Johnson
Rúna Johnson
Thorbjörg Johnson
Sr. A. E. Kristjánsson
Anna Kristjánsson
Jón Laxdal
Kristín Lindal
Anna Lyngholt
Dr. H. S. Sigmar
Margrét Sigmar
Mrs. B. Sölvason
Einar Símonarson
Helgi Steinberg
Kristín Steinberg
Herdís Stephanson
Jóhann J. Straumfjörð
Belle Straumfjörð
Sólveig Sveinsson
Dagbjört Vopnfjörð.

**Deildin „Iðunn"**

Leslie, Sask.

Páll Guðmundsson
Ásgeir Gíslason
Skúli Björnsson
Rósmundur Árnason
Mrs. B. Axfjörð
Th. Guðmundsson
Jóhann Gíslason
Jón Jóhannesson
Guðmundur Stefánsson
Sigurður Sigurðsson

**Deildin „Ísland"**

Morden, Man.

Óli Lindal, forseti
Ben. Einarson, v.-forseti
Guðrún Thomasson, ritari
Jonathan Thomasson, féhirðir
J. B. Johnson, fjármálaritari
Mrs. J. B. Johnson
Stefán Einarson
Oscar Gillis
Ragnar Gillis
Mrs. Lovísa Gíslason
Leonard Helgason
Mrs. Freda Lindal
T. M. Ólafson
Jóhann Thomasson

## Acme Auto Service
**NELSON BROS.**



B-A OIL PRODUCTS

LUNDAR MANITOBA

## LUNDAR DRUGS
J. E. GRAY, Chemist

*Prescriptions*
*Veterinary Supplies*
*Drug Sundries*

**Phone 5431** **Lundar, Man.**

Heillaóskir frá þjóðræknisdeildinni á Lundar, Man., til Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi 1959.

**Þjóðræknisdeildin**

**LUNDAR MANITOBA**

**Heillaóskir til Þjóðræknisfélagsins og allra Íslendinga**

## JOHNSON'S STORE
**N. R. Johnson** **Oscar Johnson**
**Axel Johnson**

LUNDAR MANITOBA

***Compliments of . . .***

## F. E. SNIDAL
General Merchant

**Steep Rock** **Manitoba**

*Compliments of . . .*

## LUNDAR BAKERY
A. V. OLSON, Prop.

The Home of the Bread that made
**Mother Quit Baking**

**LUNDAR MANITOBA**

## BRECKMAN BROS.
Dry Goods - Clothing
Boots and Shoes
LUMBER, SASH & DOORS
Crockery - Hardware - Groceries
Flour and Feed

LUNDAR MANITOBA

## LUNDAR TRANSFER

**Daily Service**
**To and From Winnipeg**

L. Danielson, Prop. Lundar, Man.

## GORDON THORSTEINSON
Your Imperial Esso Agent

Box 152

**Res. Phone 5257 - Office 5653**

**LUNDAR MAN.**

## LUNDAR GARAGE
**FORD-EDSEL AGENCY**

**Imperial Oil Products**

**Phone 5321**

LUNDAR MAN.

The Executive of the Icelandic National League wish to convey their thanks and appreciation to their many friends and business associates who have advertised in this publication.

